# ÍSLENZK

# GRASAFRÆÐI

AF

*Ó. J. HJALTALÍN,*
DISTRIKTSKÍRÚRGUS.

ÚTGEFIN AÐ TILHLUTUN
HINS ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGS.



KAUPMANNAHÖFN.
Í PRENTSMIÐJU N. G. F. KRISTENSENS EKKJU.
PRENTUD AF J. D. KVIST.
1830.

Þeim staka lærða yðjusama

Vísdómselskara,

Hávelbornum Herra Konferenzráði

Dr. Júris M. STEPHENSEN,

Justitiario í þeim konúngliga íslenzka Landsyfirrétti. Tilsjónarmanni ens konúngliga íslenzka Landsuppfræðíngar-fèlags o. s. fr. o. s. fr.

Mínum ógleymanligum Velgjörara,
Fyrsta Frumkvöðli þessa Bæklíngs,
sem Vottr minnar djúpustu Virðíngar og þakklætis

tileinkuð

auðmjúkligast

af

*O. Hjaltalín.*

## Til Lesarans.

*Þess ber ei að dylja að nokkrir meðal landa vorra hafa gèfið næg rök til þess, að þeir fræða vildu landsmenn sína um urtir, þær er á voru landi gróa: nefni eg þartil á seinni tímum víselögmann* **Eggèrt Olafsson**, *landfysikus* **Bjarna Pálsson**, *prófast* **Björn Haldórsson** *og kammersekretèra* **Olaf Olavíus** *er að vísu vandliga hafa lýst ei að eins ræktunarmáta einstakra, heldr og-svo nytsemi margra eðr velflestra villiurta. En allar ritgjörðir þessara manna sýnast mèr vantað hafa hið nauðsynligasta, nefniliga nákvæma lýsíng sjálfra urtanna, hvaraf þær þekkjast og aðgreinast kynnu hvör frá annari. Nú vita allir að þekkíng hvörs hlutar verðr að gánga á undan lærdómnum um nytsemi hans, egi þessi síðari nokkuð að gylda.*

*Hèraf flýtr að ofantaldar ritgjörðir eigi hafa að svo miklu gagni komið, sem þær að öðru leiti gjört hefðu, og land vort hefir þess-vegna mátt ánvera nauðsynligra grasafræða.*

*Það hefði og að öllu leiti verið forgefins að vænta slíkrar ritgjörðar af mèr, hefði eigi sá að útbreiddum lærdómi og stakri yðjusemi alkunni landi vor, Hra. Konferenzráð Dr. júris*

*M. Stephensen, jústitiarius í landsins yfirrètti, hèrtil ei einasta upphvatt mig, heldr ogsvo með sínum ráðum og nauðsynligra bóka láni, styrkt og viðborgið mínum í slíku starfi veika mætti. Með hans styrk hefi eg því samið ritkorn þetta, er lýsa á velflestum urtum lands vors, þannig að bæði þekkist þær sjálfar sem og nytsemi þeirra, eptir þeim reglum, sem viðteknar eru af urtaþekkjurum (botanister).*

*I tilliti til sjálfs bæklíngsins sýnist mèr nauðsynligt að geta þess:*

1. *Að hann samanlesinn er, og útlagðr úr ýmsum skrifum urtaþekkjara, og lagaðr sem kunnátta mín til var, eptir þeirra máta; nefni eg þartil náttúruspekínginn Karl Linné, prófessor Oeder, en enkum prófessor í grasafræðinni og riddara J. W. Hornemann, hvörs mikilsmetnu ritgjörð: Forsøg til en dansk økonomisk Plantelære eg allstaðar, hvar möguligt var, fylgt hefi. Hèraðauki hefi eg til samanburðar haft við höndina Georg Wahlenbergs Floram Lapponicam; Samúel Liljublaðs svensku Floram; Kænigs Floram Islandicam; Mohrs Forsøg til en islandsk Naturhistorie; Sra Björns Haldórssonar Grasnytjar og Hra. Konferenzráðs Dr. júris M. Stephensens snotru Afhandling, om de til Menneskeføde brugelige Tangarter, og aðrar fleiri minna markverðar ritgjörðir; og að endíngu hèr og hvar lagfært verk þetta, eptir þeim*

*athugasemdum, er sá lærði og grasafróði Hra. distrikts-kírúrgus Sveinn Pálsson hafði gefið mèr þaryfir.*

*2. Allt hvað nytsemi og brúkun urtanna, svo vel til lækninga sem búskapar hagnytja snertir, er slíkt samið; sumpart eptir eigin reynslu, sumpart eptir fyrirmælum áðrtaldra ritgjörða; og kunna þeir tilteknu skamtar opt að vera heldr linir enn frekir, en eg vona að hvörs og eins reynsla muni hèrá bót ráða; þar eg áleit betra, að sú tilætlaða verkun nokkuð frestaðist, heldr enn að ofsterkir skamtar settu nokkurn í hættu eðr vanda. Þó má eg hèrhjá geta þess, að fæstar urtir lands vors hafa hastarliga sterka verkun* (drasticæ), *og er því sem optast óhætt að frekja skamt þann, sem tiltekinn er, þó með varúð, og að aðgættum kröptum og aldri þess veika.*

*3. Hvað áhrærir nöfn urtanna og þeirra einstöku parta, hefi eg leitazt við að smíða þau svo lík túngu vorri, sem eg bezt kunna, og þó á einstaka stað orðið að brúka en útlenzku. Orsök þessa hefir að nokkru leiti verið vankunnátta mín, er eg ei þekkti öll annars máske möguliginnlenzk urtanöfn, og að nokkru leiti fæð túngumáls vors á slíkum nöfnum, en með því slíkt er sameiginligr brestr flestra túngumála, að þau nefniliga í fyrstu vanta orð eðr nöfn til þess er ný vísindi og kunstir útheimta, þá vona eg að slíkt eigi til frambúðar hindri nytsemi bæklíngsins.*

*Að endíngu má eg viðrkannast að margt og mikið kann að vera áfátt í ritkorni þessu, bæði hvað snotrt mál og skiljanliga útskíríngu áhrærir; en — þar engum er lánað að kveða betr enn kann, eru það einustu úrræði mín, að biðja þá betr sjáandi um vorkun og umburðarlyndi, eins og eg ætíð skal meta það þá gleðiligustu umbun míns lèttvæga erfiðis, geti það í nokkru styrkt framför þekkíngar, velmegunar lífs- og heilsu-betrunar minna elskuðu landsmanna.*

*Grundarfirði þann* 20*ta janúar* 1826.

Ó. HJALTALÍN.

# Inngángr.

Það er óefandi sannleiki, að á landi voru spretta urtir allmargar, sem til lækninga og annara lífsins nauðsynja kynnu, framar enn skeðr, saman safnast og notast, ollir því meir vankunnátta og vanefni, heldr enn ei tilsèu, að þeirra kraptar ekki verða oss að gagni.

Þrennt er það sem útheimtist til þess, að maðr notað geti sèr, sem vera ber, blómstrríkisins auðlegð:

1. Nákvæm þekkíng urtanna sjálfra.
2. Þekkíng máta þess, er brúka skal, við söfnun, þurkun og geymslu urtanna.
3. Þekkíng á urtanna kröptum og nytsemi, blandi, og yfirhöfuð allri tilreiðslu þeirra, til verkunar þess góða, er þær af náttúrunnar herra tilætlaðar eru.

Þareð það er víst, að manneskjan með urtunum kann að fullnægja síns lífs og uppheldis stærstu kröfum, kann af þeim að fá fæði, klæði, húsaefni og læknisdóma, er ei að undra þótt manneskjan fljótt hafi skynjað þeirra ágæti, og rótfest sèr þeirra eiginligleika, og að þarfyrir seinna hafi kviknað vísindi þau, sem kallast grasafræði eðr *botanik*,

hvör þó að sönnu í fyrstu var ófullkomin, en hefir nú á seinni tímum náð rèttu vísinda-formi.

Það væri að öllu leiti ómöguligt að grannskoða og þekkja þann ótöluliga fjölda allra nú fundinna urta, ef menn ei til lèttirs sèr niðröðuðu þeim í vissa orðu: orða þessi kallast *systema*, en til að geta ákvarðað þeirra rètta stað í systeminu, er nauðsynligt að ánefna þeim ýmislig kennimerki. Kennimerki þessi kunna samt eigi alltíð að útskírast með almennu máli, hafa menn því neyðst til að smíða sèr margvíslig Vísinda-orð (*terminos*), sem þó öll útleggjast í Vísinda orðanna útskíríngu (*terminólógi*).

## Termínólogi
eðr
## Vísinda-orðanna útskíríng.

Urtirnar eru festar við vissan stað, t. d. jörðina, steinana eðr aðrar urtir, partr þeirra sá, hvarmeð þær festar eru, við tèða hluti, kallast **Rót**, og eru fáar urtir til, sem ei hafa hana, að undanteknum nokkrum af 23ja hópnum.

### Rótin (*Radix*) er:

trèlík (*lignosa*), þètt og hörð sem af trè væri;
kjötlig (*carnosa*), af kjötilíku efni;
holótt (*loculosa*), sem innaní hefir mörg geymsli;
hol (*cava*), sem er hol innan;
þètt (*solida v. integra*), þètt og án hola-innaní;
einföld (*simplex*), sem enga ánga hefir;
greinótt (*ramosa*), sem skiptist í margar greinir;

hárilík (*capillaris*), sem hefir margar smáar og hárilíkar greinir;
þræðilík (*filiformis*), sem er ærið mjó og jafnþykk;
aungótt (*fibrosa*), sem hefir marga þræðilíka ánga;
sívöl (*cylindriaca*), sem er sívöl og allstaðar jafnþykk;
ormilík (*vermicularis*), sívöl, en í smáhlykkjum sem ormr;
þveingilík (*sarmentosa*), sívöl, laung og mjó;
liðótt (*articulata*), er sú rót, sem hnúta hefir á sèr, en er nokkuð mjórri á milli þeirra;
tönnótt (*denticulata*), er kjötlig rót með smá-nöbbum útúr;
vendilík (*fasciculata*), með margar og mjóar kjötligar rætr, sem ofantil samtengjast í eitt;
hendilík (*palmata*), er kjötlig rót, sem ofantil er heil, en neðantil skiptist í marga smáparta sem fíngr;
tvíhnöllótt (*testiculata*), nær tveir kjötligir, af-lángir eðr hnöllóttir líkamir hánga samfastir ofantil;
toppilík (*fusiformis*), er sem toppr þykk ofantil, en fer ætíð jafnt mjókkandi niðreptir;
afbitin (*præmorsa*), er sem afbitin væri fyrir neðri endann;
kúlulík (*globulosa*), er sem kúla, með smáaungum útúr;
róumlík (*napiformis*), ofan þykk, en neðan með mjóum enda;
hnúskótt (*tuberosa*), er samanstendr af mörgum kjötligum hnúskum, þessir hánga nú annaðhvort

saman við endann á staunglinum, og kallast þá rótin

**sitjandi hnúskótt** (*tuberosa sessilis*); eðr og þessir hnúskar eru samanbundnir með smáþráðum og kallast hún þá

**hángandi hnúskótt** (*tuberosa pendula*);

**kornótt** (*granuláta*), er samanstendr af mörgum smáum kjötligum hnöttóttum kornum eðr pörtum;

**laukilík** (*bulbosa*), nær rótin er kjötlig og hnöttótt, en er samansett, sem með lögum eðr himnum hvört utanyfir öðru;

**vazflöt** (*horizontalis*), nær rótin liggr lángs með jörðunni, án þess að stíga upp eða niðr;

**rètthángandi** (*perpendicularis*), þegar rótin gengr rètt niðr í jörðina;

**skáhöll** (*obliqva*), nær hún gengr skáhöll niðr í jörðina;

**skríðandi** (*repens*), þá rótin gengr vazflöt, en þó undir sverðinum, og gefr smáþræði frá sèr;

**skrámótt** (*cicatricata*), með holum útvortis, sem opt framkoma af affalli blaðstaunglanna;

**hreystruð** (*paleacea*), sem hefir smátt og þunnt hreystr utaná.

Framvegis kallast **rótin**:

**árleg** (*annua*),

**tveggja** ára (*biennis*) og

**æfvarandi** (*perennis*).

## Staungullinn (*Cormus*).

Urtanna blöð og blómstr spretta annaðtveggja beinleiðis útaf sjálfri rótinni, eðr þau berast af

einhvörjum öðrum líkama, sem eptir sínu efni og ásigkomulagi hefir ýmislig nöfn, t. d.

**Staungull** *(caulis)* kallast hann enkum hjá þeim eiginligu urtum, hann ber þar blöð og blómstr.

Kvíslar þær, hann síðan skiptist í, kallast **greinar** *(rami)*.

**Bolr** *(truncus)* finnst alleina við eikr og trè, hann ber, sem áðr er greint, *blöð, blómstr og greinir*.

**Stráið** *(culmus)* á heima hjá strágrösunum.

**Stafr** *(stipes)* á heima hjá sveppunum og orðu þeirri, er hefir inni að halda Tófugras, Eltíngar, Túnglurtar- og Jafnakynið.

**Skaptið** *(scapus)* er staungull, sem ber blómstr en engin blöð.

**Mosastaungull** *(surculus)* á heima hjá mosunum.

**Vínkræklur** (svipa), *(sarmentum)* eru lángar þræði líkar og ófrjósamar rótatægjur, sem fyrst gánga upp úr jörðunni, og síðan niðr í hana aptr, og þá fyrst bera nýa urt.

**Reingla** *(stolo)*, eru blöðum settar skríðandi og ófrjósamar rótatægjur, sem þó á efri enda bera nýa urt.

**Blaðstaungull** *(petiolus)* er leggrinn, sem heyrir til hvörju blaði.

**Blómstrstaungull** *(pedunculus)* er leggrinn, sem ber hvört blómstr.

Í tilliti til **Staungulsins** *(caulis)* hefir maðr tilfundið eptirfylgjandi Kunst-orð.

a. *Í tilliti til staðarins, sem hann stendr á:*
**seníkjandi** *(parasiticus)*, þá rætr hans eru fastar við aðrar urtir;

**sveimandi** (*natans*), er hann flýtr á vatni;
**niðrsokkinn** (*demersus* og *submersus*), þá hann er niðri í vatni.

b. *Í tilliti til hvörnig hann sýnist, þá yfir þvert er skorinn:*

**sívalr** (*teres*), þegar hann er sem kefli;
**hálfsívalr** (*semiteres*), nær hann er sívalr á eina síðu, en flatr á aðra;
**samanþrykktr** (*compressus*), nær hann er flatr á báðar síður;
**tvíeggjaðr** (*anceps*), þá leggrinn er flatr, og hefir 2 eggjar hvörja móti annari;
**strendr** (*angularis*), hafi hann fleiri enn 2 eggjar, á hvörjum hærra ber enn hliðunum, soleidis eru til 3- 4- 5- og marg-strendir staunglar (leggir), (*tri- qvadr- qvinq- mult- angularis*);
**þrístrendr** (*trigonus*), hefir 3 sljófar eggjar og 3 flatar síður;
**liðóttr** (*articulatus*), hafi leggrinn liði á sèr, og sèu þeir ekki digrari enn staungullinn sjálfr; þarámóti sè hann digrari um liðina enn annarstaðar, kallast hann (*nodoso-articulatus*).

c. *Í tilliti til ytri ásýndar og þeirra hluta, sem utaná hönum finnast:*

**nakinn** (*nudus*), sè hann hvorki blöðum, flækjum, eðr öðrum aukapörtum gæddr;
**blaðlaus** (*aphyllus*), vanti hann að eins blöðin;
**næstum blaðlaus** (*subaphyllus*), hafi hann mjög fá blöð;

blöðóttr (*foliosus*), með mörgum blöðum;
blaðgengr (*perfoliatus*), gángi hann gegnum blað eitt;
hreystraðr (*squamosus*), hafi hann sem hreystr á sèr;
vængjaðr (*alatus*), finnist á 2 eða fleiri síðum staungulsins aflángar, upphækkaðar, niðraviðgángandi himnur;
sprúnginn (*rimosus*), sè hèr og þar á berkinum sprúngur;
korkbarkaðr (*suberosus*), sè börkurinn mjúkr, láti undan átaki, en taki sig þó aptr;
himnuklæddr (*tunicatus*), er þá börkurinn er utan klæddr himnu, sem þó losar sig sjálf frá hönum;
háll (*lævis*), sè ytra borð hans án randa, ráka eðr annara ójafna;
slèttr (*glaber*), sè ei á hönum hár, bustar eða broddar;
glansandi (*nitidus*), gljái á hann;
strikaðr (*striatus*), sèu á hönum rákir, er gángi lángs staunglinum;
skurðóttr (*sulcatus*), sèu rákir þessar djúpar og breiðar;
fyldr (*tomentosus*), sèu á hönum þèttvaxin, stutt og mjóvaxin hár, sem þó ekki eru so fast samflækt, að eigi verði aðskilin;
óslèttr (*scaber*), geti maðr þreifað en ei sèð smáa, útstandandi brodda;

snarpr *(apser)*, sèu broddar þessir mjög stíngandi og auðfinnanligir;
ullaðr *(lanatus)*, sè hann klæddr laungum þèttvaxnum hárum, sem þó geta aðskilizt;
loðinn *(villosus)*, er hann hefir laung og mjúk hár;
starhærðr *(hirsutus)*, hefir þètt og óþýðlig hár;
strîhærðr *(hirtus)*, hafi hann óþýðlig, meðalmáta laung og ekki þètt hár;
hvasshærðr *(hispidus)*, líkr þeim fyrri, en hárin eru óþýðligri og ennú styttri;
flathærðr *(strigosus)*, með stuttum, niðrbeygðum óþèttum hárum;
hærðr *(pilosus)*, með laungum hárum ei þèttum;
dúnhærðr *(pubescens)*, hefir stutt, fín, þètt og mjúk hár;
silkihærðr *(sericeus)*, með fínum beygðum, silkilíkum glansandi hárum;
broddaðr *(aculeatus)*, sitji broddarnir aðeins fastir í berkinum;
þyrnumbúinn *(spinosus)*, sitji broddarnir fastir í trènu sjálfu;
mjúkbroddaðr *(muricatus)*, sèu broddarnir stuttir og mjúkir;
límugr *(viscidus)*, sè hann yfirklæddr með seigum og límugum vessa;
laukberandi *(bulbiferus)*, nær hann, þar sem greinirnar kljúfast, ber laukmyndaða líkami.

d. *Í tilliti til skapnaðarins, og hvörnig hann stendr.*

heill *(simplex)*, sem engar greinir hefir;
greinóttr *(ramosus)*, sem hefir greinir;

**tvískiptr** *(dichotomus)*, skipti greinirnar sèr í 2 staði;

**þrískiptr** *(trichotomus)*, ef þær á sama hátt skiptast í 3 staði;

**krossgreinóttr** *(brachiatus)*, nær greinir þær, er standa hvör á móti annari, eru so settar, að þær mynda kross með þeim, sem fyrir ofan og neðan eru;

**hrísilíkr** *(virgatus)*, hafi hann margar lángar, skiptar og mjóar greinir.

e. *Í tilliti til þess, hvörnig hann stendr.*

**upprèttr** *(erectus)*, þá hann stendr að segja beint upp, sem sjá má hjá flestum urtum;

**rèttuppstandandi** *(strictus)*, standi hann beint upp;

**skáhállr**, sjá rótina;

**uppstígandi** *(ascendens)*, liggi hann niðr við rótina fyrst flatr við jörðina, síðan reisi sig boginn uppávið, en sè þó efst beinn upp;

**niðráviðbeygðr** *(declinatus)*, þá hann gengr niðrávið, þvertámóti sem hinn fyrri;

**lotinn** *(nutans)*, nær efri endi hans beygist mót jörðu;

**margskiptr** *(diffusus)*, nær hann annaðhvort hefir margar óregluliga útdreifðar greinir eðr staungla;

**svarðliggjandi** *(procumbens)*, þá hann aldeilis liggr flatr á jörðu;

**niðrlagðr** *(decumbens)*, nær mestr hluti hans, að neðsta partinum undanteknum, liggr á jörðu,

skríðandi (*repens*), nær hann er liggjandi, og skýtr rótum víða frá sèr;
rótumskjótandi (*radicans*), nær staungullinn er rèttr, en skýtr rótum í aðra hluti;
hlykkjóttr (*flexuosus*), til og frá með bugðum;
snúinn (*volubilis*), nær hann er sem undinn utan um annann hlut, annaðhvort til hægri hliðar eðr móti sólu, eðr vinstri hliðar, sólsinnis;
klifrandi (*scandens*), nær hann heldr sèr á lopt, við að festa sig við aðra hluti, en þó ekki með rótum.

f. *Í tilliti til hans innvortis ástands.*

stinnr (*rigidus*), láti hann ei beygja sig;
linr (*laxus*), sè hægt að beygja hann;
keyrilíkr (*flagelliformis*), nær hann er þunnr, lángr, veikr og liggjandi;
kræklóttr (*sarmentosus*), þá hann er veikr uppstígandi, og styðst við aðra hluti;
þèttr (*solidus*), þá hann er harðr og þèttr;
mergjaðr (*farctus*), þá hann er mergfullr;
holóttr (*fistulosus*), þá hann í mergjar stað er holr innan;
taugóttr (*fibrosus*), geti maðr rifið hann í smátaugar;
trèlíkr (*lignosus*), sè hann af trè;
kjötilíkr (*carnosus*), sè hann mjúkr og kjötilíkr;

g. *Í tilliti til tímans, sem hann varir í.*

eins árs (*herbaceus*), standi hann aðeins eitt ár,
ævarandi (*perennis*), þá rót hans lifir, þó staungullinn árliga falli;

**trèlíkr** (*arboreus*), nær á einum einasta stofni eru margar greinir ofantil;
**hrísl óttr** (*fruticosus*), sem neðanfrá annaðhvort hefir fleiri greinir eðr staungla;
**hálfuleiti hrísl óttr** (*subfruticosus*), þá stofninn viðvarir, þó greinirnar visnì ár hvört.

## Greinirnar (*Rami*) eru:

**mótstæðar** (*oppositi*), standi þær rètt á móti hvör annari, þó sín á hvörja síðu;
**missettar** (*alterni*), standi þær á víxl sín á hvörja síðu;
**tvísettar** (*distichi*), gjöri greinirnar eins og 2 raðir sína hvörju megin;
**kransilíkar** (*verticillati*), standi þær í krans um kríng staungulinn;
**dreifðar** (*sparsi*), standi þær híngað og þángað án orðu;
**þèttstandandi** (*conferti*), standi þær mjög nærri hvör annari;
**fjærstandandi** (*remoti*), standi þær lángt hvör frá annari;
**einsháar** (*fastigiati*), sèu þær jafnháar;
**þyrnumlíkar** (*spinescentes*), sè endinn á þeim óþýðr og hvass sem þyrnir;
**opnar** (*patentes*), standi næstum beint út frá staunglinum;
**útspanaðar** (*divaricati*), standi þær aldeilis beint út;
**niðrbeygðar** (*deflexi*), nær þær beygjast sem bogi niðrávið.

niðrhángandi *(reflexi)*, hángi þær næstum niðr með staunglinum;
samanhnepptar *(coarctati)*, þá endar þeirra eru beygðir innávið, og liggja næstum hvör á annari;
upprèttar *(erecti)*, standi þær rèttar upp;
ármerktar *(annotini)*, fái þær lið fyrir hvört ár.

*Um strdið heitir og, að það sè*

burstalíkt *(setaceus)*, þá það líkist svínsbursta eðr hári;
slíðrað *(vaginatus)*, sè það slíðrað í neðri enda blaðs;
knjábeygt *(geniculatus)*, sè það við neðsta lið knèbogið;
án liða *(enodis)*, sem hvorki hefir lið nè hnúta;
skáhallt *(obliqvus)*, standi það skáhallt upp;

Öll þau orð, er brúkast um skaptið, stafinn og mosastaungulinn, eru áðr framfærð, einasta er þess að geta, að Blaðstaungullinn kállast

kirtlumbúinn *(glandulosus)*, þá hann er útbúinn smáum líkömum, er líkjast kirtlum.

Blómstrstaungullinn *(pedunculus)*
ber alleina blómstr, og kallast

1—2—3 blómstr-berandi *(uni-bi-tri-florus)*,
sameiginligr *(communis)*, sèu fleiri blómstr á þeim eina;
smástaungull *(pedicellus)*, kallast smáleggir, er sameinaðir mynda þann stærri staungul;

**rótstaungult** *(radicalis)*, komi einstakr blómstrstaungull frá sjálfri rótinni;
**kögrlagðr** *(fimbriatus)*, sè hann á röndunum sem lagðr með kögri;

Allt annað, sem hèr segjast kann um blómstrstaungulinn, er áðr umgètið við staungulinn. Máti sá, er blómstrstaungullinn skiptist á, og sá ýmisligi háttur, hvarmeð blómstrin festast á hann, kallast með einu orði

## Blómstrunarform *(Inflorescentia)*,

hvaraf fylgjandi eru þau markverðustu:

### Axið *(Spica)*

samanstendr af höfuð- eðr axlegg *(rachis)*, hvará í röðum sitja blómstr, sem annaðhvort hafa engan eða mjög stuttan legg. Það er:
**einfalt** *(simplex)*, sè axleggrinn óskiptr;
**samansett** *(composita)*, beri höfuðleggrinn mörg smáöx *(spiculas)*.

Siðvanaligt er að kalla blómstrin, sem innilukt eru á grasategundunum í smáblöðrum, og svo öx, og kallast þau þá, eptir blómstranna tölu,
**1-2-3- blómstruð** *(uni-bi-tri-flora)*,
**búkmikið** *(ventricosa)*, þá það er mikið þykkvara í miðju enn til beggja enda;
**hnykilmyndað** *(glomerata)*, þá það samanstendr af mörgum samföstum smáöxum;
**einnar síðu** *(secunda)*, sèu öll blómstrin á eina síðu;

millumbilað (*interrupta*), sèu berir staðir á millum blómstranna;
kransilíkt (*verticillata*), þá blómstrin sitja í smáum krönsum;
2 til 6 sett, þakið, sívalt, rètt, eggilíkt, blöðótt og flatt, er áðr fráskírt.

## Klasinn (*Racemus*)

er einn stór höfuðleggr, frá hvörjum á lengdina útspríngaa smáir blómstrberandi og einslángir leggir. Hann er:
einnar síðu (*secunda*), þa öll blómstrin snúa á eina síðu.

## Hálfskýla (*Corymbus*),

frá höfuðleggnum útspríngaa aðrir minni leggir með blómstrum á, hvaraf þeir neðstu eru lengstir, en ná allir nærri eins lángt upp.

## Skýla (*Umbella*).

Þá aðskiljanligir nærstum einslángir blómstrleggir eðr geislar (*radii*) útspríngaa frá einum stað:

Skýlan er annaðhvort.
einföld (*simplex*), eðr og
margföld (*composita*);

þá nefnilíga, er tèðir blómstrleggir bera aðrar smáskýlur. Sú fyrsta kallast þá

## Stórskýla (*umbella universalis*),

og hin síðari

Smáskýla (*umbellula v. umbella partialis*).

Hún er:

**fáleggjuð** (*depauperata*), þegar geislarnir eru fáir, **halfkúlu- og kúlulík** (*semiglobosa* og *globosa*), sitjandi, leggjuð, þètt, ávöl, og flöt, (s. blöðin og rætrnar), geislablómstruð og jafnblómstruð, (s. krónuna).

Skúfr (*Cyma*).

Höfuðleggirnir standa nærri hvör öðrum við neðri endann, en skipta sèr síðan óregluliga í minni leggi. Skúfrinn er 3 til 5 skiptr (*tri-, qvinqvefida*), sjá undangángandi.

Blómstrhöfuð (*Capitulum*).

Þá mörg smáblómstr, sem annaðhvort hafa enga leggi eðr og stutta, eru samtengd í eitt höfuð, Sèu blómstrin mjög lítil og fá, en myndi þó sem eitt lítið höfuð, kallast það

Hnoða (*glomerus*).

Bindini (*fasciculus*)

er, þá margir stuttir, og nærri jafnlángir, blómstrleggir standa þètt saman á enda staungulsins.

Krans (*verticillus*)

kallast, þá mörg smáblómstr sitja í hríng um staungulinn; þvílíkir kransar eru opt margir á einum staungli, og er mislángt í milli þeirra, þeir fá auknöfn, eptir blómstranna fjölda. Kransinn kallast

**hálfr** *(dimidiatus)*, þá kransinn er umkríng hálfan staungulinn;
**blómstrblöðumbúinn** *(bracteatus)*, hafi hann blómstr-blöð;
**nakinn** *(nudus)*, þá hann hvorki hefir blómstr-blöð nè önnur blöð.

## Toppr *(Panicula)*.

Nær á lángveginn frá höfuðleggnum útgánga aðrir smærri leggir, hvörjum óregluliga er skipt. Han kallast
**blaktandi** *(flaccida)*, þá hann hefir lángar greinir, sem blakta híngað og þángað.

## Kögr *(Thyrsus)*.

Líkist þeim undangángandi, hvað leggjanna aðgreiníng og afstöðu áhrærir, en hèr eru blómstrin so þykkt samanpressuð, að leggirnir geta eigi sèzt fyrir blómstrunum.

## Strengr *(Amentum)*.

Samanstendr af einum höfuðstaungli, er hefir á sèr líkt sem smáhreystr, hvarundir blómstrið sjálft liggr, og kallast
**þunnr** *(gracilis)*, þá hann er smár og lángr.

## Blómstrblettr *(Sorus)*.

Svo kallast smáir blettir, sem myndast af blómstrunum eðr fræhúsunum, og eru að sjá neðan til á **burknablöðum** *(polipodii)*; þeir eru **krínglóttir** *(subrotundi)*, og **aflángir** *(lineares)*.

## Blöðin (*Folia*).

### 1. einföld Blöð

#### a. *Í tilliti til Broddsins:*

**hvasst** (*acutum*), nær það yzta af blaðinu er hvasst;

**úthvesst** (*acuminatum*), sè broddrinn sem útteygðr væri;

**sljóft** (*obtusum*), þá endinn af blaðinu er snubbóttr;

**stíngandi** (*mucronatum*), þá broddrinn er so hvass, að hann stíngr;

**afkubbað** (*truncatum*), þá broddrinn er sem afskorinn;

**þrítennt** (*tridentatum*), þá broddrinn er sem kubbaðr, enn hefir þó 3 tennr;

**afbitið** (*præmorsum*), sjá rótina;

**oddskorið** (*emarginatum*), þá endinn af einu afkubbuðu blaði er sem innskorinn væri;

**innþrykkt** (*retusum*), sè sem lítil bugða í enda blaðsins.

#### b. *Í tilliti til neðri enda blaðsins.*

**hjartalíkt** (*cordatum*), nær blaðið líkist eggi, en skiptist neðantil í 2 krínglóttar blöðkur;

**nýrumlíkt** (*reniforme*), þá það ofantil er aflángt, kringlótt, breiðara enn lengdinni samsvarí, og skiptist neðantil í 2 hálfkrínglóttar blöðkur, sem standa lángt hvör frá annari;

**ójafnt** (*inæqvale*), þá það er lengra neðantil öðrumegin;

**skeytilíkt** (*sagittatum*), þá eitt ofantil hvasst

blað skiptist neðantil í 2 aflángar, hvassar blöðkur, sem þó hánga niðr;
**spjótilíkt** (*hastatum*), líkt undangángandi, nema neðri blöðkurnar standa út;
**sporalíkt** (*calcaratum*), þá eitt blað hefir sem 2 spora á neðri enda sínum;
**eyrt** (*auriculatum*), hángi á neðri enda blaðsins 2 blöðkur, sem líkjast eyrum.

c. *Í tilliti til ummálsins.*

**kríglótt** (*orbiculatum*), þá blaðsins þvermál allstaðar er jafnlángt;
**nærþvíkrínglótt** (*subrotundum*), nær það líkist því undangángandi, utan að þvermálið er ei allstaðar jafnt;
**aflángt** (*ovale*), þá báðir endarnir eru jafnbreiðir, en breiddin hèrumbil helfíngi minni enn lengdin;
**lángleitt** (*oblongum*), líkt hinu, utan breiddin er miklu minni enn lengdin;
**eggmyndað** (*ovatum*), nær lengd þess er meiri enn breiddin, og mjókkar til beggja enda, sem þó eru ávalir;
**rekumyndað** (*spatulatum*), þá það er hálfkrínglótt í efri endann, en mjókkar allt í einu um miðjuna;
**fleigmyndað** (*cuneiforme*), líkt því næstundangángandi, utan að það smámsaman mjókkar, og er afkubbað við neðri enda;
**lensulíkt** (*lanceolatum*), þá það verðr hvassara til beggja enda;

**sverðilíkt** (*ensiforme*), lángt blað, sem frá neðri til efri enda smámsaman mjókkar;
**strikmyndað** (*lineare*), þá blaðið er mjótt, en allstaðar eins breitt;
**smámjókkandi** (*attenuatum*), þá blaðið ætíð mjókkar uppeptir;
**hárilíkt** (*capillare*), þá blaðið er mjög mjótt líkt sem þráður;
**alilíkt** (*subalatum*), nær blaðið við neðri endann er strikmyndað, en tilhvesst við efri endann;
**nálmyndað** (*acerosum*), þá blaðið er óþýdt og strikmyndað;
**þrístrent** (*triangulare*), þá blaðið myndar sem þríhyrníng, og hvörs eins oddr er ogso blaðsins oddr;
**múraraspaðalíkt** (*deltoideum*), er að sönnu 4-strent, en þær efstu randir 2 eru lengstar, hinar neðri 2 koma þannig hvör saman við aðra, að þær mynda nær því beint strik;
**skakkferhyrnt** (*rhombeum*), þá blaðið myndar lángleitan ferhyrníng, hvörs síðuhorn standa nær mitt á milli neðri og efri enda;
**flipað** (*lobatum*), þá eitt nokkurnveginn kringlótt blað er útskorið í miðju í 2 eðr fleiri parta, hvarfyrir það og kallast
**tvíflipað** (*bilobum*), **þríflipað** (*trilobum*);
**hendilíkt** (*palmatum*), þá eitt kríngiótt blað hefir 5 eða 7 jafnstóra flipa, milli hvörra skorur gánga dýpra enn mitt inn í blaðið;
**skipt** (*partitum*), þá skorurnar á einu næstum kríngióttu blaði ná niðr til neðri endans;

**leppótt** (*laciniatum*), þegar eitt lángleitt blað hefir aðskiljanliga flipa án tiltekinnar myndar;
**bugðótt** (*sinuatum*), nær það á síðunum hefir hálfkrínglótta útskurði;
**hálfuggað** (*pinnatifidum*), nær það hefir aðskiljanligar skorur inn í síðurnar, sem ná næstum inn að miðju, og fliparnir standa beint út;
**hörpumyndað** (*lyratum*), líkt næst undangángandi, nema að endaflipinn á því er stór og nærþví krínglóttr;
**kreflilíkt** (*runcinatum*), hafi það stóra síðuleppa, hvörra efri rönd er ávöl, en neðri röndin íbjúg;
**óskipt** (*integrum*), sè blaðið að öllu óskipt, og hafi engar skorur, það getr þarfyrir haft smánabba.

d. *Í tilliti til randanna.*

**heilrandað** (*integerrimum*), sè röndin að öllu heil og óskert, blaðið getr þarfyrir verið 2- 3- osfr. -skipt;
**brjóskrandað** (*cartilagineum*), sè röndin brjóski lík;
**bylgjótt** (*undulatum*), sè röndin á víxl beygð upp og niðr;
**hríngnöbbótt** (*crenatum*), sèu á röndinni margir hálfhríngmyndaðir nabbar, sem standa beint út;
**tennt** (*dentatum*), sèu randirnar með smátönnum, sem standa beint út, og ei allnærri hvör annari;

**randhært** (*ciliatum*), sè röndin hærð eðr með hárum;

**nagað** (*erosum*), sè röndin þannig ójafnt útskorin, sem nöguð væri;

**hríngbugðað** (*repandum*), sèu í röndinni breiðir bugir, og milli þeirra breiðar hæðir;

**þyrnumvaxið** (*spinosum*), sè röndin með smáþyrni-broddum;

**smátennt** (*denticulatum*), sè blaðið tennt, en tennrnar smáar;

**Sagtennt** (*serratum*), sèu tennr blaðsins þèttar og hvassar, og oddar þeirra snúi móti enda blaðsins;

**smásagartennt** (*serrulatum*), sèu tennr þess mjög smáar og þèttar;

**tvítennt, tvínabbað og tvíhríngnabbað** (*duplicato dentatum, serratum, crenatum*).

e. *Í tilliti til flatvegsins.*

**krúsað** (*crispum*), þegar randir blaðsins eru meir útbeittar eða þynntar enn miðjan, hvaraf það þá fær óreglugligar bugtir eðr hlykki;

**flatt** (*planum*), kallast almennt kjötligt blað, sem er jafnt á yfirborði sínu;

**íbjúgt** (*concavum*), hafi það hvilft í miðju;

**rennótt** (*canaliculatum*), hafi það rennu í miðju á lánginn með höfuðrifinu og hliðarnar sèu hærri;

**hrukkað** (*rugosum*), hafi það margar æðar, er sèu djúpt liggjandi á efra yfirborðinu, en upphækkaðar á neðra yfirborðinu;

**rykkt** *(plicatum)*, þegar rykkíngar blaðsins eru stórar og regluligar, byrja við neðri enda, og eru þètt samrykktar;
**æðamargt** *(venosum)*, sèu æðar blaðsins margkvíslaðar, og komi fram af miðrifinu;
**sinótt** *(nervosum)*, gángi ofantèðar æðar frá neðri enda blaðsins, án þess að vera kvíslaðar;
**æða- og sinalaust** *(avenium enerve)*, þvertámóti þeim nærstandangengnu;
**þrísinótt** *(trinerve)*, gángi 3 æðar frá neðri enda blaðsins;
**stúngið** *(punctatum)*, eins og það sè með smáum nálarförum;
**glansandi** *(lucidum)*, bregði af því glansa;
**myrkleitt** *(opacum)*, sè það án glansa;
**litað** *(coloratum)*, hafi það annan lit enn grænan;
**hvelft** *(convexum)*, sè miðja blaðsins meir upphækkuð en röndin.

f. *Í tilliti til staðarins.*

**rótblað** *(folium radicale)*, þegar það spríngr út frá rótinni;
**fræblað** *(f. seminale)*, nær það spríngr út frá fræinu;
**staungulblað** *(f. caulinum)*, nær blaðið sitr á höfuðstaunglinum;
**greinablað** *(f. rameum)*, sem kemr út frá greinunum;
**blaðhjáblómstri** *(f. florale)*, þegar blaðið stendr

nærri blómstrinu, þó án þess að vera ólíkt öðrum blöðunum.

g. *Í tilliti til hvörnig þau standa.*

Mótstætt, missett, stráð, þèttstandandi, fjærstandandi, einsett, þakið, twísett, kransilíkt, s. greinirnar.

3-4-5-6 o. s. fr. saman *(terna, qvina, sena, etc.)*, nær 3 eða flejri blöð standa í hríng um staungulinn;

stirnt *(stellata)*, þegar blöð af ótiltekinni tölu standa í hríng um staungulinn með nokkru millibili;

í bindinum *(fasciculata)*, nær fjöldi blaða útspríngr frá einum vissum stað;

twí-þrí-fjór-fimm-sett *(bi-tri-qvadri-qvinqvefaria)*, nær blaðið er þrí o. s. fr. sett, og optast ásamt þakið.

h. *Í tilliti til hvörnig þau eru fest.*

leggjað *(petiolatum)*, þá blaðið sitr á legg;

sitjandi *(sessile)*, þegar blaðið hefir engan legg,

ávaxið-sitjandi *(basi-solutum)*, þegar eitt kjötligt blað soleiðis er fest við staungulinn, að neðri endi þess er laus frá;

skjöldmyndað *(peltatum)*, þegar leggrinn er festr þvínær við miðju á blaðsins flatveg;

niðrhlaupandi *(decurrens)*, gángi nokkuð af sitjandi blaði niðr eptir leggnum;

umfaðmandi *(amplexicaule)*, þá neðri endi blaðs-

ins umkríngir, eðr sem umfaðmar staungulinn;

**gegnumborað** *(perfoliatum, s. perforatum)*, þá staungullinn gengr í gegnum blaðsins flatveg;

**slíðrandi** *(vaginans)*, myndi blaðið sem slíðrar utanum staungulinn;

**samvaxið** *(connatum)*, þá 2 mótstæð blöð eru samvaxin við neðri endann;

**aðvaxið** *(adnatum)*, þá neðri endi blaðsins er fastvaxinn við staungulinn.

i. *Í tilliti til þess, hvörnig það liggr.*

**aðþrykkt** *(appressum)*, þá blaðið er uppstandandi, og liggr á yfirborðið að staunglinum;

**upprètt** *(erectum)*, þá blaðið stendr nærri upp með staunglinum;

**skáhallt** *(obliqvum)*, þegar neðri endi af blaðsins flatveg stendr beint út að, enn hinn efri beint upp að;

**innbeygt** *(inflexum)*, nær efri broddr blaðsins beygist inn að staunglinum;

**jafntliggjandi** *(horizontale)*, gángi yfirflötur þess beint út;

**ofanáviðundið** *(revolotum)*, sè rönd blaðsins niðrávið undin, móts við neðra yfirborð þess;

opið, niðrávið sveigt, niðrhángandi, rótumskjótandi, sveimandi, niðrsokkið. Sjá staungulinn.

k. *Í tilliti til efnisins.*

Kjötligt, ávalt, holótt, samanþrykkt, tvíeggjað, s. rótina og staungulinn.

**himnulíkt** *(membranaceum)*, þegar blaðið er so

þunnt, að það ekki samanstendr nema af 2 himnum, sem eru samfastar, eins og flest blöð eru;

**pípótt** (*tubulosum*), þá eitt lángt kjötligt blað innan til er holt;

**tvípípótt** (*biloculare*), þá eitt pípótt blað innan til eptir lengdinni er skipt í 2 rúm;

**liðótt** (*articulatum*), þegar eitt sívalt blað innvortis á þverveginn er skipt í fleiri rúm;

**búngótt** (*gibbum*), þá bæði yfirborð blaðsins eru búngótt;

**túngumyndað** (*lingueforme*), þá eitt samanþrykkt lángt blað er ávalt í endann.

## 2. Samansett Blöð.

a. einfalt samansett (*compositum*),

**þá mörg smáblöð** (*foliola*), eru fest við einn blaðlegg;

**fíngrað** (*digitatum*), þá mörg blöð standa við neðri endann á einum sameiginligum legg;

**þrífest** (*ternatum*), þá 3 blöð standa á einum legg;

**fimmfest** (*qvinatum*), þá 5 blöð standa á einum blaðlegg;

**uggað** (*pinnatum*), þá mörg smáblöð standa á báðar síður, á einum sameiginligum blaðlegg;

**misjafnt uggað** (*pinnatum cum impari*), þegar efst stendr einúngis eitt blað;

**paruggað** (*pinn. c. pari*), þá efst á blaðinu eru 2 smáblöð saman;

**mótsett uggað** *(opposite pinnat.)*, þá smáblöðin standa hvört á móti öðru;
**á víxl uggað** *(alternate pinnat.)*, þá blöðin standa á víxl;
**uggað með millibilum** *(interrupte pinn.)*, þá smáblöðin eru misstór;
**mínkandi uggað** *(pinn. foliis decrescentibus)*, þegar smáblöðin mínka, eptir því sem uppeptir blaðinu kemr;
**kambuggað** *(pectinato pinn.)*, þá smáblöðin eru þètt, og horfa öll eins;
tala smáblaðanna er óviss og aðskiljanlig.

b. tvöfalt samansett *(decompositum)*,

Þegar blaðleggrinn skiptist í minni leggi, sem hvör fyrir sig ber mörg blöð:
**tvisvarsinnum þrífest** *(biternatum)*, þá blaðleggrinn skiptist í 3 parta, sem hvör fyrir sig ber blöð;
**tvíuggað** *(bipinnatum)*, þá staunglarnir á blöðunum bera fleiri staungla, sem hvör fyrir sig er eitt uggað blað.

c. meir enn tvöfalt samansett, *(supradecompositum)*.

**þrisvarsinnum þrífest** *(triternatum)*, þá blaðleggrinn er tvisvar þrískiptr, og sèrhvör partr þessara ber 3 blöð;
**þríuggað** *(tripinnatum)*, þegar höfuðleggrinn á hliðunum ber minni leggi, þessir svo aptr enn minni leggi, sem hafa ugga;

Þegar útskíríngin ekki er aldeilis fullkomin, en þó betri heldr enn önnur, tilleggst orðið næstum (*sub-*), t. d. næstum eggmyndað (*subovatum*). Þegar myndin snýr þvert ámóti því, sem útskíríngin, tilleggst orðið umsnúið (*ob-*), t. d. umsnúið hjartamyndað (*obcordatum*), þegar leggrinn er festr við hvassa endann á hjartmynduðu blaði.

Sè blaðið svo myndað, að það líkist tvennu, líkist það við hvorttveggja, s. s. eggmyndað lensulíkt (*ovato-lanceolatum*).

*Við einföld blöð skal maðr hèraðauki merkja fylgjandi athugasemdir.*

Flipi (*lobus*), er ávöl upphækkun á einu innskornu blaði.

Leppr (*lacinia*), er hartnær það sama, að því undanteknu, að upphækkanirnar ei eru svo jafnar, og hvassari í oddinn.

Smáblað (*foliolum*), eru smáblöðin í samsettum blöðum;

úggi (*pinna*), eru smáblöðin á ugguðum blöðum;

horn (*angulus*), er broddr einnar skoru, sem er inní blaðið.

Bugr (*sinus*), er útskorið íbjúgt millibil millum blaða-leppanna elligar flipanna.

## Brumið (*Frons*)

eru blöðin á 1tu orðu 23ja hópsins;

á þarramosunum (*lichenibus*) kallast blöðin ogsvo brum;

**þau eru hlaupilík** *(gelatinosa)*, **skinnilík** *(coriacea)*;

**naflasett** *(umbilicata)*, sè eitt kríngl ótt brum við eina upphækkun á miðjunni fast við þann líkama, sem það vex á;

**hrúðrilík** *(crustacea)*, þá þeirra skapnaðr er skorpulíkr;

**duptilík** *(pulverulenta)*, þá þeirra skapnaðr er af dupti. *

Aukapartar *(Fulcra)*

eru frá undangángandi aðskildir partar, sem skýla, verja og að nokkru leiti halda urtinni upprèttri; þeir markverðustu þeirra eru:

Axla eðr Aukablöð *(Stipulæ)*

eru smáblöð, sem opt eru mjög ólík að skapnaði þeim eiginligu blöðum, og standa við neðri enda blaðsins eðr leggsins; þau eru:

**tvenn** *(geminæ)*, **ein** *(solitariæ)*, **síðusett** *(laterales)*;

**undir- og yfir-blaðklu** *(extra- & intra-foliaceæ)*;

**mótstæð** *(oppositifoliæ)*, **affallandi** *(deciduæ)*, þegar þau falla af skömmu áðr enn blaðið;

**burtfallandi** *(caducæ)*, þegar þau falla af skömmu eptir að blaðið springr út; og

---

* Annars er alltítt í grasafræði, að kalla brumið á ofantöldum urtum allteins blöð, og á öðrum, enkum í lýsíngu plantanna.

**ævarandi** *(persistentes)*, þegar þau visna ekki fyrr enn með eðr eptir blaðið;
**brunablettótt** *(sphacelatæ)*, þegar þau hafa mosalitaðan blett á miðjunni.

## Blómstrblöð *(Bracteæ)*.

Þau eru annaðhvort hjá eða millum blómstranna, og eru mjög fráleit þeim öðrum blöðum bæði að mynd og lit; eru mörg þessara samansöfnuð í hóp fyrir ofan blómstrin, þá kallast það **Blaðskúfr** (*coma*).

## Slíðrið *(vagina)*

kallast neðri endinn af því blaði, sem er í hríng um staungulinn sem slíðr.

## Blaðra *(ampulla)*

kallast lítill hnöttóttr, holr líkami, sem er við rótina á nokkrum vatnaurtum.

## Slíðrhimna *(ligula)*

er lítið himnulíkt blað, sem vex á rönd slíðrsins á strágrösunum.

## Bindþráður *(cirrhus)*

er þráðmyndaðr líkami, sem optast er framhald blaðleggsins, og heldr þeim klifrandi urtum föstum, hann er optast sem snúinn væri, og kallast eptir staðnum, sem hann vex á; hann er:
**einfaldr** *(simplex)* elligar **tví-þrí-skiptr** *(bi-trifidus)*, og **2-4 blöðum settr** *(di-tetraphyllus)*

o. s. fr., eptir því sem blaðið, er hann vex á, hefir 2, 4 eðr fleiri smáblöð.

## Auga *(gemma)*

er lítill nabbi, samanstandandi af skellíkum smáblöðum, og sem hefir inni að halda fyrstu byriun til blaðanna og blómstranna. Blöðin eru með ýmsu móti hérí innilokuð; t. d. innundin *(involuta)*, ofanáviðundin *(revoluta)*, samanundin *(obvoluta)*, samanlögð *(conduplicata)*, rykkt *(plicata)*, kúfúngsmynduð *(circinata)*.

## Kyrtlar *(glandulæ)*

eru smáir krínglóttir líkamir, sem optast eru á blöðunum, elligar á staunglinum, sem verka útdömpun og saftanna aðskilnað.

## Þyrnirinn *(spina)*, og Broddrinn *(aculeus)*,

sjá staungulinn.

## Strí *(arista)*

er svínshári líkr líkami, sem sitr ofaná grasstráablómstrunum; það er:

snúið *(tortilis)*, þegar það snýst sem skrúfugángr;
knébogið *(geniculata)*, og sitr í broddi (*terminalis*), eðr á hrygg (*dorsalis*) blómstrsins.

### Hár (*pili*),

eru **klofin** (*furcati*), **bindinumlík** (*fasciculati*), **krókmynduð** (*uncinati*). Adrar tegundir háranna eru útskírðar við staungulinn.

Á Sveppunum heitir hèraðauki **Hattr** (*pileus*), sem er kjötligr líkami, sem ofantil er ávalr, en neðantil íbjúgr, og líkr hatti, sitr a efri enda stafsins, og er að finna með blaðsveppunum.

### Seglhimnan (*velum cortina*)

er þunn himna, sem nær frá rönd hattsinns og að stafnum; opt verðr nokkuð eptir af himnu þessari við stafinn, þá hattrinn útspríngr, eðr útbreiðir sig, og myndar þá hólk, sem kallast **Hríngr** (*annulus*). Áðr enn sumir sveppanna útspringa eðr útbreiða sig, eru þeir inniluktir í himnu einni, er kallast **Ábreiða** (*volva*).

### Blómstrið (*Flos*)

kallast sá partr urtanna, er sem optast hefir annan lit enn þær, og sem sýnir sig nokkrum tíma áðr enn ávöxtur urtarinnar framkemr. Þessi partr urtarinnar innibyrgir eðr skýlir hennar getnaðarlimum, eðr æxlunarverkfærum, hvör verkfæri, eins þó ber sèu, eðr án blómstra, sjálf kallast blómstr. Þeir markverðustu partar blómstrsins eru:

**Blómstrskýlan** (*calix*), **Krónan** (*corolla*), **Hunángshirzlan** (*nectarium*), **Duptberarnir** (*stamína*), **Dupthirzlan** (*pistillum*). Blómstrið

er einfalt (*simplex*) eðr samansett (*compositus*).

Blómstrið kallast svo, þá margar krónur, sem engan bikar hafa, og hvörra dupthnappar eru sem inngrónir, sitja allir í einum bikar. Hópsett (*aggregatus*) kallast blómstrin, þá margar krónur, hvaraf hvör hefir sinn eiginn bikar, sitja fastar á einum sameiginligum bikar, án þess að dupthnapparnir sèu samangrónir. Blómstrið kallast nakið (*nudus*), hafi það hvorki krónu eðr bikar; en blaðlaust (*apetalus*), þá það einúngis vantar krónuna; bikarlaust (*corollaceus v. aphyllus*), hafi það engan bikar; hannblómstr (*masculinus*), sèu á blómstrinu einúngis duptberar; hûnblómstr (*femininus*), hafi blómstrið einúngis dupthirzlurnar, og tvíkynjað (*hermaphroditus*), hafi það hvorutveggju verkfærin. Þau samansettu blómstr kallast túngublómstrandi (*semi-flosculosus*), hafi blómstrið einúngis túngumyndaðar krónur; skerborðsblómstrandi (*discoideus*), sè blómstrið samsett af pípumynduðum krónum; og geislablómstrandi (*radiatus*), sè blómstrið samsett af pípumynduðum krónum í miðju, sem kallast Skerborð (*discus*), og á röndunum af túngumynduðum krónum, er kallast Geislar (*radii*).

## Blómstrskýlan (*calix*).

Með nafni þessu nefnast þau eðr það blað, sem umgirða krónuna, þau eru sem optast af þèttara og harðara efni gjörð, og ólituð, eðr hafa sama lit og urtin.

**Blómstrskýlan hefir fylgjandi tegundir, sem eru bikarinn (*perianthium*), belgrinn (*gluma*), sameiginligi bikarinn (*anthodium*), hreystrið (*squama*), þelið (*pappus*), mosabikarinn (*perichætium*), hulstr (*spatha*), reifar (*involucrum*).**

## Bikarinn (*perianthium*)

umgirðir beinlínis eitt einasta blómstr, og er með 1-2-3-4 og fleiri blöðum (*mono- di- polyphyllum*), sèrhvört einstakt blað kallast ogsvó *Foliolum*;

einfaldr (*simplex*) og tvöfaldr (*duplex*), þegar eitt blómstr er umkríngt af 2 blómstrbikurum;

visnandi (*marcescens*), sem visnar skömmu eptir að urtin hefir blómstrað;

affallandi (*deciduum*), sem visnar strax eptir blómstrunina;

burtfallandi (*caducum*), sem fellr af, áðr enn urtin hefir blómstrað;

óskiptr, heill á röndum, skiptr, klofinn, sjá blöðin;

tvívaraðr (*bilabiatum*), þá hann skiptist í 2 parta;

gapandi (*hians*), þá bikarblöðin gapa sundr hvört frá öðru;

aptrlokaðr (*clausum*), þegar blöðin hengja sig fast um krónuna;

pípumyndaðr (*tubulosum*), þá bikarinn myndar sem pípu;

útflattr (*patens*), þá blöðin, eðr hinn útskorni partr hanns, stendr rètt út;
uppblásinn (*inflatum*), þá hann er gildr og holr;
tilbakabeygðr (*reflexum*), þegar blöðin eðr lepparnir eru beygð á bak aptr;
brjóskilíkr (*cartilagineum*), þá efni hans er brjóski líkt;
litaðr (*coloratum*), þá hann hefir annan lit enn grænan;
kórónaðr (*corolliferum*), þá krónan vex á bikarnum;
nálberandi (*staminiferum*), þá duptberarnir eru fastir á hönum;
styttr (*abbreviatum*), þegar hann er styttri enn krónunnar pípa;
sívalr, sjá blöðin;
fyrir ofan sitjandi (*superum*), þá hann sitr ofaná ávextinum;
fyrir neðan sitjandi (*inferum*), þá hann sitr undir avextinum;
trektmyndaðr og flatkragaðr, sjá krónuna;
strendr og sem hefir fleiri hliðar (*angulatum, prismaticum*), þá hann hefir margar strendr og hliðar.

Þeir aðskildu partar bikaranna kallast, eins og við blöðin: tennr, leppar o. s. fr.

## Belgrinn (*Gluma*).

Þannig kallast bikarinn á grasstráunum, sem optast innilykr hann fleiri enn eina krónu. Blöð þau,

er hann samanstendr af, kallast **Blöðkur** (*valvulæ*), og eptir tölu þessara og blómstranna fer og nafn **belgsins**, hann kallast: **einblaðkaðr** (*univalvis*), **tvíblaðkaðr** (*bivalvis*), **þríblaðkaðr** (*trivalvis*), **hópsettr** (*aggregata*).

## Sameiginligi Bikarinn (*Anthodium, calix communis*).

Svo kallast bikarinn, er hann innilykr mörg smá blómstr, hvör eð þessvegna eru að útliti sem eitt blómstr væri, hann er **einblaðaðr**, **margblaðaðr**, **einfaldr**, sjá bikarinn;

**jafn** (*æqvale*), þá blöð hans eru jafnlaung;

**þaktr** (*imbricatum*), þá hans blöð liggja hvört ofaná öðru;

**útþaninn** (*sqvarrosum*), þá oddar smáblaðanna beygjast útávið;

**toppmyndaðr** (*turbinatum*), sè hann mjórri í annan endann enn í hinn, og þaraðauk sívalr;

**tvöfaldr** (*caliculatum*), nær utan yfir einum bikar standa niðr við neðri enda hanns styttri blöð í hríng, sem umgirða hann sem annan bikar.

**Þurhimnaðr** (*scariosum*), sèu blöðin vessalítil og óþýð;

**brendr** (*sphacelatum*), finnist á blöðunum helzt við broddinn, svartleitir blettir, sem brendir væri.

Á þeim hópsettu urtum, sem fyrir utan þann almenna bikar, ennú hafa bikar fyrir hvört eitt

blómstr, kallast þetta hinn eiginlegi bikar (*perianthium proprium*).

## Hreystrið (*sqvama*).

Með nafni þessu nefnast smáblöð þau, sem hylja blómstrin á Strengnum (*amento*).

## Þelið (*pappus*)

er ein tegund af bikar við þau samansettu blómstr, samanstandandi af hárum, eðr þunnri himnu, það útskírist greiniligar við Fræið.

## Mosabikarinn (*perichætium*).

Svo kallast smá þökt blöð, sem eru við neðri enda ávaxtar-staungulsins eðr burstans*, og eru minni enn hin önnur blöð.

## Reifarnar (*Involucrum*)

samanstanda af nokkrum smáblöðum, er mismuna frá öðrum blöðum urtanna, og standa nokkuð dreift í hríng kríngum staungulinn, sem blómstrin spretta á, svo að blómstrin eru innilukt, áðr enn þau springa út, þær eru einkum að finna við skýlu-urtirnar, og teljast meðal aukapartanna; þær eru:

sameiginligar (*universale*), þá þær innilykja stóra skýlu;

minni (*partiale v. involucellum*), þá smáskýlur eru í þeim innibyrgðar;

---

* bursti (*setaceum*) kallast í grasafræðinni eitt óþýdt uppstandandi hár, er líkist svínshárum, eðr svínsbursta.

**hálfar** (*dimidiatum*), þá þær umkríngja hálfa eðr aðra hlið skýlunnar;

**marghærðar** (*multisetosum*), samanstandi þær af mörgum smáum óþýðum hárum, er kallast burstar.

## Hulstrið (*Spatha*)

er lángleitt blað, sem innilykr blómstrið, áðr enn það springr út, og umkríngir staunguliun með neðri endanum. Það er himnulíkt, og á heima hjá nokkrum tegundum liljugrasanna, lika nokkrum öðrum urtum. Það opnar sig sem optast lángs eptir annari hliðinni, og kallast þá **einblaðað** (*univalvis, monophylla*); stundum líka á báðum hliðum, og kallast þá **tvíblaðað** (*diphylla v. bivalvis*);

**hálfskýlandi** (*dimidiata*), þá það einungis innilykr eðr skýlir blómstrinu á aðra hlíðina;

**einublómstrisett, 2-blómstrumsett, visnandi, viðvarandi,** (s. bikarinn).

## Krónan (*Corolla*)

hún er að finna fyrir innan blómstrskýluna, og umkríngir æxlunar-verkfærin, hún er sem optast af fínara efni gjörð, og varir skemr enn urtin, hefir optast annan enn grænan lit. **Krónunnar blöð** kallast: **krónublöð** (*petala*), hún er annaðhvort **einblöðuð** (*monopetala*) eðr og **margblöðuð** (*polypetala*), sú fyrri kallast svo, þó skorur sèu á henni, sem ná nærri niðr úr gegn.

Þegar neðri endinn er sívalr og þynnri enn hinn partrinn, kallast hún **pípa** (*tubus*). Þessa er

að finna við allar einblaðaðar krónur, að þeim undanteknum, sem eru klukku- og hjólmyndaðar. Krónunnar útflatta op kallast Kragi *(limbus)*, og pípumunninn kallast Gin *(faux)*, hvarum fylgjandi útskíríng brúkast:

krónað gin *(f. coronata)*, þá það er sett með nokkrum nöbbum, sem kallast með einu orði Ginkransinn *(corona)*;

aptrlokað *(clausa)*, er það hefir ávalt smáhreystr, sem kallast Hetta *(fornix)*;

opið *(pervia)*, finnist þar ekki aðgreindir líkamir;

skeggjað *(barbata)*, sjá hunángshirzlurnar.

Krónurnar kallast jafnar *(æquales)*, þá þeirra aðskiljanligu partar eru jafnstórir, og ójafnar *(inæquales)*, þá partar þeirra eru misstórir;

óreglulig króna (*c. irregularis*) heitir, þá partar hennar eigi eru allir jafnstórir eðr skiptir.

Tegundir enna jöfnu einblöðuðu króna eru fylgjandi:

hjólmynduð (*rotata*), sem hefir flatan kraga en enga pípu;

pípumynduð (*tubulosa*), þá pípan hefir engan kraga; þetta nafn tilleggst enkum skerborðskrónunum við samsettu blómstrin;

flatkrögótt (*hypocrateriformis*), er hún hefir flatan kraga og lánga pípu;

ábakbrotin (*refracta*), þá kraginn er sem brotinn og beygðr á bak aptr;

trektmynduð (*infundibuliformis*), þá pípan smám-

saman þykknar uppeptir, og efsta rönd hennar er útflött;

kúlumynduð (*globosa*), þá hún er eins til beggja enda, en víð um miðjuna, svo hún að myndinni líkist kúlu;

eggmynduð (*ovata*), eins og sú næstnefnda, en lengri og þykkvari í neðri endann;

klukkumynduð (*campanulata*), sè hún víð nokkuð í neðri endann, vanti pípurnar, og útflött í efri endann.

Þær *ójöfnu einblöðuðu krónur* eru fylgjandi:

túngumynduð (*ligulata*), er hefir mjög stutta pípu, sem að endíngu myndar eitt lángleitt blað.

tvívöruð (*bilabiata*), þá munni hennar skiptist í 2 auðsènar varir, sem eru hvor móti annari; þvílík króna kallast umhverf, vegna þess hún stendr þvert ámóti því, sem vanaligt er;

einvöruð (*unilabiata*), lík þeirri næst undangángandi, utan aðra vörina vantar;

gapandi (*ringens*), er tvívöruð króna, sem efri vörin er ávöl á, og útspennt frá enni neðri;

grímuð (*personata*); þá varir tvívaraðrar krónu læsast saman, við að hin ávala neðri vör gengr svo lángt uppeptir;

Þegar efri vörin á þessari og þeirri næstundangángandi krónu er ávöl, kallast hún Hjálmr (*galea*). Þarámóti kallast sá framstandandi hluti neðri vararinnar Gómr (*palatum*), en Op (*rictus*) er munnrinn (opið) millum beggja varanna á þeirri gapandi krónu.

*Margblaðaðar jafnar krónur eru*

**krossmyndaðar** (*cruciatæ*), hafi þær 4 blöð, sem eru niðrteygð við neðri endann og standa hvört ámóti öðru;

**rósarblöðuð** (*rosaceæ*), hafi þær 5 krínglótt flöt, og við neðri endann ekki niðrteygð eðr samanhángandi blöð;

**Kattostblöðuð** (*malvaceæ*), eru 5 krónublöð við neðri endann mjög lítið niðrteygð og samvaxin;

**nellikblöðuð** (*cariophyllaceæ*), sem samanstanda af 5 blöðum, er í neðri endann eru mjög niðrteygð, og hafa einn einasta einblaðaðan bikar;

**liljublaðmynduð** (*liliaceæ*), sem hafa 3 eðr jafnvel 6 klukkumynduð blöð, sem enginn bikar fylgir.

Við þessar undangángandi merkist: **nöglin** (*ungvis*), eðr sá niðrteygði partr blaðsins; og **platan** (*lamina*), sèm er hinn annar flati partr blaðsins, og sem er miklu minni enn nöglin.

*Ojafnar margblaðaðar krónur.*

**Baunablómstr** (*cor. papilionacea*) samanstendr af 4 blöðum, af hvörjum 2 hliðarblöðin eru lík hvort öðru, og kallast **Vængir** (*alæ*). **Merkið** (*vexillum*) kallast það efsta og stærsta blað, sem snýr flatvegnum móti röndum hinna blaðanna. **Kjölurinn** (*carina*), sem stundum samanstendr af 2 blöðum, er neðsta blaðið, það er holt, sem optast tvískipt, og stendr í hríng kríngum æxlunarverkfærin beinlínis á móti merkinu. **Gaukablómstr** (*cor. orchidea*) samanstendr af 5 blöðum,

hvörra 2 þau efstu beygjast hvort móti öðru, og 2 á hliðarnar, öll þessi blöð eru umgirt af einu varamynduðu blaði, er almennt kallast **Hunángshirzlunnar vör** (*labium nectarii*).

## Hunángshirzlan (*Nectarium*).

Með nafni þessu nefndi náttúru-spekíngrinn Linné þá blómstrparta, sem ekki tilheyra þeim áðr fráskírðu eðr og ekki æxlunar-verkfærunum; jafnvel þó öll þau hafi eigi hunáng í sèr, eru þau þó öll nokkuð lík, og útskírast þessvegna öll í einu máli **Hunángshulstrin**, sem eru:

**Hunángskirtlarnir** (*glandulæ nectariferæ*), sem eru að finna við neðri enda dupt-þráðanna, á þeim stað, sem ávöxturinn liggr undir.

**Hunángshreystrið** (*sqvamæ nectariferæ*) eru litlir hreystri-líkir líkamir, sem optast eru við neðri enda krónublaðanna.

**Hunángsholurnar** (*pori nectariferi*) eru smáar holur úr hvörjum útsvitar hunáng.

Þeir partar blómstranna, sem ekki gefa hunáng af sèr, en eru heldr tilætlaðir að taka við því, hafa ýmisligar myndir; eptirfylgjandi eru þeir markverðustu.

**Gröf** (*fovea*) eru lægðir eðr holur, sem eru að finna á blómstrblaðanna innri síðu.

**Rykkíng** (*plica*) eru lægðir eðr holur, sem eru lengri.

**Sporinn** (*calcar*) kallast, þá krónan vex niðr í stilkmyndaðan líkama.

**Húfan** (*cucullus*) kallast holóttr, sekkmyndaðr líkami, sem opt hefir staungul, og er fráskilinn öðrum pörtum blómstrsins.

Þeir partar, hvörjir að nefnast hunángshirzlur, en þó hvorki gefa frá sèr né geyma hunáng, kallast sem eptirfylgir: Hetta *(fornix)*, sjá ginið. Skegg *(barba)*, samanstendr af stuttum hárum, sem optast vaxa við munnann á bikarnum eðr krónunni. Krans *(corona)*, sjá ginið.

Æxlunarverkfæri *(partes fructificationis)*, sem eru trèkynja, og annaðhvört samansöfnuð í eitt eðr fleiri aðgreind blómstr einnar urtar, eðr ein urt útaf fyrir sig hefir kall- og önnur kvenn-kynjað blómstr. Verkfærið, hvaraf þær fyrri þekkjast, kallast: Duptberi *(Stamen)*, er fyrir innan krónublöðin, og skiptist í duptþráðinn, dupthnappinn og duptið. Duptþráðurinn *(filamentum)* er lángleitr líkami, á hvörjum dupthnapparnir vaxa. Hann er: hárumlíkr, þræðilíkr, sporjárnilíkr, fleigmyndaðr, klofinn, samanþrykktr (s. blöðin), frí *(liberum)*, þegar hann ekki hángir við aðra þræði; samvaxinn *(connatum)*, þá margir þræðir vaxa saman; liðóttr, samanlagðr, út- og innbeygðr, hárivaxinn, jafnlángr, misjafn er áðr fráskírt.

Dupthnapprinn *(anthera)*, er líkami, sem sitr efst á duptþræðinum, og hefir í sèr mikið dupt. Hann er lángleitr, strikmyndaðr, kúluhnöttóttr, nýralíkr, skeytilíkr, klofinn, hárumsettr, strendr (s. blöðin), tvírúmaðr (sjá fræhusið), síðuopnaðr *(latere dehiscens)*, sem er algengast, og broddopnaðr *(apice dehiscens)*, frí, samanvaxinn, fyrir utan duptþráð o. s. fr., sitjandi við hlið duptþráðarins, sem sumpart áðr er fráskírt, og sumpart er sjálfskilið;

**stríhærðr** *(aristata)*, er hefir 2 svínshárum líka brodda við neðri endann;

**kambsettr** *(cristata)*, hafi hann 2 brjóskilíka tönnótta líkami á hliðinni eðr við neðri endann;

**tvöfaldr** *(didyma)*, sè hann líkasem tvísettr saman.

**Duptið** *(pollen)*, er mjög fínn líkami, sem sýnist eins og væri dupt, og sitr í elligar efst á dupthnappinum.

Hafi blómstrið einúngis duptbera, en enga dupthirzlu, kallast það **Karlblómstr** *(flos masculinus)*, og hafi urtin einúngis karlblómstr, kallast hún: **maðr** *(mas)*.

Sá partr, hvaraf hið annað kyn þekkist, kallast **Dupthirzla** *(pistillum)*, er optast í miðju blómstrinu, og samanstendr af avaxtarhúsinu, stílnum og örinu.

**Ávaxtarhúsið** *(germen)* er neðsti partrinn, sem geymir efni urtarinnar, það nefnist ýmsum nöfnum, sem áðr útskírð eru. Við ávaxtarhúsið er sèrílagi athugavert, hvort það er fyrir ofan eðr neðan blómstrið; á þessu vex **Stíllinn** *(Stylus)*, sem líkist litlum stíl, hönum gefast næstum sömu aukanöfn sem duptþræðinum, og er hann:

**skrúfumyndaðr** *(spiralis)*, þá hann er sem snúinn í skrúfugáng.

**Örið** *(Stigma)*, kallast yzti endi stílsins; það er: **óskipt, hvasst, snubbótt, kúlumyndað, kylfumyndað, skjöldmyndað, þríflipað, strent, tönnótt, krossmyndað, málarabursta-**

**líkt** *(pencilliforme)*, samanstandi það af mörgum stuttum þèttum og kjötligum þráðum;
**holótt, blaðilíkt** *(petaloideum)*, líkist það krónublaði;
**fjaðrað, sitjandi** *(sessile)*, vanti það stílinn.

## Ávöxtur *(fructus)*.

Þegar ávaxtarhúsið, sem hefir inni að halda sæði þeirrar tilkomandi urtar, er fullþroskað, kallast það ávöxtur. Þessi er nú annaðhvort
**innilokaðr** *(tectus)* eðr **ber** *(nudus)*; allar skýlur fræsins kallast almennt
**Avaxtarhirzla** *(pericarpium)*.

Þessi hefir aðskiljanligar tegundir, svósem **himnuávöxtur, vængjaávöxtur, fræbelgr, fræhús, nyt, steinaávöxtur, ber, epli, grasker, skálpr, beli, botjel, skjöldr, merki, varta.**

**Himnuávöxturinn** *(utriculus)*, er einúngis eitt fræ, sem hefir utanum sig þunna himnu, hvöreð auðveldliga flysjast utanaf.

**Vængjaávöxturinn** *(samara)*, er eitt eðr 2 fræ, sem hafa utanum sig þunna, skygna útflatta himnu, sem slær sèr út, eðr teygist út á hliðunum; þessi útteygði partr hennar kallast **vængr**, hann opnast ekki af sjálfs dáðum.

**Fræbelgr** *(folliculus)*, er lángleitr ávöxtur, sem opnast á annarri hliðinni, og er fullr af fræi.

**Fræhúsið** *(capsula)*, hefir harða húð, sem innibyrgir opt mörg fræ, og opnar sig regluliga í marga parta. Partar þess eru:

**Milligirðíngin** *(dissepimentum)*, himna, sem skiptir fræhúsinu í aðskiljanlig rúm.

**Rúmin** *(loculamenta)* eru þau rúm, sem eru millum milligirðínganna.

**Styttan** *(columella)*, er líkami sá, er stendr í miðju fræhúsinu, sem milligirðíngarnar eru áfastar við.

**Blöðkurnar** *(valvulæ)* eru þeir útvortis partar, sem fræhúsið skiptist í

**Saumrinn** *(Sutura)* kallast strik það, er sèst utaná fræhúsinu, þar sem blöðkurnar opnast sundr. Eptir mynd og bygǵíngu gefast fræhúsinu ýmislig auknöfn. Það kallast

**ein-tví-þrí og marg-rúmað** *(uni-bi-tri-multi-locularis)*;

**tví-þrí-marg-blaðkað** *(bi-tri-multi-valvis)*;

**tví-þrí-marg-fræsett** *(bi-tri-poly-sperma)*;

**fjöðrkraptað** *(elastice desiliens)*, opni það sig með fjöðrkrapti, eðr spretti í sundr.

**Þríkornótt** *(tricocca)* kallast þrírúmað fræhús, sem sýnist að vera samsett af 3 fræhúsum;

**tvöfalt** *(didyma)*, þá það sýnist að vera 2 fræhús.

**berjumlíkt** *(baccata)*, þá húðin er kjötlig og mjúk.

Eptir því, hvörnig það opnast, kallast það:

**yfirþvertskorið** *(circumscissa)*, þá það er yfirskorið;

**broddopnað** *(apice dehiscens)*, eins og flest fræhúsin, og

**opni það sig með loki** *(operculata)*.

**Nytin** *(nux)*, er fræ það, sem innibyrgist í harðri skál eðr skel, sem opnar sig ekki.
**Skelin** *(putamen)*, er misjafnt hörð og mjúk.
**Fræið**, sem í henni er, kallast **Kjarni** *(nucleus)*,
Auknefni hennar eru áðr fráskírð.

**SteináVöxturinn** *(drupa)*, samanstendr af harðri skel, sem nytin, en þaraðauki er hann umkríngdr þykku vessafullu kjöti eðr skinnilíku tægi. Hann kallast
**berjumlíkr** *(baccata)*, þá það yzta tægi utanum hann er kjötligt og vessafullt;
**hálfþurr** *(exsucca)*, þá þetta sama líkist meir skinni enn kjöti;
**með 1, 2, 3 kjörnum** *(mono-di-tri-pyrena)*.

**Berið** *(bacca)*, samanstendr af vessafullu efni, sem inniheldr fleiri fræ, og ei opnar sig regluliga; því gefast auknefni eptir ásigkomulagi þess og frækornanna fjölða, t. d.
**með einu, tveimr, þremr og mörgum frækornum** *(mono-di-tri-poly-sperma)*, ogsvo eptir **myndinni** o. s. f.
**samansett ber** *(bacca composita)*, á heima hjá þeim urtum, sem hafa margar dupthirzlur, við hvörjar að verða eins mörg ber *(acinus)*, og fræhirzlurnar voru.

**Epli** *(pomum)* er kjötilíkr líkami, sem umkríngir eitt himnulíkt fræhús, sem almennu máli kallast **kjarnahúsið**. Það opnar sig ekki með blöðkum.

**Graskerið** *(pepo)* er einn kjötilíkr vessafullr ávöxtur, á hvörs innra yfirflöt fræin eru fest.

**Skálprinn** (*siliqva*) er þurr, siðvanáliga lángleitr ávöxtur, er samanstendr af 2 blöðkum, sem festar eru saman með einum saum á báðum síðum.

Fræin eru fest innantil á rönd milligirðíngarinnar, bæði ofan og neðan til við saumana. Sè ávöxtur þessi miklu lengri enn breiðr til, kallast hann **Stórskálpr** (*siliqva*); sè hann þarámót eins, eðr nær því svo, lángr sem breiðr, kallast hann **Smáskálpr** (*silicula*): þó er ei þetta nóg til fullrar aðgreiníngar þeim, heldr hlýtr að aðgætast að sá fyrri hefir sitjandi ör, en hinn síðari stuttan stíl. Skálparnir aðgreinast eptir því sem milligirðíngin gengr. Gángi hún nefniliga lánga innaní blöðkunum, kallast: (*valvulæ dissepimento parallelæ*). Gángi hún þarámóti þvert yfirum kallast það *valvulæ dissepimento contrariæ*.

Stundum er milligirðíngin lengri enn blöðkurnar, og kallast þá *Dessepimentum prominens*. **Hnýttr skálpr** (*siliqva torosa*) er skálpr með hnútum eðr smágörðum á; hèraðauki er skálprinn **blöðkulaus** (*evalvis*), þá hann engar blöðkur hefir, og **berilíkr** (*baccata*); s, fræhúsið.

**Belinn** (*legumen*) líkist mjög skálpnum, einúngis er mismunurinn sá, að fræið sitr á neðri rönd milligirðíngarinnar. Hann er:

**uppblásinn** (*turgidum*), sèu blöðkurnar báðar uppblásnar sem blaðra;

**sigðmyndaðr** (*falcatum*), sè hann boginn sem sigð;

**kúfúngsmyndaðr** (*cochleatum*), sè hann snúinn eðr undinn sem kúfúngstoppr;
**einrúmaðr** (*uniloculare*), eðr
**tvírúmaðr** (*biloculare*), elligar
**hálftvírúmaðr** (*semibiloculare*), sè milligirðíngin ei nema í helfíngi hans;
**hnúskóttr** (*gibbum*), sè hann ávalr á þá einu hlið;
**bogalíkr** (*arcuatum*), sè hann hríngbeygðr sem bogi;
**liðóttr** (*articulatum*), sè hann samsettr af merkjanligum liðum. Annars kallast þessi tegund belans
**Liðabeli** (*lomentum*).

**Botjelið** (*theca*), er ávaxtarhirzla mosanna. Það er gagnþurr ávöxtur, sem ofantil opnar sig með loki. Þess partar eru:
**Hettan** (*calyptra*), er þunn himna, sem byrgir efri enda botjelsins.
**Lokið** (*operculum*), sem byrgir botjelsins op, en lykst upp af sjálfs dáðum, þá fræið er fullþroskað.
Lokið er **krínglótt, topplíkt, hvasst, uppmjótt, flatt** o. s. fr.
**Munnrinn** (*peristoma*), so kallast rönd ein, er umkríngir op botjelsins; hann er:
**tönnóttr, nakinn** o. s. fr.
**Viðbætirinn** (*apophysis*) er meiri eðr minni útvíðkun neðri enda botjelsins.

Innilykji aðrir partar blómstrsins enn ávaxtarhúsið Fræið, kallast það **óekta ávöxtur** (*fructus*

*spurius)*, og öðlast þá annaðtveggja sèrligt nafn, eðr og kallast eptir ávexti þeim, sem hann mest líkist. Þeir helztu eru:

**Trèstrengr** *(strobilus)*, sem ei er annað enn **strengr** *(amentum)*, hvörs hreystr er orðið trènað.

**Oekta fræhús** *(capsula spuria)* er nær fræið er innibyrgt í þeim tvinnaða bikar, líkt og í öðru fræhúsi.

**Oekta steinávöxtur** *(drupa spuria)*, sè nytin sjálf byrgð í þeim kjötilíka ávaxtarbotni.

**Oekta ber** *(bacca spuria)*, ef strengsins kjötilíka hreystr innibyrgir fræið, eðr og ef fræið sitr á þeim kjötilíka ávaxtarbotni.

**Fræið** samanstendr af 2 jafnmynduðum pörtum, sem auðveldliga aðskiljast, og sem að sett í jörðu verða að blöðum, er kallast **Fræblöð** *(cotyledones)*, millum hliða þessara parta liggr **æxlunarhjartað** *(corculum)*, þetta skiptist í 2 parta: **Blaðfjöðrina** *(plumula)* og **Ranann** *(rostellum)*; af því fyrra framkemr sá partr urtarinnar, sem ofanjarðar er, af því síðara rótin. Utvortis er fræið klædt 2 himnum, hvaraf hin ytri og þykkari kallast **Fræhúðin** *(tunica exterior)*, hin innri og þynnri kallast **Fræhimna** *(membrana interna)*.

Fræin kallast:

**holsíðuð** *(scrobiculata)*, sèu íbjúgar síður þeirra útvortis;

**styttumynduð** *(columnaria)*, sèu þau laung og jafndigr;

**krónuð** *(coronata)*, sè ofantil á þeim upphækkuð rönd;
**kúfúngsmynduð** *(cochleata)*, sèu þau lítið eitt snúin;
**svarfilík** *(scobiculata)*, sèu þau lángleit og ærið mjó;
**þykkhimnuð** *(corticata)*, sè þeirra húð föst og þykk; útvortis á fræinu finnst lítill blettr, er kallast
**naflinn** *(hilum)*, frá hönum gengr fín taug eðr þráður, er festir við fræið ávöxtinn. Þessi þráður kallast
**naflastrengr** *(funiculus umbilicalis)*.

Hèraðauki koma til yfirvegunar ýmislegir hlutir, sem á fræinu finnast, sem eru:

**Fræskýlan** *(arillus)* er ein viðlaus húð, sem innibyrgir fræið. Fræ þau, sem í broddinn hafa utan um sig þvílíka húð, kallast **Hettufræ** *(semina calyptrata)*.

**Þelið** *(pappus)* er bikar þeirrar einstöku krónu á þeim samsettu blómstrum; áðr enn blómstrið spríngr út, er það mjög lítið, og sèst ei greiniliga, fyrr enn eptir blómstrunina. Það er
**sitjandi, með staunglum, stríhært** *(aristatus)* þá það líkist stríi;
**bikarmyndað** *(caliculatus)*, þá það hefir himnulíka rönd á broddi fræsins;
**smáhreystrótt** *(paleaceus)*, þá það samanstendr af smáum hreystrum,
**hært, elligar óskipt**,
**fjaðrað** *(plumosus)*, þá lengri hárin hafa styttri hár.

**Fræullin** *(coma)* er ullarkendr líkámi, sem sitr á broddi ýmissra frætegunda.

**Halinn** *(cauda)* er þráðmyndaðr líkami, sem er efst á broddi ýmsra fræa.

**Fræraninn** *(rostrum)* er dupthirzla, sem vex ásamt með fræinu.

**Vængrinn** *(ala)* er himna á efri enda eðr utanum allt fræið.

**Rifið** *(costa)*, eru útbúngandi strik, sem sjá má á nokkrum fræum skýluurtanna.

**Döggin** *(pruina)* er mjög fínt hvítt dupt, sem er að finna við nokkrar urtir.

**Ávaxtarbotninn** *(receptaculum)* er sá staðr urtarinnar, sem blómstrið eðr ávöxturinn vex á, neðsta yfirborð hans er fast við staungulinn; hafi hann margar kronur, kallast hann

**almennr ávaxtarbotn** *(rec. commune)*, hafi hann einungis eina, kallast hann

**einfaldr** *(proprium)*, hann er

**flatr, ávalr, hærðr, ullusettr, toppmyndaðr;**

**smáhreystraðr** *(paleaceum)*, sè hann, settr lángleitum, snubbóttum, þurrum smáblöðum, er kallast **Smáhreystr** *(paleæ)*; og á þetta heima hjá þeim almenna ávaxtarbotni. Hann er

**kjötilíkr** *(carnosum)*;

**styttumyndaðr** *(columnare)*;

**sveppilíkr** *(spongiosum)*;

**smáholóttr** *(favosum)*.

**Ávaxtarfletið** *(thalamus)*. Með þessu nafni nefnist einn stærri eðr minni líkami, er hefir inni

að halda fræin í sínu eigin efni, og á hvörs yfirborði þau opna sig. Það á heima hjá urtum af 23ja hópnum, eðr þeim sem hafa hulin blómstr.

Þess helztu tegundir eru:

**Skjöldurinn** (*scutellum*), sem er einn flatr krínglóttr, röndum settr líkami, er inniheldr ávöxtinn.

**Flatskjöldurinn** (*pelta*) er þynnri og án randa.

**Vartan** (*tuberculum*) er einn lítill og svalr nabbi.

## Um Systemið.

Áðr er talað um orðu þá, er af náttúruspekíngum kallast system. Urta-systemið er sett til þess að maðr geti, eptir vissum og óbrygðulum reglum, þekkt hvörja og eina urt af hennar sèrlegu kennimerkjum.

Náttúruspekíngrinn Linné var hinn fyrsti, er á kynferði urtanna enkum grundaði sitt system, hvörju til hjálpar hann ogsvo hafði tillit til þeirra útvortis meiri eðr minni líkíngar.

Nær ein urt af sèr gefr aðra, þá kallast þær báðar **sama tegund** (*species*), líkist nú margar tegundir hvör annari, er það kallað **kynferði** (*genus*). Sèu nú þessi hvört öðru í nokkru lík, kallast þau **orða** (*ordo*), og loksins, líkist orðurnar hvör annari á nokkru, þá framkoma **Hópar** eðr **Flokkar** (*classes*).

Hópanna aðgreiníng í því linnéiska systemi er grundvölluð á duptberunum, og eptir þess reglum niðrraðast allar nú þekktar urtir í fylgjandi tuttugu og þrjá hópa.

1. Hópr hefir 1 duptbera, (*monandria*). einmannaðar.
2. — — 2 — (*Diandria*), tvímannaðar,
3. — — 3 — (*Triandria*), þrímannaðar.
4. — — 4 — (*Tetrandria*), fjórmannaðar.
5. — — 5 — (*Pentandria*), fimmmannaðar.
6. — — 6 — (*Hexandria*), sexmannaðar.
7. — — 7 — (*Heptandria*), sjömannaðar.
8. — — 8 — (*Octandria*), áttmannaðar.
9. — — 9 — (*Enneandria*), níumannaðar.
10. — — 10 — (*Decandria*), tíumannaðar.
11. — — 12 — (*Dodecandria*), tólfmannaðar.
12. — með fleiri enn 12 duptberúm, sem festir eru á innri rönd bikarsins, (*Icosandria*), bikarmannaðar.
13. — með yfir 20 duptberum, er allir sitja

á ávaxtarbotninum, (*Polyandria*), margmannaðar.

14. hópr með 2 laungum og 2 stuttum duptberum, (*Didynamia*), tvímektugar.

15. — með 4 laungum og 2 styttri duptberum, (*Tetradynamia*), fjórmektugar.

16. — hefir alla duptþræðina samanvaxna í eitt bindi, (*Monadelphia*), samanvaxnar.

17. — með duptþráðum samanvöxnum í 2 bindini, (*Diadelphia*), tvískiptar.

18. — með duptþráðum í mörgum bindinum, (*Polyadelphia*), margskiptar.

19. — dupthnapparnir samangrónir, (*Syngenesia*), pípumannaðar.

20. — duptberarnir vaxa á dupthirzlunni, (*Gynandria*), kvennbú.

21. — með aðskildum kall- og kvenn-blómstrum á sömu urt, (*Monœcia*), einbýli.

22. — með kall- og kvenn-blómstrum, sínu á hvörri urt, (*Diœcia*), tvíbýli.

23. — með ómerkiligum blómstrum, (*Cryptogamia*), huldubýli.

Orður þær, er hóparnir optar skiptast í, ákvarðast sumpart eptir tölu dupthirzlanna, sem í þeim 13 fyrstu hópum; sumpart eptir fræskýlunni, sem 14. og 15. hóprinn; sumpart eptir náttúrligri líkíngu, svosem í 19. hópnum, sem hefir inni að halda þau samansettu blómstr, og skiptist í 4 orður: hin fyrsta hefir krónur með báðum kynjum, jöfn Sambúð (*Polygamia æqvalis*); 2r. hefir á röndunum frjófsamar húnkrónur, enn í miðju frjófsamar krónur

með báðum kynjum, og kallast ójöfn sambúð (*Polyg. superflua*); 3ja hefir ófrjófsamar krónur á röndinni, og frjófsamar krónur með báðum kynjum í miðju, ónýtsambúð (*Polyg. frustranea*); hin 4ða hefir frjófsamar húnkrónur á röndinni, enn ófrjófsamar krónur með báðum kynjum í miðju, nauðsynligsambúð (*Polygamia necessaria*); og sumpart aðgreinast orðurnar eptir tölu duptberanna, sem í 16da, 17da, 18da, 20ta, 21ta og 22m hópnum; orður 23ja hópsins fara að náttúrligri líkíngu, og eru Breknur, Mosar, Þarrar, og Sveppar.

Vilji maðr ákvarða einnar urtar stað, hlýtr maðr til eptirsjónar sèr að taka eina, sem stendr í fullu blómstri, og er að öllu leiti ósködduð. Maðr aðgætir nú hvort æxlunarverkfærin eru augsjáanlig eðr ekki, og sèu þau auðþekkjanlig, þá hvort krónurnar hafa bæði kyn eðr ekki, hvort duptberarnir og dupthirzlurnar eru samgrónar, hvort duptþræðirnir og dupthnapparnir eru sundrlausir, eðr hvort duptberarnir eru jafnstórir, og að endíngu þeirra tal.

Látum oss t. d. ega að ákveða Sortulýngið. Vèr finnum þá að það hefir auðþekkjanlig blómstr, að krónurnar hafa bæði kyn, að duptberarnir og dupthirzlan eru aðskilin, að hvorki duptþræðirnir eðr dupthnapparnir eru samgrónir, að duptberanna tala er 10: orðurnar í þessum (10da) hóp fara að tali dupthirzlanna, og þar dupthirzlan einúngis er ein, heyrir það til 1tu orðu.

Sortulýngið hefir uggmyndaða krónu, sem neðan til er gagnsær; og þess ávöxtur er 5rúmað ber, það heyrir því til kynins (*Arbutus* eðr) Myln-

ínga-urt. Það hefir framáviðliggjandi stanngul, og blöð heil á röndum, og það er því tegundin Sortulýng (*Arbutus uva ursi*).

## Almennar Reglur,

hvörjum fylgja ber, þá urtum er safnað, til læknis- og annarar naudsynligrar brúkunar.

1. Skulu urtir allar, hvör fyrir sig, safnast á þeim tíma árs, er þær eptir reynslunni og lærdómi urtaþekkjara eru kraptfyllstar á.

2. Þareð kraptr urtanna opt fer eptir aldri þeirra, það er að skilja: þareð nokkrar urtir eru kraptamestar nýsprottnar, aðrar undir það blómstrin springa út, og aptr aðrar, þá þær eru fullblómstraðar o. s. fr.; svo hlýtr þetta nákvæmliga að aðgætast.

3. I hreinviðri og þerrir um miðjan dag, þá ekkèrt náttfall á jörðu kann að vera, er hentugast urtum að safna, enkum þeim pörtum þeirra, sem ofanjarðar eru.

4. Fleiri munu urtir þær, er í fjall-lendis brekkum, eðr hraungjótum vaxa, kraptameiri hinum er i túnum eðr nærri bygðum finnast; þó gefast urtir þær hèr á landi, er til nokkurrar hlítar eðr krapta vaxa í ræktaðri jörðu, svosem Heimlisnjóli, Vallhumall og Smári.

5. Flestar urtir, er á þurrlendi vaxa, munu kröptugri hinum sama kyns, er vaxa í votlendi.

6. Einnig ber að gæta þess, að urtir, sem njóta sólar, eru kraptameiri enn þær, sem í forsælu

spretta; þó eru urtir þær til, er einkum spretta í skugga og hlè, þartil nefai og Burknann.

7. Nær urtum er safnað, skulu þær, áðr enn þurkast eðr til brúkunar takast, vandlíga hreinsast frá öllum óhreinindum, moldu, ryki, kóngurófar- og orma-vefum, samt öllu því, er eigi til þeirra heyrir; sömuleidis skulu þeir skemdu partar urtarinnar, svosem visnuð og rotin blöð, fúnar og klofnar rætr o. s. fr., burttakast.

8. Skulu þær svoleiðis hreinsuðu urtir, svo fljótt sem verðr, þurkast; skeðr það á ýmsan hátt, t. d. á vindsvölum loftum, annaðhvort svoleiðis að urtirnar sèu þunnt breiddar á þvílíkt lopt; eðr, sem eg held betra, og samkvæmara vorum efnum, að hafa mjög smáriðin net eðr lèreptsdúka þunna á böndum upp við sperrur eðr lopt, og á þau þannig útþanin að breiða urtirnar; binda má og stórar urtir, eina og eina fyrir sig, á stög, og þannig þurka. Á líkan hátt þurkast rætr, með því móti að gegnum þær sè stúngið mjóum þræði, hvörja eptir aðra með rúmu þumlúngs millibili, og þræðir þessir útspenntir á góðu þerriplázi, og mun litlu saka þó í sólu sèu. Ágætt er að þurka urtir, einkum blöð og blómstr, nærri kakalofnum, eðr yfir þeim, líka kynnu þeir partar urtanná hentugliga þurkast í stórum potti yfir glæðum, með því móti að breiddr sè á botn hans hreinn dúkr eðr pappír, og urtirnar þará látnar. Þá er hiti pottsins mátuliga sterkr, er fullorðinn maðr, ei allt offínhentr, þolir að halda hendi sinni eðr lófa um stund á botni pottsins. Höfuðreglan, hvör mátinn

sem brúkaðr er, skal þessi, að ætíð sèu urtirnar þunnt breiddar, og enda sè þeim opt snúið, að sem fljótast nái að þorna.

9. Er ei minni vandi að geyma þær þurkuðu urtir, skeðr það ei til nokkurs gagns í lèrepts eðr ullarpokum, heldr útheimtast hèrtil Flöskur, Krukkur, eðr önnur held ílát, sem gjörð eru af eik, hvör áðr sèu vandliga þurkuð. Fullvel má hèrtil brúka eikar-stokka, eðr kassa með draglokum yfir, sem sèu vazheldir, og sè pappír límdr innan í þá. Betra er að taka, í staðinn tóms vatns á lím þetta til jukks, seyði af horblöðku, þar hún með remmu sinni ver möl og öðrum skriðkvikindum að komast til urtanna. Öll þau blómstr-blöð og rætr, er hafa sterka eðr kryddaða lykt, ættu fyrst smátt að skerast, síðan látast á flöskur með góðum tappa í, og þannig til brúkunar að geymast.

Fyrir utan þær heilu urtir eru fylgjandi partar þeirra helzt til brúkunar teknir, svosem Rætr, Blöð, Börkur, Blómstr, Ber, Fræ, Mosar og þáng, hvört af þessu fyrir sig útheimtir fylgjandi

## Sèrligar Athugasemdir:

1. Rætrnar. Þegar þeim skal safna, hlýtr maðr nákvæmliga að vita tíma þann, á hvörjum þær kröptugastar eru, fer það eptir varanligleika þeirra; þannig gefast eins árs rætr *(annuæ)*, sem deya hvört haust, hèrtil heyrir þrenníngargras *(Viola tricolor)* o. s. fr., tveggja

ára (*biennes*), svosem Ætihvönn (*Angelica archangelica*).

Margra ára (*perennes*), svosem, Ætifífill (*Leonthodon taraxacum.*)

Eins árs rætr skulu snemma sumars uppgrafast. Tveggja ára snemma sumars annað áríð.

Fleiri ára safnast einnig snemma á vori, áðr blöð þeirra eðr staungull taka til að vaxa.

Þegar nú grafa skal rætrnar upp, og völ er á, skal maðr helzt velja þær, sem flest rótarblöð eru sprottin á, þá uppgröfnu rót hreinsar maðr frá moldu og sandi, með því móti að skola þær í vatni fáein augnablik, og þareptir þurka þær vandliga með þerrirklæði eðr dúk, síðan sker maðr alla smá ánga í burtu, og allt það af rótinni, er skemt, fúið eðr ormetið mætti reynast. Þareptir festir maðr þær á band, sem áðr er sagt, og þurkar á góðu þerrirplázi eðr nærri kakalofni; sèu rætrnar stórar, þykkar eðr vökvamiklar, mega þær í fleiri parta skerast þvers um. — Eptir þurkinn geymast þær vandliga, sem áðr segir.

2. Blöðin takast í þurru veðri, sem áðr segir, af eins árs og margra ára urtum skömmu áðr enn þær blómstra, eðr nær blöðin fullvaxin eru. Af 2ja ára urtum þarámóti svo fljótt sem verðr. — Blöð af trjám og lýngi þarámót skömmu eptir að þau bera blómstr. Blöðin þurkast og geymast sem áðr segir.

3. Berkirnir safnast bezt á vorin, þegar fyrst ber á hnöppum trjánna, eðr á haust, þá blöð eru affallin. Börkurinn tekst í þurru veðri af úngum

afhöggnum kvistum og smáviði; hann skerist í af-
lángar leingjur. Utvortis hreinsist hann vel frá
ryki og mosa, er á hann kynni hafa sett sig, og
innantil frá himnum og taugum öllum, er þar finn-
ast mættu.

Berkir þurkast og geymast á líkan hátt og
áðr er tjáð.

4. **Blómstrin.** Þá blómstrum skál safna,
skal það ske um miðjan dag, og bezt, hafi
þurkr og hlèviðri geingið í 2 eðr 3 daga fyrirfarandi.
Þá maðr safnar blómstrum, má hinn fíni leggr,
er þau ástanda, fylgja með. Blómstr öll skulu
fljótt og vandliga þurkuð, annaðhvort á lèrepti,
þunnt útbreidd, eðr á pappír. Sè eigi þurkr góðr
og heitt veðr, skulu þau annaðhvort á ofni eðr í
potti þurkast, sem áðr segir. Þareptir látist þau
í flöskur, krukkur, kúta, eðr kistla af eik, vandliga
lokuð, og setjist á mátuliga heitan stað til geymslu.

5. **Berin.** Hèr í landi finnast eiginliga tvenn-
slags ber:

a, sem hafa nægð af vessa, svosem **blá-
ber, krækiber, hrútaber, jarðarber.**

b, sem eigi hafa neinn sèrligan vessa,
svosem **einí-ber** og **mulníngar.**

Hin fyrri geta bæði þurkazt, og svo líka
geymzt, lögð i edik (máske og í sýru) og hunángi;
söltuð með hvíta-sykri. Af öllum þeim getr þvíng-
azt vessi, og með sykri eðr hunángi ýmist gefið
vínveru eðr sýróp, hvað seinna skal greint við hvörja
tegund þeirra. Hin síðari geta auðveldliga þurkazt.
Berin yfirhöfuð þurkast með ýmsu móti, þó bezt

annaðhvört þunnt útbreidd á pappír eðr lèrept, á vindsvölum stað, eðr, sem betra er, við ofnshita eðr í potti; þeim skal, hvör helzt máti sem brúkast, opt snúið og velt við, og þareptir geymast þau í heldu íláti, helzt krukkum, sem vandliga lokast. Mikið ríðr á, áð þau, áðr geymast, sèu vandliga þurkuð.

6. Fræin. Fátt er af fræum í landi voru, er til þeirrar fullkomnunar geti komizt, að safnandi sèu, þó gefast nokkur, og vil eg geta mátans, að safna þeim rèttiliga.

Það er þá fyrst aðgætandi, að eigi má fræum safna, fyrr enn þau fullgjörð eru. Þekkist þetta ei af öðru enn því að fræpúngarnir, eðr hýði það sem fræin eru í, fara að opnast, eðr af því að af yztu greinunum er farið af falla einstaka frækorn. Fræum skal í þurrviðri safna, og eptir þerridaga 2 eðr 3, bezt er að taka allan staungulinn, sem ber fræpúngana, þurka hann vandliga, sem áðr er sagt, til þess skrælþurr er orðinn; enn til að ná fræi úr fræpúngnum, eðr fræi af staunglum urta þeirra er fræ hafa án hýðis, kunna 2 mátar að brúkast:

a, Fræstaunglarnir leggjast á lèreptsdúk stóran, breiddan á slètt gólf, og sè hvör við hliðina á öðrum, og hvör ofan á öðrum, síðan sè tekinn lèttr stafr eðr kefli, og slegið yfirum ofan á fræpúngana hægliga. Opnast þá þeir skrælnuðu fræpúngar, og fræið fellr niðr á dúkinn.

b, Maðr tekr einbytnu tunnu, stíngr nokkrum fræstaunglum þarí á endann efri niðr, hvörjum við síðuna á öðrum, að lausliga fylli út í

báðar hliðar. Síðan skal tunnan með kefli eðr staf utan lamin; við hristíng þennan fellr fræið út og af staunginni, og finnst svo á botni tunnunnar. Auðskilið er að vandliga skulu staunglarnir þurkaðir áðr, hvör mátinn sem brúkaðr er, því sè í þeim minnsta deigja, opna ei fræpúngarnir sig, sízt allir; hljóta þeir þá að þurkast betr, eðr fræið að plokkast út með fíngrunum. Að svo búnu hreinsast fræið frá öllum óhreinindum, með því móti að maðr vinsar það í trogi eðr skál. Þareptir þurkast það vandliga í sólarhita, eðr nærri ofnhita. Þvínæst geymist það í lèreptspokum, en að endíngu látist í velluktar krukkur eðr trèílát.

7. Mosarnir. Þeir takast helzt eptir þerrir; þó gefast nokkrir þeirra, er betr safnast í vætu. Þeir hreinsist vandliga frá moldu og moski, samt öðrum urtum, sumpart með því að vinsa þá vandliga, sumpart með því að bregða þeim í vatn og skola í skyndíngu. Þeir þurkast sem urtir, og geymast í góðum ílátum.

8. Þángartir nokkrar notast ogsvo, og mun þess getið við hvörja eina, hvörnig hún safnast og hagnýtist.

## Um Urtanna Nytsemi.

Þrennt er helzt gagn það, er af urtum má hafa: 1. til Læknínga; 2. til Nautnar fyrir menn og skepnur; 3. til ýmissra Hagræða í búskap manna, t. d. litunar-hæginda, vörnunar foksandi o. s. fr. Um hið fyrsta vildi eg hèr koma máli mínu, og eptir efnum útlista lækníngagagn nokk-

urra almennustu urta lands vors, og þarhjá líka minnast á nokkurra þeirra aðra nytsemi.

Urtir megna að þèna til lækninga

a. *útvortis*, b. *innvortis*.

A. Til útvortis Lækninga brúkast urtirnar nýar og þurkaðar, eðr og þurkaðar, annaðhvort einsamlar, eðr í samblandi við aðra hluti, eðr aðrar urtir. Þær brúkast í:

Böð *(fomenta)*, Urtapoka *(sacculos)*, mýkjandi Grauta *(cataplasmata)*, Sálvi *(unguenta)*, Plástra *(emplastra)*, blöðrudragandi Meðöl *(vesicantia)*; þar fyrir utan auka þau, tekin í nef og munn, vessarás af vitum o. s. fr.

1. Böð af urtum eru eiginliga þrennslags, eðr brúkast uppá þrennslags máta:

a. Maðr seyðir urtir í vatni, mjólk eðr mysu, vætir þarí ríu eðr lepp, og leggr umkríng hinn sjúka lim, annaðhvort kalt eðr volgt.
b. Maðr heldr þeim sjúka lim í urtaseyðinu um stund, eðr hellir því yfir hann hvað eptir annað.
c. Heldr maðr þeim sjúka lim yfir gufunni alleiná.

2. Urtapokar gjörast af smáskornum urtum, er innsaumast í þunnt lèrept eðr þunna einskeptu, og leggjast þannveg þurrar yfir þann sjúka lim.

3. Mýkjandi Grautar gjörast af smáskornum urtum, er sjóðast í vatni, mysu eðr mjólk, álíka og þykkvasti grautr; þeir látast í lèreptsklút eðr ríu, og leggjast þannveg á hinn sjúka

lim. Eigi skulu grautar þessir heitari enn svo, að maðr með handar-baki þoli þeirra viðkomu, þeir ítrekast yðugliga, og í hvört sinn sè tekinn nýr, en þeim sem við lá kastað í burtu.

4. Salvi kallast það meðal, sem vanaliga tilbúið er af feiti, olíu eðr smjöri, þarvið bætist dupt af urtum, harpix og öðrum fleiri hlutum, þartil þetta meðal verðr sem kramt flot. Salvi eru margslags, samanblönduð, samanbrædd og samansoðin.

5. Plástrar samanstanda af sömu pörtum, en eru harðari en salvið, og því hlýtr í þeim að vera meira af urtaðupti, harpix og öðru því er hörkuna gjörir.

6. Blöðrudragandi Meðöl eru þau sem, lögð útvortis á húðina, draga undir sig stórar blöðrur, líkt og þá maðr brennir sig, hvarfyrir þau vel mættu heita brennandi meðöl.

B. Innvortis brúkast urtirnar með mörgu móti í Grautum *(pulmentis)*, Seyðum *(decoctis)*, Söftum *(extractis)*, Duptum *(pulveribus)*, Dropum *(essentiis)*, Teum *(Infusionibus)*.

1. Grauta þekkja allir, og er ei annað vandhæfi við þá, enn að urtirnar til þeirra skerist smátt, og sjóðist síðan í jukki af vatni, mjólk eðr mysu. Urtagrautar margir eru til heilsubætirs, sem síðar mun sagt verða.

2. Seyði eru þannig tilbúin. Maðr tekr urtirnar smáskornar, og sýðr með vatni í luktum katli niðr til þriðjúnga. Þareptir síist hið þunna

frá, og allr vökvi kreystist úr urtunum, og síðan lætr maðr seyði þessi á flösku með góðum tappa í, og geymir til brúkunar; það er athugavert við seyði þessi, að ei skulu gömul verða áðr brúkast, því annars fúlna þau, og missa sinn krapt. Mátuligt er við flestar urtir að taka 2 lóð af þeim þurrum til hálfs annars pela af vatni, og seyða niðr til pela.

3. Saftir tilbúast með tvennu móti:

a. pressar maðr saft útaf ferskri urtinni, og seyðir, þartil þykkt verðr sem sýróp.

b. tekr maðr urtaseyði tilbúið á ofanskráðan hátt, og sýðr það niðr til sýrópsþykktar.

I tilbúníngi saftanna hlýtr að aðgætast, að þær bezt seyðast í leir- enn ekki málm-pottum. Að seyðslan verðr að ske með hægum og jöfnum hita, og án þess að sjóði í eðr brenni við, sem ónýtir allt verkið. Saftir geymast bezt í krukkum með yfirborði af líknabelg og pappír, og þannig geymast þær, án þess að missa krapta, heilt ár eðr leingr.

4. Pûlver eðr Dupt eru þannig tilbúin: að skrauf þurr urtablöð, berkir eðr rætr steytast vandliga í svoköllluðum morterum. Það smáa sigtast gegnum fínt sigti tilbúið af öskjusviga, yfir hvörn þanið sè slitið og þunnt lèrept, eðr og þunnt, blautt skinn, á hvört, þegar orðið er hart, pikkast mjög fín göt, og gegnum þvílík sigti sigtast duptið.

5. Dropar tilbúast þannig: á smáskorin urtablöð og rætr, og stórmulinn börk, sè helt sterkasta brennuvíni eða rommi. Þetta allt látið á stóra flösku, með þunnu skinni eðr blöðru ofan-

yfir opinu en eingum tappa. Flaskan sè sett við yl, hvar hún standi hèrum viku, síðan síast hið þunna frá, og úr urtunum kreystist vandliga. Dropar þessir þannig tilbúnir látist á hreinar flöskur, og geymist vandliga. Sem optast er máturligt, að taka 4 lóð af urtinni til 16 lóða af brennuvíni. Til eru og dropar af vatni og urtum alleina, helzt rótum þeirra, og tilbúast þannig: maðr tekr rótardupt, hellir þará sjóðandi vatni, hrærir vel í, og lætr standa til kólnar, þá það þunna síast frá og geymist. Til þessara dropa er máturligt að taka 4 lóð af dupti til $4\frac{1}{2}$ pela vatns. Annmarki er á dropum þessum, að þeir mega ei leingi geymast.

Te búist þannig til: smáskorin urtablómstr eðr blöð látast í tepott, þará hellir maðr sjóðandi vatni, hrærir vel í, og lætr standa um hríð, til hálfkalt er orðið, þá vatn þetta þannig tilbúið brúkast. Sem optast er máturligt að taka 1 lóð af urtinni til 1 pela sjóðandi vatns.

## 1sti Hópr.

### (*Monandria*) einmannaðar.

### 1sta Orða (*Monogynia*) einkvæntar.

1. **H**esthali (*Hippuris*). Bikarinn tvívaraðr í röndina; eingin króna; eitt nakið fræ, innilukt í einni nyt.

2. Hálmr (*Zostera*). Æxlunarverkfærin á þeirri einu síðu blaðsins, dupthnapparnir sitjandi; fræin einsömul.

**1sti Hópr (*Monandria*) einmannaðar.**

**1sta Orða (*Monogynia*) einkvæntar.**

**1. Hesthali (*Hippuris*).**

a. **Almennr Hesthali (*H. vulgaris*) með strikmynduðum mörgum hvössum kransilíkum blöðum; ísl. Marhálmr.**

**Rótin liðótt, með laungum kransilíkum þráðum við liðina; staungullinn heill, rèttuppstandandi, sívalr, liðóttr, hálfr niðr-sokkinn, hálfr blöðóttr, liðirnir þèttara saman efst; blöðin kransilík, 10 saman, strikmynduð, án blaðstaunguls, opin, hvöss,**

þau efstu og neðstu eru stýfð; blómstrin einföld, utan staunguls, vaxa í blaðhornunum. Fræin egg-mynduð.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

### 2. Hálmr *(Zostera)*.

a. **Marhálmr** *(Zostera marina)* með strik-mynduðum, lítið þrísinóttum blöðum; staung-ullinn sívalr; ísl. Marhálmr.

Rótin aungótt; staungullinn sveimandi, sívalr-ávið flatr, stuttr, fágreinóttr, neðst skríðandi. Blöðin missett slíðrandi, mikið laung, snubbótt, heil á röndum, glansandi slètt. Dupthnapparnir og ávaxtarhúsið lángleitt; tvö ör.

Margra ára urt; blómstrar í ágûst.

*Nytsemi og verkun:*

Urtin nýslegin er gott fóðr, einkum fyrir nautpeníng.

## 2ar Hópr.

### *(Diandria)* tvímannaðar.

### 1sta Orða *(Monogynia)* einkvæntar.

1. **Ærupris** *(Veronica)*. Krónunnar kragi 4skiptr, neðsti lepprinn mjóstr; fræ-húsið 2rúmað.

2. **Lifjagras** *(Pingvicula)*. Krónan gapandi, með einum spora; fræhúsið einrúm-að; bikarinn tvívaraðr, 5klofinn.

## 2ur Orða (*Digynia*) tvíkvæntar.

3. **Gulax** (*Anthoxantum*). Bikarsins hreystr einblómstrað. Krónunnar hreystr tvíblaðkað með stríi.

## 2ar Hópr (*Diandria*) tvímannaðar.

### 1sta Orða (*Monogynia*) einkvæntar.

1. **Æruprís** (*Veronica*).

a. **Læknis æruprís** (*V. officinalis*): blöðin aflaung, loðin; staungullinn svarðliggjandi loðinn; blómstrin fjærstandandi; ísl. Æruprís.

Rótin aungótt skríðandi; staunglarnir sívalir, lítið greinóttir, skríðandi. Blöðin ljósgræn, nöbbótt, æða- og sina-mörg, snörp, við neðri endann mjórri, stuttleggjuð.

Klasaleggirnir lángir, missettir. Klasarnir axmyndaðir með mörgum blómstrum. Blómstrblöðin strikmynduð, jafnlaung blómstrleggnum. Bikarinn loðinn. Krónan ljósblá.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Urtin er styrkjandi, barkandi, og læknar sár; hún er því góð móti lífsýki, matarólyst, óstyrk líkamans, hún örfar svita, og læknar uppdráttar- og megrunar-sótt. Te af urtinni drekkist svo tebollum nemi 3svar dagliga. Með seyði af urtinni er gott að þvo illaluktandi sár. Dupt af rótinni stráð í sár stillir blóðrás.

b. **Þykkblaðaðr Æruprís** (*V. beccabunga*): blöðin aflaung, hríngnöbbótt, flöt. Staungullinn skríðandi; ísl. Vazarfi.

Rótin aungótt; staungullinn greinóttr, slèttr, sívalr, svarðliggjandi, neðstskríðandi, þykkliðóttr þar sem blöðin og klasarnir eru. Blöðin stuttleggjuð snubbótt, þykk, mótstæð. Klasarnir mótstæðir, 3svar leingri enn blöðin, og eru fastir í blaðhornunum. Blómstrleggirnir litlir, þræðilíkir. Blomstrblöðin strikmynduð. Bikarinn 4skiptr. Krónan myrkblá. Fræhúsið aflángt.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er styrkjandi, blóðhreinsandi, ormdrepandi og uppleysandi. Hún er því góð móti skyrbjúgi, niðrfalls-sótt, ormum, matarólyst og hráa magans. Te af urtinni drekkist, svo tebollum nemi, 3svar dagliga.

Seyði af urtinni hreinsar gömul ill sár, og tekr ský af augum. Dupt af rótinni er gott að blanda með tóbaki, og taka í nef, það styrkir höfuð og sjón.

c. Slèttr Ærupris (*V. serpyllifolia*): blöðin aflaung, hríngnöbbótt, eins og bikararnir, slètt. Klasarnir lángir. Blómstrin fjærstandandi.

Rótin aungótt. Staunglarnir 3 til 6 þumlúnga lángir neðstskríðandi, uppstígandi, optast einsamlir slèttir. Blöðin, utan þau neðstu, sitjandi stráð, stundum heil á röndum, sem optast nöbbótt, oskírt 3sinótt, $\frac{1}{4}$ þumlúngs laung. Klasarnir lángir. Blómstrleggirnir missettir, og hefir hvör um sig eitt slètt lensulíkt blómstrblað. Bikarsins 4 leppar eru aflángir, ójafnt skiptir. Krónurnar ljósbláar, litlar.

Fræhúsið umsnúið uggmyndað, styttra enn stíllinn. Margra ára urt.

Blómstrar frá júní til september.

*Nytsemi og verkun:*

Lík sem undangángandi. Góð fóðr-urt.

d. **Fjall-ærupris** (*V. alpina*): blöðin aflaung, heil á röndum eðr smánöbbótt. Bikararnir randhærðir; staunglarnir einfaldir uppstígandi. Klasarnir með fáum þèttstandandi blómstrum.

Rótin með þræðilíkum aungum. Staunglarnir uppreistir eðr uppstígandi; ógreiniliga 4strendir, neðan slèttir, ofan dúnhærðir. Blöðin fjærstandandi, mótstæð, þau efstu smánöbbótt, sitjandi, töss, þau neðstu aflaung, heil á röndum. Bikarinn snubbóttr, jafnskiptr, randhærðr. Krónurnar litlar, bláar. Fræhúsið aflángt, hært.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* góð fóðr-urt.

e. **Lensublaðaðr Ærupris** (*V. anagallis*): blöðin lensulík, nöbbótt. Staungullinn uppreistr.

Staungullinn, sem urtin öll, slèttr, einúngis á neðri enda lítið hærðr, sívalr, greinóttr, og við neðri endann rótum skjótandi. Blöðin hálfumfaðmandi; mótstæð, opin, 2 til 3 þumlúnga laung. Nabbarnir smáir, fjærstandandi. Klasarnir mótstæðir, lengri enn blöðin. Blómstrleggirnir uppreistir, óregluligir, þræðilíkir. Blómstrblöðin strikmynduð, lensulík.

Bikarinn 4skiptr með strikmynduðum leppum. Krónurnar hvítbláar. Fræhúsið umsnúið eggmyndað.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* sem næst undangángandi.

f. **Mjóblaðaðr Ærupris** (*V. scutellata*): Blöðin strikmynduð, lensulík, næstum heil á röndum; leggirnir niðrhángandi.

Rótin skríðandi. Staungullinn upprèttr, einún[illegible] neðst skríðandi, greinóttr, veigalítill; blöðin [illegible] jandi, slètt, mótstæð, 1 þumlúngs laung, þau neðs[illegible] styttri enn þau efstu. Klasaleggirnir þræðil[illegible] ásamt klasanum, helfíngi lengri enn blöðin. 4 ti[illegible] 5 hárumlíkir blómstrleggir. Bikararnir hángandi eptir blómstrunina, með 4 aflaungum næstum ja[illegible] stórum leppum.

Blómstrblöðin strikmynduð, styttri enn blómstrleggirnir. Krónurnar myrkbláleitar. Krónu[illegible] efsti flipi hefir 3 rauðar æðar. Fræhúsið umsn[illegible]ið eggmyndað.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

*Nytsemi og verkun:* góð fóðr-urt.

g. **Bjarg-ærupris** (*V. saxatilis*): Blöð[illegible] uggmynduð, aflaung, næstum heil á röndum; staunglarnir margskiptir. Klasarnir fáblómstraðir.

Staungullinn niðrlagðr, með uppstígandi, dúnhærðum, þèttblöðuðum greinum. Blöðin mótstæð, lítil, þykk, dökkgræn, neðst smámjókkandi í einn blaðlegg, þèttstandandi, minnst við neðri enda greinanna, þau efstu hèr og þar nöbbótt, snubb-

ótt, randhærð. Blómstrleggirnir í greinaendunum hafa 4 til 6 blómstr, sem eru lengri enn blómstrblöðin. Bikarsins leppar lensulíkir, snubbóttir. Krónurnar myrkbláar, í miðjunni rauðar.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

2. Lifjagras *(Pingvicula)*.

a. Almennt Lifjagras. *(P. vulgaris)*: Hunángssporinn sívalr, rèttr, jafnlángr krónunni, efsta vörin klofin, neðsta vörin 3-skipt. Skaptið slètt; ísl. Lifjagras. Kæsirs-gras. Hleypis-gras. Jónsmessugras.

Skaptið sem optast uppreist, sívalt, einfalt. Blöðin eggmynduð, snubbótt, öll við rótina. Röndin innáviðbeygð, vörtum sett, þvöl, á flatveginn græn. Krónan dökkblá, 5klofin. Ginið hvíthært. Örið blaðmyndað, breitt, innáviðbeygt, með hármynduðu hreystri á bakinu. Fræhúsið eggmyndað. blómstrar í júní og júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Urtin er mýkjandi, græðandi, og hreinsandi, hún brúkast því móti útbrotum hörundsins, við bólgu og sprúngum.

Af urtarinnar blöðum, smásöxuðum, og soðnum með smjöri, og litlu einu af tólg má smýrsl tilbúa; t. d. tak af smáskornum blöðunum 6 lóð, nýtt ósaltað smjör 8 lóð, nýa tólg 4 lóð, sjóð saman um stund, sía hið þunna frá og geym. — Smýrsli þessi græða vel gömul sár, og önnur út-

Bikarinn 4skiptr með strikmynduðum leppum. Krónurnar hvítbláar. Fræhúsið umsnúið eggmyndað.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* sem næst undangángandi.

f. **Mjóblaðaðr Ærupris** (*V. scutellata*): Blöðin strikmynduð, lensulík, næstum heil á röndum; leggirnir niðrhángandi.

Rótin skríðandi. Staungullinn upprèttr, einún neðst skríðandi, greinóttr, veigalítill; blöðin jandi, slètt, mótstæð, 1 þumlúngs laung, þau nèðs styttri enn þau efstu. Klasaleggirnir þræðilí ásamt klasanum, helfíngi lengri enn blöðin. 4 ti 5 hárumlíkir blómstrleggir. Bikararnir hángandi eptir blómstrunina, með 4 aflaungum næstum ja stórum leppum.

Blómstrblöðin strikmynduð, styttri enn blómstrleggirnir. Krónurnar myrkbláleitar. Krónu efsti flipi hefir 3 rauðar æðar. Fræhúsið umsnúið eggmyndað.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

*Nytsemi og verkun:* góð fóðr-urt.

g. **Bjarg-ærupris** (*V. saxatilis*): Blöð uggmynduð, aflaung, næstum heil á röndum; staunglarnir margskiptir. Klasarnir fáblómstraðir.

Staungullinn niðrlagðr, með uppstígandi, dúnhærðum, þèttblöðuðum greinum. Blöðin mótstæð, lítil, þykk, dökkgræn, neðst smámjókkandi í einn blaðlegg, þèttstandandi, minnst við neðri enda greinanna, þau efstu hèr og þar nöbbótt, snubb-

ótt, randhærð. Blómstrleggirnir í greinaendunum hafa 4 til 6 blómstr, sem eru lengri enn blómstrblöðin. Bikarsins leppar lensulíkir, snubbóttir. Krónurnar myrkbláar, í miðjunni rauðar.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

2. Lifjagras (*Pingvicula*).

a. Almennt Lifjagras. (*P. vulgaris*): Hunángssporinn sívalr, rèttr, jafnlángr krónunni, efsta vörin klofin, neðsta vörin 3-skipt. Skaptið slètt; ísl. Lifjagras. Kæsirs-gras. Hleypis-gras. Jónsmessugras.

Skaptið sem optast uppreist, sívalt, einfalt. Blöðin eggmynduð, snubbótt, öll við rótina. Röndin innáviðbeygð, vörtum sett, þvöl, á flatveginn græn. Krónan dökkblá, 5klofin. Ginið hvíthært. Orið blaðmyndað, breitt, innáviðbeygt, með hármynduðu hreystri á bakinu. Fræhúsið eggmyndað.

blómstrar í júní og júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Urtin er mýkjandi, græðandi, og hreinsandi, hún brúkast því móti útbrotum hörundsins, við bólgu og sprúngum.

Af urtarinnar blöðum, smásöxuðum, og soðnum með smjöri, og litlu einu af tólg má smýrsl tilbúa; t. d. tak af smáskornum blöðunum 6 lóð, nýtt ósaltað smjör 8 lóð, nýa tólg 4 lóð, sjóð saman um stund, sía hið þunna frá og geym. — Smýrsli þessi græða vel gömul sár, og önnur út-

6*

brot hörundsins. Seyði af urtinni hreinsar höfuð barna frá skurfum, drepr lýs, eykr hárvöxt.

Urtin soðin í mjólk hleypir hana, en illa fer að landar mínir, hvar nægð hennar vex, eigi fara að dæmum Norðmanna, Svía og Finnlappa, er með urt þessari búa sèr til þètta èðr mauk *(lac hyperboreum)*, er þeim þykir til drýginda horfa, og skeðr það á þennan hátt. Marin Lifjaurtar blöð leggjast á síil, og þarígegnum síast mjólkin; þareptir er hún látin í grunn ílát, og sett frá, á afvikinn stað, þartil þykknar í 1, 2 til 3 daga, eptir sem hlýindi eru í veðri, þá þykknar mjólkin og skilr sig þó eigi. Af þètta þessum takist á málum og blandist í mjólk, sem maðr ætlar sèr til nautnar, hvarvið hún þykknar, sem og verðr munntamari, og stendr betr undir.

b. **Fjall-lifjagras** *(P. alpina)*. Hunángssporinn uppstígandi, styttri enn krónan, efstavörin randskorin, neðsti flipinn afkubbaðr.

Rótin aungótt. Staungullinn einfaldr. Blöðin mjó, eggmynduð. Krónan gulleit. Fræhúsið eggmyndað, endast með einum krók.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

### 2. Orða *(Digynia)* tvíkvæntar.

### 3. Gulax *(Anthoxantum)*.

a. **Velluktandi Gulax** *(A. odoratum)* Axið eggmyndað, aflángt; blómstrin stuttleggjuð, lengri enn stríið; ísl. **Reyrgras.**

**Rótin aungótt, smádúnhærð; stráið uppreist, slètt, rennótt, neðst hnjábeygt. Blöðin flest við rótina, stutt, strikmynduð, reimótt, úthvest, ljósgræn, 1 til 2 á staunglinum, mikið stutt, opin, á neðri enda hærð.**

**Slíðrið lánghært, skurðótt. Slíðrhimnan lengulík, hvít, þurr. Axið, áðr enn urtin blómstrar eggilíkt; eptir blómstrunina lensulíkt eðr strik yndað, einsett, uppreist, hvast, margblómstrað. arsins hreystr sem optast smáhærð, hvöss, örð, himnótt, snörp, með grænum hrygg. Það ra hreystr styttra enn það innra. Krónunnar hreystr jafnlaung, ryðlituð, hærð, styttri enn bikarinn, í efri enda klofin, við neðri enda strísett. trín ójöfn, það lengra hnjábeygt.**

**Dupthnapparnir strikmyndaðir gulir. Dupthirzlurnar lángar, úthángandi, hvítar. Örin þræðilík, in. Eptir að urtin hefir blómstrað, er axið gult. Úrtin gefr sterka lukt.**

**Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.**

*Nytsemi og verkun:*

**Urtin lögð í tóbaksbauka og millum fata, gefr góða lukt, hún er og bezta fóðr-urt fyrir öll grasetandi dýr.**

## 3ji Hópr.

### (*Triandria*) þrímannaðar.

### 1sta Orða (*Monogynia*) einkvæntar.

1. Velantsurt (*Valeriana*). Krónan 5klofin við neðri enda, hnúskótt eða sporótt; eitt fræ innibyrgt í bikarnum, krónað, með þeli eðr tönnum.

2. Skæni (*Schœnus*). Bikarbelgirnir smáhreystróttir, hópsettir, þeir yztu ófrjófir; engin króna; fræið lángleitt.

3. Skúfgras (*Scirpus*). Bikarbelgirnir smáhreystróttir, 2raðaðir, allstaðar þaktir; engin króna; fræið nakið.

4. Síkis-ull (*Eriophorum*). Bikarbelgirnir smáhreystróttir, allstaðar þaktir; engin króna. Fræið sett með lángri ullu.

5. Finnúngr (*Nardus*). Enginn bikar; krónubelgrinn tvíblaðkaðr.

### 2. Orða (*Digynia*) tvíkvæntar.

b. Rottuhali (*Phleum*). Bikarsins belgr tvíblaðkaðr, afkubbaðr, með 2 broddum.

7. Refshali (*Alopecurus*). Bikarbelgrinn tvíblöðkóttr. Krónubelgrinn einblaðkaðr, með einsettum oddi.

8. **Milíugras** *(Milium)*. Bikarbelgrinn tvíblöðkóttr, keistr, stærri enn krónubelgrinn; örin ullhærð.

9. **Hvingras** *(Agrostis)*. Bikarbelgsins 2 blöðkur hvassar, styttri enn krónubelgirnir; örin fjöðruð.

10. **Punthali** *(Aira)*. Bikarbelgrinn 2bladkaðr, 1 til 2-blómstraðr.

11. **Sveifgras** *(Poa)*. Bikarbelgrinn 2blöðkóttr; krónubelgsins blöðkur eggilíkar, hvassar, án brodds.

12. **Vingull** *(Festuca)*. Bikarbelgrinn 2blaðkaðr; smá-axin aflaung, sívöl, fyrir utan strí.

13. **Hegri** *(Bromus)*. Bikarbelgrinn 2blöðkóttr; krónubelgrinn 2blöðkóttr, sú innri blaðka randhærð, sú ytri með stríi fyrir neðan broddinn. Smáöxin aflaung.

14. **Reyr** *(Arundo)*. Bikarbelgrinn 2blöðkóttr; krónubelgrinn 2blaðkaðr við neðri endann, kríngumvaxinn með ullu.

15. **Melgras** *(Elymus)*. Bikarbelgirnir 2blaðkaðir, margir saman með mörgum blómstrum.

16. **Hveiti** *(Triticum)* Bikarbelg-

irnir 2blaðkaðir, einfaldir, með mörgum blómstrum; axleggrinn tenntr.

17. **Hestaurt** *(Holcus)*: Bikarbelgrinn 2blöðkóttr; krónubelgrinn ber strí, er 2-blómstraðr, annar þeirra karlkyns, blöðkulaus.

### 3. Orða *(Trigynia)* þríkvæntar.

18. **Montía** *(Montia)*. Bikarinn 2-blöðóttr; krónan einblöðuð. Fræhúsið 3-bloðkött með 3 fræum.

19. **Königsjurt** *(Königia)*. Bikarinn 3blöðóttr; engin krona; nakið fræ.

## 3. Hópr *(Triandria)* þrímannaðar.

### 1sta Orða *(Monogynia)* einkvæntar.

#### 1. Velantsurt *(Valeriana)*.

a. **Læknis-velantsurt** *(V. officinalis)*. Blöðin öll ugguð. Uggarnir lensulíkir, nöbbóttir; ísl. Velantsurt.

Rótin aungótt; staungullinn uppreistr, slèttr röndóttr, greinóttr, sívalr. Greinirnar mótstæðar. Blöðin leggjuð með ójöfnum nöbbum; endaugginn næstum því eins stór og hinir aðrir, þeir eru allir sitjandi, hinir neðstu lensulíkir, hinir efri strikmyndaðir, með fjærskildari nöbbum; blaðleggrinn ullhærðr. Blómstrblöðin strikmynduð, lensulík, með himnóttum röndum. Hálsskýlan mörgum sinnum 3skipt. Krónurnar ljósrauðar.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er styrkjandi, svita og þvagdrífandi, uppleysandi, ver niðrfallssýki, og mótstendr forrotnun. Hún er því góð móti matarólyst, óstyrk magans, aflleysi, niðrfallssýki, hjartslætti, skyrbjúgi og slæmum vessum. Te af urtarinnar blöðum drekkist svo tebollum skipti 4sinnum dagliga. Seyði af rót urtarinnar takist, 2 matspænir í senn, hvört dagsmark.

Dupt af rótinni takist inn teskeið full 3svar dagliga í spæni fullum af vatni. Af rótinni má dropa tilbúa þannig: tak af rótinni smáskorinni 2 lóð, bezta brennivíns 10 lóð, lát standa við il í 4 daga, sía síðan hið þunna frá. Af dropum þessum takist 80 í senn 3svar dagliga.

Móti Sjóndepru er gott að taka dupt rótarinnar í nefið, og þvo augun optliga úr seyði rótarinnar.

## 2. Skæni (*Schœnus*).

a. **Flat-skæni** (*Sch. compressus*). Stráið ávið sívalt, blaðlaust. Axið tvísett, styttra enn þær einblöðuðu reifar. Smáöxin margblómstruð. Blöðin flöt.

Rótin skríðandi, liðótt, með mörgum smáaungum. Stráið slíðrað við neðri endann af nokkrum fáum blöðum, lítið bogið, uppreist, slètt, röndótt, 3strent, nakið. Blöðin við rótina missett, styttri enn stráið, slíðrandi, þau efstu jafnhá stráinu, randhvöss, rennótt. Axið í enda strásins, samstand-

andi af 5 til 10 rauðleitum, missettum smáöxum, mótstæðum eðr svoleiðis settum, að öxin snúa sèrhvört til mótsettrar síðu, hvarfyrir þau líta samanþrykkt út. Reifarnar undir bladinu einblaðaðar, efst 3strendar, á röndum snarpar, umfaðmandi þau neðstu smáöx. Örið 3skipt, dúnhært, fræið 3hornótt.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

3. Skúfgras (*Scirpus*).

a. Mýra-skúfgras (*Sc. palustris*). Stráið slíðrað neðantil, sívalt. Axið eggmyndað. Bikarbelgirnir hvassir.

Rótin skríðandi, liðótt, hreystrótt, vazflöt. Stráin mörg saman, uppreist, blaðlaus, óskipt, sívöl, stutt, neðst slíðruð af sívölum heilrönduðum afkubbuðum skeiðum; engin blöð, en opt blöðum lík ófrjóf strá. Axið margblómstrað. Bikarbelgsins blöðkur jarpar, á röndum stríðhimnaðar, hvítleitar. Dupthnapparnir gulir. Fræið neðantil hárum sett.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

b. Mosa-skúfgras (*Sc. cæspitosus*). Stráið sívalt, röndótt, neðst slíðrað, þètthreystrað. Bikarbelgsins yztu blöðkur nokkuð stórar.

Rótin með þèttum aungum; stráin þètt, uppreist, óskipt, sívöl, slètt, röndótt. Slíðrið vítt, blaðilíkt, neðan stakt með stuttum, snubbóttum broddi, umkríngt mörgum himnulíkum, gráhvítleitum, röndóttum, holum og slíðrandi þöktum, ævar-

andi, utantil stærri hreystrum. Axið lítið dökkleitt. Bikarbelgsins 2 yztu blöðkur eru jafnlángar axinu, og endast með snubbóttum, blaðilíkum broddi. Fræið neðst sett smáum burstum.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Menn segja almennt að, þar sem gras þetta vaxí, sè mótorf undir. Góð fóðr-urt, einkum fyrir saudfè.

c. Tjarna-skûfgras (*Sc. lacustris*). Stráið blaðlaust með litlum skûf, samansettum af smáöxum í efri enda.

Rótin þykk, vazflöt, skríðandi; stráin há, sívöl, slètt, uppstandandi, með hvítum mergi innaní, við neðri enda slíðruð af mörgum missettum skeiðum. Skûfsins eðr klasans greinir samansettar, mislángar, samanþrykktar, ávið sívalar, í efri endann með smáu kögri. 2 yztu blómstrblöðin stór, mislaung, lensulík, hulstrilík, þau innstu minni og fleiri. Smáöxin þètt, næstum legglaus, eggmynduð, glansandi, ryðlituð. Bikarbelgirnir holir, broddóttir, á röndum kögrlagðir. Fræin á aðra síðu flöt, við neðri endann burstasett.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Af strái þessa grass mætti einsvel og af mel, tilbúa lènur á hesta. Það brúkast líka af beykirum, til að þètta með tunnur og önnur ílát.

d. Nálmyndað Skûfgras (*Sc. acicularis*). Stráið 4strent, neðst slíðrað af broddlaus-

um skeiðum. Axið eggmyndað hvast; þær ytri bikarblöðkur stærri.

Rótin með þèttum aungum, stráin þunn, óskipt, uppreist, 4strend. Hliðarnar slèttar, stráin þunn, broddlaus, í efri enda innþrykkt. Blöðin fá, lík staunglinum að lögun, en þó minni. Axið lítið hvast eggmyndað, 5 til 6blómstrað. Bikarbelgirnir þaktir, hvassir, hryggjóttir, á röndum himnóttir, þeir efstu ófrjófir.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* sæmilig fóðr-urt.

e. **Bursta-skúfgras** (*Sc. setaceus*). Stráið blaðlaust, burstalíkt, með 2 sitjandi öxum á hliðinni fyrir utan blómstrblöð.

Rótin með þèttum litlum aungum. Stráin þètt saman, smá og mjó, röndótt, slètt. Blöðin líkjast stráinu, en eru styttri, og hafa við neðri endann röndótt og sívalt slíðr. Nær því við neðri enda stråsins spretta 2, stundum 1, skjaldan 3 öx fyrir utan blómstrblöð, þau eru eggmynduð, slètt. Bikarbelgirnir jafnstórir, dökkleitir, með grænni, hvassri og hryggmyndaðri sin á bakinu. Fræin háralaus.

Eins árs urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

### 4. Síkis-ull (*Eriophorum*).

a. **Slíðruð Síkis-ull** (*E. vaginatum*). Stráin slíðruð, sívöl; axið einfalt. Bikarblöðkurnar þurhimnóttar.

Rótin með þèttum aungum; stráin ávið þrístrend, uppreist, slètt, með 2 slíðrum, hvaraf það eina

gengr niðr á miðju stráslns, það annað við neðri enda þess fyrra. Blöðin sitja við rótina, hafa 3 síður, strikmynduð, beygð á bak aptr, röndótt, neðri endi þeirra himnulíkr, slíðrandi. Axið eggilíkt, á efri enda strásins; um blómstrunartímann að lit sem blý, eptir blómstrunina sett hvítri, lángri ullu, og er studt af blómstrblöðum.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágûst.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

b. Flatblöðuð Síkis-ull. *(E. polystachion).* Stráið sívalt, blöðin flöt. Öxin leggjuð; ísl. Fífa.

Rótin aungótt; stráið sívalt, blöðótt, röndótt, slètt; blöðin strikmynduð, styttri enn stráið, við efri endann með snörpum hrygg, í neðri endann slíðrandi, á röndum snörp. Blöðin við blómstrin 2 eðr 3, við neðri endann himnótt, útteygð. Axleggirnir mislángir, áviðflatir; öxin svartleit, fyrir blómstrunina stuttleggjuð, eptir blómstrunina lángleggjuð og hángandi. Belgjablöðkurnar strikmyndaðar, lensulíkar, óþýðar, himnóttar. Fræullin laung, hvít.

Margra ára urt; blómstrar í ágûst.

*Nytsemi og verkun:*

Fífunnar fræull kann að brúkast til margra hluta, t. d. velþurkuð í rúmföt og hægindi, kveikr, svovel í kerti sem lampa. Ullin skorin og hnoðuð saman við smjör etr út göt á meinsemdum. Þaraðauki má spinna hana saman við aðra ull í föt.

c. Litla Síkis-ull *(E. alpinum).* Stráin blaðlaus, strend. Axið einsett, uppreist, styttra enn fræullin.

Rótin aungótt, skríðandi, með mörgum uppreistum, þræðilíkum, 3 til 4 strendum stráum. Blöðin sitja við neðri enda strásins, og eru strikmynduð, hryggjótt, snubbótt, slíðrandi, styttri enn stráið, á röndum snörp, umföðmuð af pípumynduðu, afkubbuðu slíðri. Axið lítið, egglíkt, fáblómstrað, á efri enda strásins.

Bikarblöðkurnar eggmyndaðar, hryggjóttar, ryðlitaðar, á röndum himnóttar, hin yzta umfaðmandi, og endast með einum snubbóttum, grænum broddi. Fræin 3strend. Ullin gisin, velhvít, laung í tilliti til axins.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

### 5. Finnúngr (*Nardus*).

a. Oþýðr Finnúngr (*N. stricta*). Axið burstálíkt, beint, einnar síðu; ísl. Töðu-finnúngr.

Rótin samanstendr af þykkum, dúnhærðum aungum. Stráið slètt, lítið strent, óþýtt, lítið beygt, rótarblöðin mynda svörð niðr við rótina, eru burstalík, röndótt, hvít, grá-glansandi, og endast með uppblásnum skeiðum, sett stuttum, snubbóttum hreystrum; efri blöðin minni, hvöss, 3hyrnd dúnhærð, gráleit. Axið lítið einsett, á enda strásins. Blómstrin bláleit. Krónunnar belgblöðkur strikmyndaðar með stríi, snarpar.

Margra ára urt.

*Nytsemi og verkun:*

Urtin skýlir foksandi; er eigi góð fóðr-urt.

## 2. Orða (*Digynia*) tvíkvæntar.

### 6. Rottuhali (*Phleum*).

a. **Mark-rottuhali** (*Ph. pratense*). Axið sívalt, mikið lángt; bikarbelgirnir á hryggnum hærðir, lengri enn stríið.

Rótin aungótt; stráin uppreist, röndótt, blöðótt, en þó blaðlaus efst. Blöðin snörp, einkum á efri síðu. Slíðrin laung, röndótt, sívöl. Slíðrhimnan stutt, snubbótt, gagnsær. Axið uppreist, þèttblómstrað allstaðar sívalt, snubbótt, og með því bikarbelgirnir eru hærðir, sýnist það loðið. Bikarbelgirnir grænir, með hvítum sinum og röndum. Dupthnapparnir dökkrauðir.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Bezta fóðr-urt fyrir hesta.

b. **Hnöllóttr Rottuhali** (*Ph. nodosum*) er eiginliga sama urt, sem næst undangángandi, henni að öllu lík, utan að hún hefir laukmyndaða eðr eggilíka rót, styttri og neðst niðrlögð strá.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* sama sem undangángandi.

c. **Fjall-rottuhali** (*Ph. alpinum*). Axið eggi líkt, sívalt; stríið jafnlángt belginum; ísl. **Foxgras, tóugras, refshali, puntr.**

Rótin næstum hnöllótt, lítið skríðandi; stráið einsett, uppstígandi, neðst hært, ofantil slètt, slíðrað af blöðunum, einkum við neðri endann. Blaðanna slíðr laung, þó styzt niðr við rótina. Blöðin styttri enn stráið, strikmynduð, hvöss, ljósgræn,

röndum snörp. Slíðrhimnan mikið stutt. Axið eggmyndað, aflángt eðr sívalt, dökkleitt.

Bikarbelgirnir randhærðir. Stríin bein, dökkrauð. Krónubelgirnir strílausir, snubbóttir eggmyndaðir, misjafnir að stærð.

Margra ára urt; blómstrar í ágúst.

### 7. Refshali (*Alopecurus*).

a. **Hnjábeygðr Refshali** (*A. geniculatus*). Stráið uppstígandi hnjábeygt. Axið nær því flipótt, sívalt; blómstrbelgirnir innþrykktir, á röndum hærðir.

Rótin með laungum óskiptum aungum. Stráið mikið bogið, uppstígandi, blöðótt, greinótt, slètt, við neðstu hríngina rótum skjótandi. Blöðin stutt, slètt. Slíðrið samanþrykkt. Slíðrhimnan þunn, hvít. Axið lítið rauðleitt. Blómstrbelgsins blöðkur misstórar, snubbóttar. Bikarbelgirnir hærðir. Krónubelgirnir slèttir.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Er bezta fóðr-urt handa hestum og nautum, en ei svo góð fyrir sauðfènað.

### 8. Milíugras (*Milium*).

a. **Utbreidt Milíugras** (*M. effusum*). Með toppmynduðum, útbreiddum, strílausum blómstrum.

Rótin aungótt; stráin mörg frá sömu rót, uppreist, sívöl, slètt, blöðótt röndótt. Blöðin breið, slètt, á röndnm snörp. Slíðrhimnan eggmynduð,

trosnuð, blomstrtopprinn stór á enda strásins. Greinarnar hárilíkar, snarpar, margskiptar, standa rètt út, endar þeirra fram og tilbakabeygðir með mörgum blómstrum. Blómstrbelgirnir eggmyndaðir. Bikarbelgirnir þynnri, þrísinóttír. Krónubelgirnir mótsettir, glansandi, og umfaðma hvör annan. Duptberarnir lengri enn blómstrin. Öxin fjöðurlík. Fræin ávöl.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Fyrir utan að urtin er bezta fóðr fyrir öll grasetandi dýr, má og af fræi hennar mjöl tilbúa, og vel til matar hafa. Urtin er velluktandi, og ver maur.

9. Hvíngras (*Agrostis*).

a. Rauða Hvíngras (*A. rubra*). Sá blómstrandi partr toppsins útbreiddr. Krónubelgsins ytri blaðka slètt, með þunnu tilbakabeygðu strái á endanum.

Rótin aungótt, mörg uppreist strá, blöðin snörp á röndum, og á neðra yfirborði þurr vinda þau sig saman. Slíðrhimnan flipótt, slíðruð, röndótt. Toppgreinirnar í krönsum, um blómstrtímann vatnsflatar; fyrir blómstrunina axmyndaðar, samanþrykktar, eptir blómstrunina rauðleitar, ennmeir samanþrykktar.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:* bezta fóðr-urt.

b. Skríðandi Hvíngras (*A. Stolonifera*). Blómstrtopprinn samanhnepptr. Stráið grein-

ótt, skríðandi. Blómstrin þètt. Bikarblöðkurnar jafnstórar, lensulíkar, dúnhærðar; ísl.

Rótin laung, skríðandi, með mörgum greinóttum dúnhærðum aungum. Stráin niðrlögð, greinótt, slètt, blöðótt, með samanhnepptum dökkrauðum hnjám, þau neðstu rótum skjótandi. Blöðin breið, snörp, sinótt. Slíðrhimnan margskipt. Blómstrtopprinn uppreistr. Greinirnar missettar, hálfkransmyndaðar, nær því allar á eina síðu, þèttblómstraðar, margskiptar, út- og innbeygðar; þær efstu samanbeygðar, enar neðstu opnar. Blómstrin strikmynduð, lensulík. Krónubelgirnir misjafnir að stærð, styttri enn bikarbelgirnir, stuttleggjaðir við neðri endann. Bikarbelgirnir hryggjóttir, rauðleitir.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Urtin er en bezta fóðr-urt, bæði á sumrum af jörðunni, sem og slegin og þurkuð í heyum. Af henni mjólka kýr afbragðsvel, og hafa smjörmikla mjólk. Eptir að urtin er slegin, vex hún, og fölnar trauðliga eða brennr.

c. Lítið Hvíngras (*A pumila*). Blómstrtopprinn einnrar síðu. Stráin uppreist í bindinum; ísl.

Rótin með mörgum aungum. Stráin mörg saman í bindinum, uppreist; neðst lítið innávið beygð, blöðótt. Rótar- og staungulblöðin jöfn, stutt, hvöss; hnèin rauðleit; slíðrin röndótt, þau efstu laung. Slídrhimnan stutt, snubbótt, skörðótt. Topprinn opinn með jöfnum greinum, er allar snúa á eina hlið. Smá öxin eggilík, hvöss, græn, rauðleit,

glansandi. Blómstrblöðkurnar jafnstórar, utan hára. Fræin ávíð sívöl, lítið hvesst.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og Verkun:* sæmilig fóðr-urt.

d. **Hunda Hvíngras** *(A. Canina)*. Bikarbelgirnir eggmyndaðir, hærðir: Krónubelgrinn ber, með innáviðbeygðu strfi á hryggnum. Stráin svarðliggjandi, lítið greinótt; ísl.

Stráin svarðliggjandi í efri endann, uppreist, blöðótt. Blöðin snörp, þau neðri mjórri enn hin. Topprinn rèttr, hálfkransmyndaðr. Blómstrin eggilík, glansandi; við neðri endann dökkrauð um blómstrtímann, en bleik á lit, þá urtin fer að frævast. Bikarbelgsins blöðkur ójafnar, sú ytri snörp á hryggnum. Krónan styttri enn bikarinn. Stríið 2faldt lengra enn krónan. Dupthnapparnir bláleitir.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* sèm undangángandi.

e. **Almennt Hvíngras** *(A. vulgaris)*. Blómstrtopprinn opinn, án stríis, með útþöndum hárilíkum greinum. Bikarbelgsins blöðkur jafnstórar. Krónubelgsins innri blaðka 2föld, styttri, innþrykkt í broddinn.

Rótin með mörgum smáum aungum, opt skríðandi. Stráin uppreist, blöðótt, slètt, röndótt. Blöðin mjó, hvöss, snörp, með laungu jöfnu slíðri. Slíðrhimnan stutt, nöguð, niðráviðhlaupandi. Topprinn uppreistr, nokkuð lángr; fyrir blómstrunina dökkrauðr, en ljósrauðblár eptir blómstrunina, með missettum, hálfkransmynduðum, út- og inn-

beygðum, margskiptum greinum. Blómstrin egg-mynduð, lensulík. Bikarblöðkurnar lensulíkar, opnar á röndum með óþýðum himnum, við neðri endann rauðleitar. Krónublöðkurnar hvítleitar, þunnar; sú ytri nærstum eins stór og bikarinn; sú innri mikið minni.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* bezta fóðr-urt.

f. Hvítt Hvíngras (*A. alba*). Blómstrtopprinn slykjaðr. Stráið skríðandi. Bikarblöðkurnar jafnstórar, lensulíkar, glansandi, með snörpum kjöl; ísl.

Rótin sett laungum aungum, sem aptr hafa minni ánga. Stráið niðrliggjandi, rótum skjótandi við neðstu hnè og blöðótt, að ofanverðu uppreist, blaðlaust, ójafnt. Blöðin snörp; blaðslíðrin jöfn. Slíðrhimnan snubbótt, klofin eðr trosnuð. Blómstrtopprinn greinóttr, útbreiddr, margblómstraðr, hvítleitr. Krónublöðkurnar misstórar, önnur snubbótt, hin hvöss, styttri enn bikarinn, stundum en þó sjaldnar með stríi við neðri endann.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* notandi fóðr-urt.

g. Reyrmyndað Hvíngras (*A. arundinacea.*) Topprinn aflángr; yzta krónublaðkan við neðri endann hærð með stríi. Stríið er innsnúið, lengra enn bikarinn; ísl.

Rótin aungótt, lítið skríðandi. Stráið uppreist lángt, slètt, rönðótt, liðótt, blöðótt. Blöðin strikmynduð, laung, samanundin í broddinn, snörp ef strokin eru niðreptir. Blómstrtopprinn lítið sam-

anhnepptr, ljósleitr. Bikarbelgsins blöðkur hvassar, misstórar. Krónubelgrinn minni enn bikarinn, hærðr við neðri enda.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst

### 10. Punthali (*Aira*).

a. **Engja Punthali** (*A. cæspitosa*). Blöðin flöt. Topprinn opinn. Krónublöðkurnar ullhærðar við neðri endann. Stríið beint, stutt.

Rótin með þèttum aungum. Stráin uppreist, jöfn, stinn, blöðótt, tvíliðótt. Blöðin mjó, á neðra yfirborði jöfn, á röndunum og sinunum snörp. Rótarblöðin útbreidd, við neðri endann slíðrandi. Slíðrhimnan laung, hvöss, klofin. Slíðrin jöfn, röndótt. Topprinn stór, silfrglansandi. Greinirnar margskiptar, hálfkransmyndaðar, hárumlíkar, snarpar. Bikarblóðkurnar jafnlángar, á hryggnum ójafnar. Sá eini krónubelgr leggjaðr, hinn næstum sitjandi; leggrinn loðinn. Önnur blaðkan breiðari í broddinn, lítið nöguð, og hefir á hryggnum stutt innávið beygt strí.

*Nytsemi og verkun:* góð fóðr-urt fyrir kýr og fè.

b. ***Bugðóttr Punthali** (*A. flexuosa*). Blöðin burstalík. Stráið nærri blaðlaust. Blómstrleggirnir bugóttir. Stríin hnjábeygð.

Rótin aungótt. Stráið uppreist, sívalt, slètt, rauðleitt. Þau fínu blöð, sem eru þètt samanvið rótina, eru snörp á röndum, í miðju rennótt, við neðri endann útvíðkuð, slíðrandi. Slíðrhimnan stutt, snubbótt, klofin. Toppgreinarnar 3skiptar, bugðóttar, skáhallar. Smáleggirnir missettir. Blómstrin upp-

reist, silfrglansandi. Blómstrblöðkurnar nærri jafnstórar, nagaðar í broddinn, hærðar við neðri endann. Þær innri krónublöðkur mjórri. Stríið lítið lengra enn blaðkan.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* sæmilig fóðr-urt.

c. **Bjarg-Punthali** (*A. montana*). Blöðin burstalík. Topprinn mjór. Blómstrin við neðri endann hærð með stríi. Stríið lengra enn smáaxinin.

Rótin sett laungum aungum, og vaxa uppaf henni fá uppreist strá. Blöðin þètt samanvið rótina, óþýð, skurðótt, snörp á röndum. Á staunglinum vaxa 2 blöð einslit, annað unðir blómstrtoppinum. Blómstrin líkjast bugðótta punthalanum. Smáaxinin eru aðþrykkt staunglinum og meir glansandi. Stríið dökkleitt.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* sama sem undangángandi.

d. **Fjall-Punthali** (*A. alpina*). Blöðin alilík. Topprinn þèttr. Blómstrin hærð með stuttum stríum við neðri endann.

Rótin skríðandi, aungótt, og framskýtr ýmisligum framáviðliggjandi renglum, sem og fáum uppstígandi sívölum slèttum stráum, sem hafa 1 lið við neðri enda á því efsta blaði. Blöðin mjög mjó, hvöss, slètt; á röndum snörp, röndótt; þau efstu stutt, með laungu röndóttu slíðri neðanundir blómstrunum. Topprinn er, þá urtin fyrst fer að blómstra, samanhnepptr, þareptir opinn, með mjög fínum, smáhærðum, í broddinn lítið þykkari grein-

um. Bikarblöðkurnar stærri enn krónurnar, lensulíkar, hvassar, utan rauðbláar. Milli þeirra og krónanna eru bindini af smáum hárum. Krónublöðkurnar misstórar; sú stærsta nöbbótt í efri endann, og hefir við neðri endann lítið snúið strí, sem er styttra enn blaðkan; sú minni blaðka er hvassari; krónan önnur sitjandi, hin með legg undir.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

betri fóðr-urt enn 2 undangángandi.

e. **Vatns-Punthali** (*A. aqvatica*). Blómstrtopprinn opinn. Krónublöðkurnar jafnar, snubbóttar, lengri enn bikarsins. Blöðin flöt.

Rótin sett laungum aungum, skríðandi, hvít. Stráið sveimandi, í broddinn uppreist, við neðri rótumskjótandi, blöðótt. Blöðin slètt, þunn, sveimandi, slíðrandi. Slídrhimnan óskipt, hvít, þunn, himnulík. Topprinn uppreistr. Greinirnar hálfkransmyndaðar, misláng ar, slèttar, margblómstraðar, rauðleitar; sú efsta við neðri enda sinótt. Krónublöðkurnar mikið lengri enn bikarsins, jafnlángar, 3sinóttar, rykktar, í broddinn himnulíkar, innþrykktar.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Bezta fóðr-urt fyrir mjólkandi kýr og sauðfè.

f. **Ax-Punthali** (*A. subspicata*). Blöðin flöt. Topprinn axmyndaðr. Miðblómstrið hefir strí ábakaptr beygt. Stríið lítið, slýkjað.

Rótin samanstendr af laungum sinóttum aungum, sem framskjóta fjölda af blöðum og stráum. Stráin hærð við toppinn, og liðótt við neðri endann. Blöðin strikmynduð, slètt, umfaðma helfíng strásins, og eru þètt tilsamans við neðri endann. Slíðrið hært, jafnlángt blaðinu. Blómstrtopprinn svo þèttr, að sýnist sem axin væri. Smáaxinin ljósgrágul að lit, standa á stuttum greinóttum leggjum. Bikarblöðkurnar stuttar, glansandi. Krónublöðkurnar slèttar. Sú yzta hefir strí ofaná hryggnum, sem við neðri endann er út- og innbeygt, 2faldt lengra enn blaðkan; strí þessi láta blómstrtoppinn sýnast sem loðinn væri.

Margra-ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

g. **Snemmvaxinn Punth.** (*A. præcox*). Blöðin burstalík. Slíðrin strend. Blómstrtopprinn axilíkr. Blómstrin sitjandi með stríi á hryggnum.

Rótin smáaungótt. Stráin uppreist, blöðótt, bleik, sem öll urtin er, jöfn. Blöðin við rótina visnandi. Staungulblöðin làngs slíðrandi. Slíðrin uppblásin, sinótt. Slíðrhimnan snubbótt. Topprinn samþrykktr, uppreistr, fáblómstraðr. Blómstrin ljósgræn, glansandi. Bikarblöðkurnar jafnlángar, snarpar á hryggnum. Báðr krónurnar legglausar; þær yztu blöðkur hafa strí, sem er hnèbeygt, en 2faldt á lengd við bikarinn. Eins árs urt; blómstrar í júlí.

11. **Sveifgras** (*Poa*).

a. **Almennt Sveifgras** (*P. trivialis*). Topprinn útbreiddr. Smáaxinin 3blómstruð.

Krónublöðkurnar lensulíkar, 5 sinóttar, neðst samflæktar með þófgrónum hárum. Slíðrhimnan laung.

Rótin aungótt. Stráin niðrávið beygð og opt neðst rótum skjótandi, ofan uppreist, óskipt, röndótt, blöðótt, snörp. Blöðin lin, uppreist, á neðra yfirborði og á röndum snörp, hvöss, hryggjótt, samanþrykkt. Slíðrhimnan lensulík, hvöss. Topprinn lágr, marggreinóttr, uppreistr, með snörpum, margskiptum, og um blómstrtímann útteygðum greinum. Smáaxinin eggmynduð, rauðgræn. Bikarblöðkurnar jafnlángar, á hryggnum snarpar; sú innri mjóodduð, sú ytri eggmynduð, 5sinótt. Krónublöðkurnar snubbóttar.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

b. Engja-Sveifgras (*P. pratensis*). Topprinn útbreiddr. Smáaxinin 4blómstruð. Krónublöðkurnar lensulíkar, 5sinóttar, samflæktar, með þófgrónum hárum. Slíðrhimnan slètt, snubbótt.

Rótin aungótt með skríðandi vatnsgreinum, uppaf henni vaxa mörg uppreist, á neðri enda lítið innáviðbeygð, óskipt, blöðótt, jöfn og sívöl strá. Blöðin slètt, nema á hryggnum, blágræn að lit þá urtin er vaxin. Slíðrið slètt, röndótt, jafnlángt blaðinu. Toppgreinarnar slèttar. Smáaxinin eggmynduð. Bikarblöðkurnar hvassar, lítið misstórar, 3sinóttar, á hryggnum snarpar. Krónubelgirnir snubbóttir, 5sinóttir, á hryggnum snarpir.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* bezta fóðr-urt.

c. **Flatleggjað Sveifgras** *(P. compressa)*. Topprinn einnar síðu samanþrykktr. Krónubelgirnir strendir, við neðri endann samflæktir með þófgrónum hárum.

Rótin skríðandi. Stráin niðrliggjandi við neðri endann, þareptir uppstígandi, flöt ofan, blöðótt, stinn, við efri endann blaðlaus. Blöðin mjó, hvöss í efri endann, snörp, blágrá. Slíðrið tvíeggjað, slètt, jafnlángt blaðinu. Slíðrhimnan stutt, snubbótt. Greinirnar samanþrykktar, strendar, lítið bugðóttar, snarpar, fyrir blómstrunina opnar, þareptir uppreistar. Smáaxinin strikmynduð, lensulík. Bikarblöðkurnar, nær því eins stórar, hvesstar, eggmyndaðar, sinóttar, með 4 til 6 blómstrum. Krónubelgirnir þèttir saman, snubbóttir, eins lángir og bíkarinn.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

d. **Eins árs Sveifgras** *(P. annua)*. Topprinn útþaninn. Smáaxinin eggmynduð. Krónurnar strjálar, 5sinóttar, sunðrlausar. Stráið skáhallt, samanþrykkt.

Rótin með fínum aungum. Af henni spretta mörg uppstígandi, niðráviðliggjandi, samanþrykkt, slètt, blöðótt, við neðri endann opt rótumskjótandi og greinótt strá. Blaðslíðrið jafnlángt blaðinu, slètt, samanþrykkt, hryggjað. Blöðin flöt, strikmynduð, snubbótt, fín, stundum þversum hrukkótt. Slíðrhimnan slètt, lítið nöguð. Topprinn uppreistr, einnarsíðu stuttr, með tvisvar samfestum, beint útstandandi, fáum greinum. Smáaxinin glansandi, snubbótt, samanþrykkt, græn og hvítflekkótt. Bikarblöðkurnar

misstórar, hryggjaðar. Krónublöðkurnar hárlausar við neðri enda, á röndum himnulíkar. Vex snemma, fölnar síðla sumars. Eins árs urt.

e. Fjalla Sveifgras (*P. alpina*). Topprinn útbreiddr. Smáöxin með 4 blómstrum, hjartalík. Krónublöðkurnar eggmyndaðar, sigðlíkar, fráskildar við neðri endann; neðstu slíðrhimnurnar stuttar.

Rótin láng- og stutt- aungótt, hvaraf vaxa fá uppreist, opt uppstígandi, þykk, slètt, sívöl, rauð, 2hnúskótt, ofan nakin strá. Blöðin þètt saman við rótina, breið, strikmynduð, sinótt, snubbótt, á neðra borðið grábláa, á röndum snörp með stuttu slíðri, að undanteknum 2, sem sitja á stráinu. Topprinn eggmyndaðr, marggreinóttr. Axstaunglarnir út- og inn- beygðir. Smáöxin flöt, samþrykkt, rauðleit, snubbótt, glansandi. Krónurnar hafa bursta, en ei þófgróin hár við neðri endann.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

f. Stranda Sveifgras (*P. Maritima*). Topprinn greinóttr, lítið samanhnepptr. Smáaxinin með 5 blómstrum. Krónurnar ógglöggt 5sinóttar.

Rótin skríðandi. Stráin uppstígandi, vaxa fá af einni rót, slètt, sívöl, blöðótt. Blöðin laung, slètt, hvöss, með innáviðbeygðri rönd, slíðrandi, grá. Greinirnar á blómstrtoppinum útbreiddar eðr opnar um blómstrtímann, en sjaldan beygðar á bak aptr, síðan standa þær beint upp. Smáaxinin strikmynduð, slètt, með 5 blómstrum, rauðleit. Bikar-

blöðkurnar misstórar, eggmyndaðar, hvassar, hriggjaðar; sú yzta 3einótt. Krónurnar strjálar, nærri sívalar, snubbóttar.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* góð fóðr-urt.

12. Víngull (*Festuca*).

a. Sauða Víngull (*F. ovina*). Topprinn fsíðu samanhnepptr. Krónubelgirnir sívalir, við neðri endann sléttir. Stráið 4strendt. Blöðin burstalík, snörp.

Rótin með mjóam svörtum aungum. Stráið uppreist, á fjöllum niðrliggjandi, fínt, stutt, óskipt, við neðri endann 4strendt, neðan slètt. Rótarblöðin þètt, fín, strend, hvöss, gráleit. Slíðrin röndótt, slètt; slíðrhimnan mikið stutt. Topprinn og greinirnar lítið bugðóttar, snarpar. Smáaxinin 3 til 4 blómstruð, uppreist, slètt, lensulík. Bikarblöðkurnar mjóar, hvassar, strendar, hryggjóttar, misstórar. Krónublöðkurnar samanþrykktar, við neðri endann slèttar, í broddinn snarpar; sú yzta hefir strí.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Góð fóðr-urt, einkum fyrir sauðfè.

b. Rauður Víngull (*F. rubra*). Topprinn einnarsíðu. Krónurnar sívalar með strii. Blöðin á yfirborðinu dúnhærð.

Rótin aungótt, í sandjörð skríðandi. Stráin niðrliggjandi, við neðri endann samanþrykkt. Blöðin strikmynduð, innáviðbeygð á röndunum, hvarfyrir þau sýnast burstalík, hvöss, stíngandi. Rótarblöðin

mjórri enn þau fáu er sitja á stráinu. Slíðrin djúprennótt á stráinu, laung, við rótina styttri, víðari, fínhærðari. Slíðrhimnan slètt. Topprinn hefir strendta, snarpa, opna leggi. Smáaxinin eggmynduð, lensulík, rauðleit. Bikarblöðkurnar lensulíkar, hvassar, misstórar, með 5 til 6 blómstrum, á röndum og hryggnum hærðar. Krónuþlöðkurnar lensulíkar, samanþrykktar með stuttu strfi.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* sem undangángandi.

c. hái Víngull (*F. elatior*). Topprinn útbreiddr, greinóttr, linr. Smáaxinin eggmynduð, lensulík, hvöss. Krónurnar sívalar, smásinóttar.

Rótin með laungum aungum, þá hún er í vatni skríðandi. Stráin uppreist, slètt, röndótt, blöðótt. Blöðin breið, opin, á röndum innáviðbeygð, snörp, sinótt. Topprinn stór. Greinirnar tvísamfestar, þær efstu einfaldar með mörgum blómstrum. Bikarblöðkurnar misstórar, hryggjóttar, sléttar, sú eina 3sinótt, 6 til 8 krónur á hvörjum bikar.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Urtin er góð og mjög vel smakkandi, fyrir allan pening, utan sauðfè.

d. Stinnblaðaðr Víngull (*F. duriuscula*) Topprinn 1síðu, útbreiddr. Blómstrin með strái. Stráið sívalt. Stráblöðin flöt.

Rótin hefir lánga, lítið hærða ánga. Af henni vaxa fá, uppstígandi, við rótina slètt, röndótt strá. Rótarblöðin burstalík. Stráblöðin mjó, strikmynduð,

laung. Topprinn þètt saman, stærri enn á Sauðavínglinum. Smáaxinin flöt. Blómstrin eptir blómstruninni útspennt. Bikarblöðkurnar með 6 blómstrum, snarpar; yzta blaðkan stærst. Krónublöðkurnar snarpar á hryggnum, með stuttu stríi á broddinum.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:*

Afbragðsgóð fóðr-urt, einkum fyrir sauðfè.

e. **Manna Víngull** (*F. fluitans*). Topprinn greinóttr, útspenntr. Smáaxinin aðþrykkt, sívöl, með mörgum blómstrum. Krónurnar snubbóttar, 7sinóttar, við neðri endann 2 sinóttar.

Rótin með laungum aungum skríðandi. Stráin skáhöll, uppstígandi, við neðri endann rótum skjótandi, sívöl, röndótt, greinótt, slètt, blöðótt. Blöðin uppreist, jöfn á neðra, snörp á efra yfirborðið, flöt, röndótt, lángslíðrandi, þau neðstu sveimandi. Slíðrið samanþrykkt, slètt. Slíðrhimnan stutt, aflaung. Topprinn lángr. Greinirnar missettar; fyrir blómstruninna útstandandi. Smágreinirnar ogso missettar, þrykktar upp að greinunum, sitjandi, snubbóttar, strikmyndaðar. Bikarblöðkurnar misstórar, hvítar, himnulíkar, með grænum hrygg, snubbóttar; sú yzta blaðka randskorin.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Þessi urt er allra grasa ágætasta fóðr fyrir allslags peníng. Þaraðauki er fræ hennar einhvör hin dýrmætasta grjónategund, er kallast mannagrjón;

en þar lítið vex af urt þessari á voru landi, mun nytsemi hennar ogsvo lítil.

f. Toppmyndaðr Víngull *(F. vivipara)*. Topprinn 1síðu, samanhnepptr. Krónubelggirnir samanhnepptir, hryggjaðir, fyrir utan strí, dúnhærðir einsog bikarinn. Stráið 4strendt. Blöðin burstalík, jöfn.

Urt þessi líkist mjög Sauðavínglinum, en þekkist frá hönum af bognum, óstinnum, vessameiri, slèttum, ljósgrænum blöðum, sem og af styttri og fágreinóttari toppi, breiðari bikarblöðkum, og þèttari loðnari krónubelgjum, af hvörjum þeir yztu verða að blöðum; þær innri blöðkur eru á röndum dúnhærðar.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* bezta fóðr-urt.

## 13. Hegri *(Bromus)*.

a. Kambmyndaðr Hegri *(B. cristatus)*. Smáaxinin beggja hliða þökt, sitjandi, niðráviðþrykkt.

Rótin með hvítum aungum. Stráið uppreist við rótina, lítið hnjábogið, sívalt með rauðu hnè. Blöðin lángslíðrandi, hvöss, innklipin við slíðrið, hvaraf þau sýnast að vera eyrumlík. Slíðrhimnan stutt, afkubbuð. Axinið flatt, lensulíkt. Smáaxinin snúin til tveggja mótsettra hliða, og sitja þètt saman. Bikarblöðkurnar mjóar, stuttar, ljósgrænar, með fínu strí, einslángar. Krónublöðkurnar jafn stórar; sú ytri keist, með stríi, sú innri himnulík.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

### 14. Reir (*Arundo*).

a. **Fjalla Reir** (*A. epigeios*). Bikararnir með 1 blómstri, lengri enn krónan. Topprinn uppreistr. Krónurnar þaktar, þètt saman 1síðu. Blöðin lensulík.

Rótin skríðandi, laung. Stráið uppreist, við neðri endann opt greinótt, blöðótt, sívalt, slètt, undir toppinum snarpt. Blöðin breið, sinótt, á röndum snörp, á neðra borð blágræn. Slíðrið röndótt. Slíðrhimnan laung, leppótt. Topprinn útbreiddr, snarpr, dökkrauðleitr. Bikarblöðkurnar mikið stærri enn krónan. Krónan hvítleit á hryggnum með stuttu strìi, sem þó stundum vantar; ytri krónublaðkan trosnuð í efri endann. Ullin á ávaxtarbotninum lengri enn blöðkurnar.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

b. **Þakreir** (*A. phragmites*). Bikararnir með 5blómstrum. Topprinn linr.

Rótin skríðandi, aungótt, þètt. Stráin uppreist, rètt, óskipt, sívöl, jöfn, blöðótt, neðan liðótt, lítið hnèbogin, innanvert hvít. Blöðin lensulík, hvesst, röndótt, stinn, snörp á röndum. Slíðrið röndótt, slètt. Slíðrhimnan stutt, hærð. Topprinn útbreiddr, þèttr, smágreinóttr. Smáaxinin uppreist. Bikarblöðkurnar misstórar, lensulíkar, hvesstar slètthryggjaðar. Við neðri enda krónanna sitr á ávaxtarbotninum hneppi af glansandi ullu, sem hángir við fræið. Innri blaðkan mikið minni, rauðhærð.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

*Nytsemi og verkun:*

I dýrtíð hefir rót urtarinnar brúkuð verið til brauðgjörðar.

c. Sandreir (*A. arenaria*). Bikararnir með 1 blómstri, lengri enn krónan. Topprínu axmyndaðr. Krónurnar uppreistar án striis. Blöðin á röndum innundin, í broddinn stíngandi.

Rótin laung, útbreidd, liðótt, skríðandi. Stráið uppstígandi, með fínum röndum, stinnt, sívalt slètt, blöðótt, liðótt. Blöðin stinn, slètt, næstum sívöl, bláleit, einkum á efra borðinu, hvar þau og eru með djúpum röndum; þau efstu eru hærri enn stráið. Slíðrið slètt, sinótt. Slíðrhymnan laung, 3skipt, hvöss. Toppgreinarnar stuttar, aðþrykktar. Blómstrin gráleit. Bikarblöðkurnar nær því jafnstórar, hryggjaðar, samanþrykktar, hvassar; sú innri 3sinótt. Krónublöðkurnar eins stórar, sú eina utanum hina. Fræullin stutt.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

15. Melgras (*Elymus*).

a. Sandmelgras (*E. arenarius*). Axið uppreist, þètt. Bikararnir lensulíkir, jafnlángir smáaxininum. Blöðin með stíngandi broddi.

Rótin skríðandi, mikið útbreidd. Stráið þykkt, uppreist, sívalt, blöðótt við rótina, slètt, liðótt. Blöðin stinn, strikmynduð, næstum eins laung og stráið, með stinnum broddi, innundin á röndum og þrí-rennótt á yfirborðið, ljósblágrá, hvítröndótt á

yfirborðið, sinótt á undirborðið og slètt. Slíðrið röndótt, slètt. Slíðrhymnan stutt, hríngnöbbótt, dökkleit. Axið kvartilslángt, samanstendr af þèttum, bláleitum, samanþryktum smáaxinum, sem sitja í pörum saman. Axleggrinn hefir hærðar strendr. Bikarblöðkurnar næstum jafnlángar, einsog krónublöðkurnar, dúnhærðar, sú innri randskorin, fínhærð á röndum. Fræið aflángt, strikmyndað.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

*Nytsèmi og verkun:*

Fræ þessarar urtar brúkast almennt í Skaptafells sýslu til brauðgerðar. Af róta tægjunum tilbúast línur og þófar. Blöðin eru hit kröptugasta fóðr. Staunglarnir brúkast ogsvo, þá fræið er aftekið, til að þekja hús með.

### 16. Hveiti (*Triticum*).

a. **Villihveiti** (*T. repens*). Bikararnir alilíkir, margsinóttir með 5 blómstrum. Krónurnar framyddar, blöðin flöt; ísl. **Húsapuntr.**

Rótin skríðandi, liðótt; þeir fínu ángar dúnhærðir. Stráið uppreist, blöðótt, sívalt, röndótt, slètt. Blöðin opin, hvöss, frammjó, snúa meir til einnar síðu. Röndin og eins yfirborðið snörp. Slíðrið slètt, röndótt. Slíðrhymnan stutt. Axinið fjærstandandi, missett, hvört til sinnar síðu. Axleggrinn bugðóttr. Bikarblöðkurnar innibyrgja 3 til 8 krónur; sú ytri krónublaðka rauðhærð.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágûst.

*Nytsemi og verkun;*

Rót þessarar urtar er eitthvört hit ágætasta uppleysandi og þvagdrífandi meðal. Hún er því góð í landfarsóttum, lifrarveiki, gulu, vatnsýki, þvagstemmu, og harðlífi. Seyði af rótinni drekkist, svo tebollum skipti, 4sinnum dagliga. Saft tilbúin af rótinni takist 1 teskeið full 3svar dagliga. Hèraðauki er urtin sjálf allgott peningsfóðr. Svo og hefir rót urtarinnar möluð verið brúkuð í hállærum í mjölsstað.

b. **Hundahveiti** (*T. Caninum*). Bikararnir uppyddir, 5sinóttir með 4 blómstrum. Krónurnar með stríum. Blöðin flöt.

Rótin aungótt, ekki skríðandi; af henni spretta mörg uppreist, stinn, blöðótt, sívöl, slètt strá. Blöðin opin, mjó, hvöss, græn, snörp, sinótt. Slíðrið slètt. Axinið lútandi í broddinn. Bikarblöðkurnar jafnstórar með stuttu stríi, lensulíkar. Krónurnar með strii. Striið 2faldt lengra enn blöðkurnar.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* sæmilig fóðr-urt.

## 17. Hestaurt (*Holcus*).

a. **Velluktandi Hesta-urt** (*H. odoratus*). Bikarbelgirnir 3blómstraðir, strílausir, hvassir, 2kynjaðir. Krónubelgrinn tvímannaðr; ísl. **Reisgresi**.

Rótin aungótt, skríðandi. Stráið uppreist, fáblöðótt, slètt. Blöðin nærri jafnlaung stráinu, slètt. Blómstrin áviðsívöl, flöt. Bikarblöðkurnar

búkmyndaðar, innilykja opt 3 krónubelgi, hvörra sá í miðið er, er kvenn-eðr tvíkyns, hinir kallkyns.

*Nytsemi og verkun:*

Þessi grastegunð er hjartastyrkjandi, blóðhreinsandi, og þvagdrífandi. Hún er því góð fyrir vatnssjúka, og aðra er hafa vessafullan líkama. Seyði af urtinni drekkist, svo tebollum skipti, 3svar dagliga.

## 3ja Orða (*Trigynia*) þríkvæntar.

### 18. Montia (*Montia*).

Lækjamontia (*M. fontana*). Blöðin aflaung, eggmynduð, kjötlig. Blómstrstaungullinn með 1 blómstri. Avaxtarleggrinn niðrávið beygðr.

Rótin með fínum og laungum aungum. Staungullinn framávið liggjandi, með 2skiptum greinum, neðst rótum skjótandi, sívalr, stuttr, blöðóttr, rauðleitr. Blöðin mótsett, sitjandi. Krónurnar hvítar, sjaldan útbreiddar. Avöxtrinn uppreistr. Fræin eyrumlík. Urtin öll kjötlig, slètt.

Eins árs urt, blómstrar í júlí, ágúst og september.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi getr brúkast sem portulakk.

### 19. Königsurt (*Köenigia*).

Islenzk königsurt (*K. islandica*). Blöðin umsnúin, eggmynduð. Axlablöðin hymnulík, umfaðmandi; ísl. Nablagras.

Rótin aungótt. Staunglarnir tvískiptir, áviðflatir, liðóttir, slèttir, rauðleitir. Blöðin þykk, snubbótt, slètt, heil á röndum, næstum sitjandi.

Rótar blöðin mótsett. Staungulblöðin missett, efst þar sem staunglarnir skipta sèr kransmynduð, hvar og axlablöðin sitja. Blómstrin smá, mörg saman í efri enda greinanna. Bikarinn einblaðaðr, 3 skiptr. Smálepparnir eggmyndaðir, lensulíkir. Fræin nakin, sitja á botni bikarsins. Örin 3, stundum líka 2. Eins árs urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

---

## 4. Hópr.

### *(Tetrandria)* fjórmannaðar.

### 1sta Orða *(Monogynia)* einkvæntar.

1. Hrúðr-urt *(Scabiosa)*. Sameginligi bikarinn með mörgum blöðum; sjálfr bikarinn fyrir ofan sitjandi 2-faldr. Ávaxtarbotninn ávalr.

2. Blóðdrekkr *(Sangvisorba)*. Bikarinn undirsitjandi, ber eina yfirsitjandi krónu.

3. Maðra *(Galium)*. Krónan flöt. Avöxtrinn kúlumyndaðr, þurr.

4. Götubrá *(Plantago)*. Krónan sem brotin á bak aptr. Fræhúsið tvírúmað, opnar sig þversum.

5. Maríulumma *(Alchemilla)*. Bikarinn áttklofinn. Fræið nakið.

6. Kornelviðr (*Cornus*). Bikarinn 4tenntr, viðvarandi, yfirsitjandi. Steinávöxtrinn 2rúmaðr.

2. Orða (*Tetragynia*) fjórkvæntar.

7. Vatnsax (*Potamogeton*). 4 krónublöð. Enginn bikar. 4 nakin fræ.

8. Sagina (*Sagina*). 4 krónublöð. Fræhúsið einrúmað.

9. Tillie (*Tillæa*). 3 til 5 krónublöð. Mörg fræhús.

4. Hópr (*Tetrandria*) fjórmannaðar.

1sta Orða (*Monogynia*) einkvæntar.

1. Hrúðrurt (*Scabiosa*).

a. Afbitin Hrúðrurt (*S. succisa*). Krónurnar jafnt 4-klofnar. Staungulblöðin tennt. Blómstrhöfuðin kúlumynduð; ísl. Púkabit, Stúfa.

Rótin afbitin með hliðaraungum dökkleit. Staungullinn upprèttr, sívalr, neðantil slèttr, óskiptr, ofantil dúnhærðr, greinóttr. Greinarnar lángar með einu blómstri. Rótarblöðin eggmynduð, stuttleggjuð, heil á röndum, snubbótt. Staungulblöðin mótsett, umfaðmandi, fátennt, stundum heil á röndum, fínhærð, hvöss; þau efstu strikmynduð, heil á röndum. Almenniligi bikarinn hefir mjó eggmynduð blöð. Krónurnar bláleitar sýnast til samans kúlumyndaðar. Dupt-þræðirnir

mikið lengri enn krónurnar. Fræið aflángt, rennótt, hært í broddinn, krýnt 5 dökkleitum burstum.

Margra ára urt; blómstrar í ágúst og septbr.

*Nytsemi og verkun:*

Blöð þessarar urtar soðin með álúni gefa grænan lit, en með þeim soðnum samanvið járn viktríl má svart lita.

## 2. Blóðdrekkr (*Sangvisorba*).

### a. Almennr Blóðdrekkr (*S. officinalis*).

Með eggmynduðu axi.

Rótin skáhöll. Stauugullinn upprèttr, við rótina uppstígandi, blöðóttr, í broddinn sívalr, slèttr, röndóttr. Greinarnar missettar. Blöðin með ójöfnum uggum lángleggjuð. Smáblöðin eggmynduð, hjartalík með svörtum nöbbum, stuttleggjuð; þau neðstu minni. Blómstrin í þèttu axini á enda greinanna, dökkrauð; efstu blómstrin opna sig fyrst. Bikarblöðkurnar lensulíkar. Krónan útvortis við neðri endann hærð, með eggmynduðum leppum.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi hefir barkandi og styrkjandi krapt. Dupt af rótinni inntekið 1 teskeið í senn, 3svar dagliga, stillir lífsýki og blóðgáng. Það stráð í skurði stillir blóðrás. Seyði af rótinni inntekið 2 matspænir í senn, 6sinnum dagliga, gjörir sömu verkun.

Með rótinni má og skinn barka.

Urtin er hèraðauki bezta peníngsfóðr.

### 3. Maðra *(Galium)*.

a. **Gula Maðra** *(G. verum)*. Blöðin 8 sett, strikmynduð, rennótt, heil á röndum, snörp. Blómstrin í þèttum toppi; ísl. Gulmaðra.

Rótin aungótt, uppreist, greinótt, skríðandi, gul; upp af henni vaxa margir staunglar, sem eru við rótina liggjandi, síðan uppreistir, 4strendir, liðóttir millum strendanna, sívalir, flatir. Blöðin strikmynduð, lensulík, lítið á bak aptr beygð, á yfirborðið snörp. Topprinn greinóttr. Greinarnar samanhnepptar. Krónurnar gular. Dupthnapparnir sem mist hafa blómstrin dökkvir. Avöxtrinn slèttr.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Þessi urt er svitadrífandi. Niðrfallssýki, og aðrar sinateygjur læknandi; hún er og barkandi og samandragandi. Te af blómstrum urtarinnar er gott svitadrífandi meðal, það sè heitt drukkið að kvöldi dags, lítil spilkoma í senn. Sama er ogsvo gott móti niðrfallssýki og öðrum sinateygjum. Urtin smá-söxuð og soðin með nýu sauða smjöri, 2 lóð af urtinni móti 4 lóðum af smjörinu, er bezti áburðr á bilaðar og krepptar sinar. Dupt af urtarinnar blöðum og rót er ágætt meðal til að stemma með blóð úr sárum. Rót urtarinnar litar rautt, en einkum verðr litrinn falligr, sè það er lita skal áðr gult. Aðferðin er þessi: rótin tekin á vori eða hausti, malast eðr steytist til að dupti verðr, þarvið blandast síðan eins miklu af möluðu malti, og af því leggist fyrst eitt lag, annað lagið svo af ullu, eðr því er lita skal, svo aptr lag af rótar

blandinu, síðan ullarlag og s. frv.; á þetta sè hellt ánægjanligu af vatni, og litrinn sjóðist til þess að vel þykir tekið. Með blómstrum urtarinnar má gult lita, sè það, er lita skal, áðr soðið í álúns vatni.

b. **Hvíta Maðra** *(G. boreale)*. Blöðin lensulík, 3einótt, slètt. Staungullinn upprèttr; ísl. krossmaðra.

Rótin greinótt, skríðandi, dökkleit. Staungullinn rèttr, næstum óskiptr, snarpr, 4 strendr. Blöðin snubbótt, misstór, heil á röndum, á röndinni lítið á bak aptr beygð, snörp. Blöðin við blómstrin tvímótsett, eggmynduð. Topprinn 3-skiptr, greinóttr. Blómstrin hvít. Avöxtrinn með stuttum, stinnum, hvítum hárum.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:* sama sem undangángandi.

c. **Litla Maðra** *(G. palustre)*. Blöðin 4 sett, umsnúið eggmynduð, misstór, snubbótt. Staunglarnir útbreiddir, í efri endann greinóttir.

Rótin aungótt, lítið skríðandi. Staunglarnir framáviðliggjandi, marggreinóttir, 4strendir, snarpir. Blöðin snörp á röndum, eru stundum 5 í neðsta kransinum. Á enda greinanna sitja 3 skýlumyndaðir staunglar, sem hvör fyrir sig bera 3 lítil hvít blómstur. Duptþræðirnir gulir. Stundum hefir urtin 3 klofnar, 3 mannaðar, eðr 5 klofnar, 5 mannaðar krónur.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

### 3. Götubrá (*Plantago*).

a. **Slètta Götubrá** (*P. major*). Blöðin egg-mynduð, slètt, styttri enn staunglarnir. Skaptið sívalt. Axið þètt, þakt. Mörg fræ; ísl. Græðisúra.

Rótin þykk með mörgum aungum. Blöðin heil á röndum, stundum þó lítið tennt, slètt, 7 til 9-sinótt, við rótina þètt saman, og niðr á jörðu liggjandi. Skaptið sívalt, fínhært. Axinið lángt, sívalt. Dupthnapparnir purpurarauðir. Dupthyrzlurnar hærðar.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er styrkjandi og samandragandi, hún brúkast því móti lífsýki, köldu, máttleysi. Seyði af blöðunum takist 2 matspænir fullir hvörn tíma. Af dupti rótarinnar takist 1 teskeið hvörn 3ja tíma. Blöð af urtinni ný græða og þerra vel sár. Í sama máta er gott að strá dupti af rótinni á gömul og illaluktandi sár. Sagt er og að lögr blaðanna drepi orma og lækni kvefþýngsli.

Af dupti urtarinnar má tilbúa græðisalvi þannig: tak nýa tólg, 2 lóð, ósaltað vel hnoðað sauðasmjör, 3 lóð, og hráa tjöru, 1 lóð; þetta bræðist saman við hægan eld, og þarí látist smátt og smátt af dupti rótarinnar, og blandist vandliga saman; verði ofþykkt má bæta í meiru smjöri.

b. **Lensublöðuð Götubrá** (*P. lanceolata*). Blöðin lensulík, odd-dregin í báða enda. Axið eggmyndað. Skaptið strendt; ísl. Selgresi, Fuglatúngur.

Rótin djúpt í jörðu, með aungum á hliðunum. Skaptið uppreist, strendt, slètt. Blöðin rètt, laung, 3-4sinótt, lítið hærð, samanhlaupandi í einn staungul, hvöss, dökkgræn. Axið eggmyndað, stutt, dökkleitt. Krónan myrkleit, hymnótt. Fræhúsið 2rúmað, hefir 2 fræ.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi hefir styrkjandi, græðandi, barkandi, mýkjandi, ormdrepandi krapt. Hún er því góð móti matar ólyst, lífsýki, blóðsótt, kvefi og ormum. Seyði af rótinni takist 2 matspænir í senn, hvörn 2an klukkutíma. Te af blöðunum drekkist 1 tebolli í senn, 4sinnum dagliga. Aðr gras þetta blómstrar, er það eitt hið hollasta kálmeti til fæðis.

c. **Stranda Götubrá** *(P. maritima)*. Blöðin strikmynduð, næstum heil á röndum, röndótt, við neðri enda ulluð. Axið sívalt. Skaptið ogsvo sívalt; ísl. **Kattartúnga**.

Rótin með þykkum aungum, stundum-hreistruð. Af henni vaxa mörg fínhærð, neðan lítið bogin, sköpt. Blöðin kjötlig, á neðri síðuna ávöl, á hina efri íbjúg, opt heil á röndum, stundum líka lítið tennt. Bikarinn hærðr við neðri endann. Krónublöðin ílengri enn bikarsins, íbjúg.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

*Nytsemi og verkun:* líkist þeirri undangángandi.

d. **Leppblöðótt Götubrá** *(P. coronopus)*. Blöðin strikmynduð, uggótt, tönnótt. Skaptið sívalt.

Rótin aungótt með 1 eðr og fleirum liggjandi eðr og uppstígandi hærðum sköptum. Blöðin liggja þètt saman í stjörnumynð, niðr við jörðu hálfugguð, hærð, stundum einúngis tennt. Axinið stutt með hærri blómstrum enn á undangángandi. Blómstrblöðin hafa brodd á efri endanum.

Eins árs urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

5. Maríulumma (*Alchemilla*).

a. Almenn Maríulumma (*A. vulgaris*). Blöðin flipótt, ríótt, nöbbótt; ísl. Maríustakkr.

Rótin þykk, greinótt, með laungum aungum á hliðunum. Leggrinn útbreiddr eðr uppstígandi greinóttr, blöðóttr, hærðr. Blöðin nærstum krínglótt, hríngflipótt með 5 stærri og 2 minni flipum, nöbbótt, fínhærð. Staungulblöðin minni, missett, stuttleggjuð. Axblöðin innskorin, stór. Blómstrin þètt saman, gulleit. Bikarinn stundum 8, stundum 9 skiptr, annarhvör leppr stærri. Dupthnapparnir gulir.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er styrkjandi og barkandi. Hún er því góð móti allslags blóðlátum, lífsýki og blóðsótt. Te af blöðunum drekkist, svo tebollum skipti, 4-sinnum dagliga. Blöðin smá-skorin og soðin með smjöri eru hið bezta sinasmyrsli: takist 2 lóð af urtinni móti 4 lóðum af smjörinu. Blöð urtarinnar seydd í vatni og skinn þar í lögð barka vel.

b. **Fjalla maríulumma** (*A. alpina*). Blöðin fíngrótt, nöbbótt, á neðra yfirborð silkihærð; ísl. **Ljónsfótr, Ljónsklé, Ljónslappi, Kverkagras.**

Rótin þykk, laung, með mörgum aungum. Staungullinn greinóttr, þykkr, stundum upprèttr eðr uppstígandi. Blöðin lángleggjuð, djúpt 5skipt. Fliparnir á broddinum nöbbóttir, á efri síðu dökkgrænir, á neðri hlið fagr-silfrglansandi. Blómstrleggirnir hvítgljáandi. Blómstrin minni og hvítari enn á undangángandi.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er barkandi, styrkjandi og græðandi. Hún er því góð móti lífsýki, blóðsótt og blóðlátum; hún græðir sár og skurði. Dupt af blöðunum, 1 teskeið 3svar dagliga inntekið, læknar lífsýki og blóðsótt á börnum. Seyði af urtinni drekkist hálfr tebolli í senn, 4sinnum dagliga. Seyði þetta volgt er gott að skola hálsinn með móti kverkameinum.

6. **Kornelviðr** (*Cornus*).

a. **Hænsa kornelviðr** (*C. Svecica*). Staungullinn 2skiptr. Skýlan leggjuð. Blöðin sinótt.

Rótin greinótt, aungótt, trèlík; af henni spretta 2 við neðri endann mjög nánir staunglar, upprèttir, slèttir, 4 strendir, blöðóttir, efst greinóttir, þó stundum einstakir. Blöðin mótsett, breið, eggmynduð, sitjandi, hvöss, heil á röndum, slètt, glöggt

5sinótt. Millum greinanna framkemr fínhærðr staungull, sem ber margblómstraða einfalda skýlu.

Reifarnar eru 4 hvít blöð, 2faldt stærri enn skýlan, þau eru breið og snubbótt. Blómstrin smá, 10 eður fleiri saman. Krónurnar svartrauðar. Bikarinn 4skiptr, affallandi. Avöxtrinn er eginliga margir stein ávextir mjög návaxnir saman, er líkjast rauðum berjum, er hafa sætan smekk.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

A Færeyum eta menn berin, og munu þau ei að öllu holl, þar hjá nokkrum verka þau uppsölu.

## 2ur Orða (*Tetragynia*) fjórkvæntar.

### 7. Vatnsax (*Potamogeton*).

a. Fljótandi Vatnsax (*P. natans*). Þau efstu blöð aflángt eggmynduð, með staunglum sveimandi.

Rótin með laungum aungum. Staunglarnir bæði niðrsokknir og fljótandi, sívalir, slèttir, greinóttir, blöðóttir, eptir því lángir sem djúpt er vatnið sem þeir vaxa í. Þau neðstu niðrsokknu blöð strikmynduð, þau efstu missett, sinótt, heil á röndum, glansandi, slètt, flöt, lángleggjuð. Blaðleggirnir flatir á efri, og ávalir á neðri síðu. Milli blaðanna og staunglanna eru strikmynduð hvöss axblöð, mislaung eðr ístyttri enn blaðstaungullinn. Axleggirnir einfaldir, sívalir, þykkir, slèttir. Axið eins

og á flestum þesskyns urtum fyrir ofan vatnið. Blómstrin dökkgræn. Fræin krókótt.

Margra ára urt; blomstrar í júní og júlí.

b. **Glansandi Vatnsax** (*P. lucens*). Blöðin eggmynduð, lensulík, niðrhlaupandi á blaðstaungulinn. Axinið með mörgum blómstrum samanhneppt.

Staunglarnir niðrsokknir, sívalir. Blöðin heil á röndum, bylgjótt, missett, með æðum, eru gagnsær, glansandi, þau efstu nær því mótsett, sitjandi. Axblöðin stór, lensulík, umfaðmandi, hymnulík. Axið uppreist, dökkgrænt.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

c. **Sjáfar Vatnsax** (*P. marinum*). Blöðin hárilík. Blaðstaungullinn lángr, niðrsokkinn, áviðsívalr, greinóttr. Blöðin laung, burstalík, hærð, missett, fjærstandandi.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

d. **Hrukkótt Vatnsax** (*P. crispum*). Blöðin lensulík, missett, bylgjótt, nöbbótt.

Staungullinn slèttr, strendr, blöðóttr, strikaðr, efst fljótandi. Blöðin glansandi, gagnsær, hálfumfaðmandi, snubbótt, með þykkri sin á miðjunni; opt með skorpu. Axið með fáum blómstrum. Blómstrin 4 til 8, rauðleit, strjál. Fræin flöt, hafa 1 tönn við neðri endann.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

e. **Hjartmyndað Vatnsax** (*P. perfoliatum*). Blöðin hjartalík, umfaðmandi, öll í vatni.

Staunglarnir niðrsokknir, lángir, sívalir, strikaðir, slèttir, missett greinóttir, þèttblöðóttir. Blöðin

missett, glansandi, gagnsær, þèttsitjandi, meyr, sinótt. Axið uppreist, stutt, dökkt, sitr á greinum sem eru lengri enn blöðin, og þykkvari enn staungulliun, sitja á blaðhornunum. Krónublöðin strjál, innávið beygð; hefir alleina axblöð á efri enda staungulsins.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

f. Litla Vatnsax *(P. pusillum)*. Blöðin strikmynduð, mótsett og missett, mjórri enn axlablöðin, opin við neðri enda. Staungullinn sívalr. Axleggirnir í blaðhornunum.

Staungullinn niðrsokkinn með fínum rendum, missettr, greinóttr. Blöðin mjó, lensulík, missett, bylgjótt, nöbbótt; þau sem undir axinu sitia eru mótsett axlablaðinu, umfaðmandi, ljósleit, mikið breiðari enn hin önnur blöðin. Axleggirnir lengri enn axið, sem er eggmyndað með fáum blómstrum, þètt.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

g. Flatleggjað Vatnsax *(P. compressum)*. Blöðin strikmynduð, snubbótt. Staungullinn áviðflatr. Axinin með fáum blómstrum:

Staungullinn niðrsokkinn, bugðóttr, eins breiðr og blöðin, sem eru missett, snubbótt, heil á röndum, mjó, slètt, hálfumfaðmandi, lengri enn axblöðin, sem eru breiðari, snubbótt, stundum klofin. Axleggirnir eru fyrir ofan vatnið, áviðflatir, styttri enn blöðin, og hafa þá 2sett blómstur.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

k. **Kambsett Vatnsax** (*P. pectinatum*). Blöðin jafnsíða, nálæg, 2ggja hliða, við neðri endann slíðrandi.

Rótin skríðandi, við neðri endann hnöllótt. Staungullinn niðrsokkinn, sívalr, missettr, þèttgreinóttr. Blöðin laung, snúa til 2ggja hliða, burstalík. Axblöðin hymnulík, klofin, samgróin við blöðin. Axleggirnir mislángir. Blómstrin sitja í skurðóttu axini, mörg saman, þau neðstu strjál.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

### 8. Sagína (*Sagina*).

a. **Frammáviðliggjandi Sagína** (*S. procumbens*). Staungullinn framáviðliggjandi, slèttr. Krónublöðin stutt.

Rótin aungótt, af henni vaxa margir rótumskjótandi, fínir, greinóttir, liðóttir, sívalir, slèttir, blöðóttir staunglar. Blöðin samvaxin mótsett, alilík, strikmynduð, slètt, við rótina þètt. Blómstrstaunglarnir einstakir, í hornunum 2faldt lengri enn blaðið, með 1 blómstri. Bikarblöðin opin, snubbótt, 2faldt lengri enn krónublöðin. Krónublöðin eru heil á röndum. Fræhúsið eggmyndað. Öll urtin ljósgræn.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

### 9. Tillie (*Tillæa*).

a. **Vatns-Tillie** (*T. aqvatica*). Staungullinn upprèttr, 2skiptr. Blöðin strikmynduð, hvöss. Blómstrið 4skipt, sitjandi.

Rótin með fínum aungum. Staungullinn sí-

valr, slèttr, með mörgum görðum, marggreinóttr. Blöðin mótsett, heil á röndum, alilík, strikmynduð, þykk. Blómstrin smá, sitjandi í blaðhornunum. Eins árs urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

---

## 5. Hópr.

*(Pentandria)* fimm-mannaðar.

1sta Orða, *(Monogynia)* einkvæntar.

1. Gleymdu mèr ei (*Myosotis*). Krónan flatkrögótt með lítið randskornum flipum. Ginið lukt með smáhvelum.

2. Lúngajurt *(Pulmonaria)*. Krónan trektmynduð. Ginið nakið. Bikarinn sívalr, 5hyrndr.

3. Höggormshöfuð *(Echium)*. Krónan óreglulig. Ginið nakið. Örið 2-skipt.

4. Kúreki *(Primula)*. Fræhúsið einrúmað með tíklofnum munna. Krónuginið opið. Pípan sívöl. Örið kúlumyndað.

5. Þríblað *(Menyanthes)*. Fræhúsið einrúmað. Krónan loðin. Örið klofið.

6. Sauðamergr *(Azalea)*. Fræhúsið

5rúmað. Krónan klukkumynduð. Örið snubbótt.

7. Klukka (*Campanula*). Fræhúsið 3 til 5-rúmað, við neðri endann með götum, sem gegnumborað. Krónan klukkumynduð. Örið 3klofið.

8. Sandlæðíngr (*Glaux*). Fræhúsið 5frævað fyrir ofan blómstrin. Bikarinn 1-blaðaðr, litaðr.

9. Fíóla (*Fiola*). Fræhúsið 1rúmað, 3blaðkað. Bikarinn 5blaðaðr með spora. Krónan óreglulig.

2ur Orða, (*Digynia*) tvíkvæntar.

10. Entíana (*Gentiana*). Fræhúsið 1-rúmað. Krónan við neðri endann pípumynduð, fyrir utan hunángsholur.

11. Vatnsnabli (*Hydrocotyle*). Skýlan einföld. Fræin samanþrykkt.

12. Spekíngsjurt (*Ligusticum*). Krónurnar iafnvaxnar, ávaxtarsamar, með innundnum krónublöðum. Reifarnar hymnulíkar. Bikarinn 5tenntr.

13. Hvönn (*Angelica*). Krónurnar

jafnvaxnar, frjóvar, með innáviðbeygðum krónublöðum. Smáskýlurnar kúlumyndaðar. Fræin hálfkúlumynduð með 3 vængjum.

14. Kúmen (*Carum*). Krónurnar jafnvaxnar, nokkrar ófrjóvar. Fræin hnúskótt, rennótt.

15. Meistarajurt (*Imperatoria*). Krónurnar jafnvaxnar, frjófsamar. Skýlan útbreidd, flöt. Ávöxtrinn samanþrykktr, röndóttr.

16. Skollakál (*Ægopodium*). Krónurnar jafnvaxnar, frjófsamar. Ávöxtrinn eggmyndaðr, rennóttr. Örin hvöss.

17. Mjölurt (*Atriplex*) hefir undirsitjandi 2kynja og kvennblomstur, og eitt niðrþrykkt fræ.

3ja Orða, (*Trigynia*) þríkvæntar.

18. Arfi (*Alsine*). Bikarinn 5blöðóttr. Krónan ogsvo 5blöðótt. 3 til 10 duptberar. Fræhúsið 1rúmað, 3blöðkótt.

4ða Orða, (*Tetragynia*) fjórkvæntar.

19. Lifrarurt (*Parnassia*). Bikarinn 5skiptr. Krónan 5blöðótt. Hunángs hyrzl-

urnar á rönðunum settar kúluberandi burstum.

5ta Orða, (*Pentagynia*) fimmkvæntar.

20. Geldíngahnappr (*Statice*). Krónan 5blöðótt. Eitt fræ, sem er íklædt trektmynduðum bikar.

21. Hör (*Linum*). Krónan 5blöðótt. Fræhúsið 10rúmað.

22. Sibbaldsurt (*Sibbaldia*). Krónan 5blöðótt. Bikarinn 10klofinn, 5 nakin fræ.

6ta Orða, (*Hexagynia*) sexkvæntar.

23. Sóldögg (*Drosera*). Krónan 5blöðótt. Fræhúsið 3blaðkað, með mörgum fræum.

**5. Hópr (*Pentandria*) fimm-mannaðar.**

**1sta Orða (*Monogynia*) einkvæntar.**

**1. Gleymdu mèr ei (*Myosotis*).**

**a. Engja gleymdu mèr ei (*M. scorpioides palustris*) með snubbóttum, slèttum bikarleppum, jafnlaungum krónupípunni, lensulíkum, næstum slèttum blöðum. Staungullinn lítið greinóttr; ísl. Kattarauga.**

**Rótin aungótt, lítið skríðandi; af henni vaxa margir uppreistir, strendir, stutthærðir í broddinn, missett-greinóttir staunglar, sem stundum eru liggjandi við neðri endann. Blöðin sitjandi, rauð-**

hærð með lítilli vörtu í efri enda yfirborðsins, fínhærð. Blómstrin eru í 2skiptum, í broddinn ábakaptr-beygðum klösum, sem um blómstrunartímann verða lángir, en eru áðr mjög stuttir. Bikarinn er opinn í kríngum fræin, þegar þau fullgjörast. Krónurnar heiðbláar. Ginið lokað með 5 gulum kyrtlum. 4 eggmynduð, slètt fræ.

Margra ára urt; blómstrar lengi á sumrum.

b. **Haga gleymdu mèr ei** (*M. sc. arvensis*) með hvestum, hærðum, stuttum bikarleppum, sem eru lengri enn krónaupípan, eggmynduðum, lensulíkum, stutthærðum blöðum. Staungullinn stutthærðr, greinóttr.

Urt þessi mismunar þarí frá þeirri undangángandi, að hún hefir 1 árs rót, og er minni að vexti, loðnari, minna flatþrykkt fræ, og að bikararnir eru tillokaðir utanum þau fullvöxnu fræ.

Margra ára urt; blómstrar fyrri sumars enn undang.

c. **Litla Haga gleymdu mèr ei** (*M. sc. collina*) mismunar frá enum fyrri við að hún er mjög lítil, með gulbláum mjög litlum blómstrum.

## 2. Lúngajurt (*Pulmonaria*).

a. **Stranda Lúngajurt** (*P. maritima*). Bikarinn stuttr. Blöðin eggmynduð, slètt. Staungullinn greinóttr, framáviðliggjandi; ísl. **Strandarfi**.

Rótin trèlík, næstum toppmynduð, dökkleit. Staungullinn framáviðliggjandi, greinóttr, sívalr

við rótina, strendr milli blaðanna. Blöðin þykk, heil á röndum, snubbótt, mjórri við neðri endann, hafa fagrgrábláan lit og smáar snarpar vörtur. Blómstrin eru í blöðóttum klösum í enda greinanna. Krónurnar, einsog staunglarnir, stundum ljóspurpurarauðar; bláar þegar eldast. Bikarinn slèttr, skiptr í 5 lensulíka parta.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er styrkjandi og nærandi; hún er því góð móti hjartveiki og brjóstveiki. Seyði eðr te af blöðum urtarinnar drekkist, svo tebollum skipti, 4 sinnum dagliga. Rætrnar soðnar í mjólk og stappaðar eru góð fæða.

### 3. Höggormshöfuð (*Echium*).

a. Almennt Höggormshöfuð (*E. vulgare*). Staungullinn vörtusettr, hvasshærðr. Staungulblöðin lensulík, hvasshærð. Hliðaraxinin beygð á bak aptr; ísl. Kisugras.

Rótin toppilík. Staungullinn upprèttr, rèttr, sívalr. Blöðin missett, með vörtum, hvasshærð, þau efstu sitjandi. Rótarblöðin leggjuð. Blöðin við blómstrin strikmynduð. Axinin niðráviðbeygð fyrir blómstrunartíman, en verða eptirá lengri og uppreist. Krónurnar bláar, stórar, áðrenn þær opnast rauðar. Duptberarnir lengri enn krónan, uppáviðbeygðir.

2ja ára úrt; blómstrar í júní og júlí.

### 4. Kúreki (*Primula*).

a. Mjölvaðr Kúreki (*P. farinosa*). Blöðin

hríngnöbbótt, slètt, á neðra borðið mjölvuð. Krónukraginn flatr.

Rótin með laungum aungum. Skaptið uppreist, sívalt, slètt. Blöðin umsnúin, eggmynduð, lensulík, mjöldreifð á neðri hlið, sem betr sèst meðan skaptið ekki er fullvaxið, styttri enn skaptið. Skýlan með mörgum blómstrum. Blómstrin uppreist. Krónurnar bleiklifrauðar á neðra borð. Lepparnir umsnúnir, hjartmyndaðir.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

### 5. Þríblað (*Menyanthes*).

a. **Almennt Þríblað** (*M. trifoliata*). Blöðin 3samfest. Krónunnar yfirborð mikið loðið; ísl. **Horblaðka**, **Kveisugras**, **Reiðíngagras**.

Rótin þykk, sívöl, liðótt, framáviðliggjandi, dökk. Staungullinn fáblaðaðr, við neðri endann liggjandi, greinóttr, sívalr, stuttr, uppreistr í broddinn. Blöðin lángleggjuð. Smáblöðin breidt eggmynduð, slètt, tennt, hríngbugðótt. Miðblaðið minnst. Blómstrblöðin eggmynduð. Blómstrin sitja í axmynduðum skúf í staungulendanum. Bikararnir eggmyndaðir, stuttir. Krónurnar hvítar, með 5 snubbóttum þykkum, á efra yfirborðið þèttfínhærðum, og á neðra yfirborðið rauðum leppum. Dupthyrzlan laung.

Margra ára urt; blómstrar í mají og júní.

*Nytsemi og verkun:*

Kraptr þessarar urtar er magastyrkjandi, svita og þvagleiðandi, vessa þerrandi, uppleysandi, for-

rotnun-mótstandandi, ormdrepandi. Hún er því einkar góð í skyrbjúgi, gulu, miltis og lifrarveiki, vatnssótt, iktsýki, og flestum meinum í lífinu. Blöð hennar brúkast í te, hvaraf maðr drekki fullan tebolla í senn, 3svar dagliga. Seyði af rótinni drekkist hálfr tebolli, 3svar dagliga. Seyði af jöfnum pörtum þessarar rótar og Heimulu er hið bezta magastyrkjandi og uppleysandi meðal, gott einkum í harðlífi, gulu, miltis- og lifrar-bólgu, samt öðrum meinlætum. Af því drekkist hálfr tebolli í senn, 4sinnum dagliga.

6. Sauðamergr (*Azalea*).

a. Framáviðliggjandi Sauðamergr (*A. procumbens*). Greinarnar útbreiddar, framáviðliggjandi. Blöðin mótsett, slètt.

Bolrinn hríslóttr, með mörgum framáviðliggjandi, þètt-samanvöxnum, blöðóttum, sívölum greinum. Blöðin mótsett, leggjuð, heil á röndum, stinn, græn, tilbaka undin. Blaðstaunglarnir stuttir, strikaðir, rauðhærðir. Blómstrin mörg saman. Staunglarnir með 1 blómstri rauðleitir, við neðri endann blöðóttir. Krónurnar dökkrauðar, 5skiptar, klukkumyndaðar. Fræhúsið kringlótt, eggmyndað, hvast. Blómstrar snemma sumars.

*Nytsemi og verkun:*

Góð fóðr-urt fyrir sauðfè.

7. Klukka (*Campanula*).

a. Hríngblöðuð klukka (*C. rotundifolia*). Rótarblöðin eyrumlík. Staungulblöðin strikmynduð; ísl. Bláklukka.

Rótin trèlík, aungótt. Staunglarnir uppreistir, sívalir, strikaðir, blöðóttir, slèttir. Blöðin slètt. Rótarblöðin leggjuð, kringlótt, nýra- eðr hjartalík, nöbbótt, visna sem optast áðrenn urtin blómstrar. Staungulblöðin missett, sitjandi, strikmynduð, heil á röndum eðr fánöbbótt. Blómstrin sitja í einum toppi á fínum leggjum, lútandi. Krónurnar fagr-dökkbláar, sjaldan hvítar. Bikartennurnar hvassar, alilíkar, vatnsflatar, opnar.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Í lög blaða og blómstra urtarinnar má blátt lita; líka grænt með álúni.

b. Tveggja ára Klukka (*C. patula*). Blöðin stinn. Rótarblöðin eggmynduð, lensulík. Blómstrtopprinn opinn. Bikarinn tenntr.

Rótin þunn, hvítleit. Staungullinn upprèttr, strendr, snarpr, með tóppmynduðum, skiptum, opnum, laungum greinum. Rótarblöðin snubbótt, leggjuð, hríngnöbbótt. Staungulblöðin sitjandi, hálfumfaðmandi, missett, lensulík, hvest, snörp. Blómstrtopprinn opinn; blómstrin ogsvo opin. Bikarlepprinn hefir á hvörja hlið við neðri endann litla tönn. Krónan blá.

2ja ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

8. Sandlæðíngr (*Glaux*).

a. Almennr Sandlæðíngr (*G. maritima*). Blöðin eggmynduð, aflaung, þau efstu mótsett, þau neðstu missett. Blómstrin í blaðöxlunum.

Rótin hefir lánga liðótta ánga. Staungullinn upprèttr, neðan liggjandi, skríðandi, liðóttr, sívalr, lítið greinóttr, slèttr, þèttsettr, einkum í efri enda, með sitjandi, slèttum, heilrönduðum, á neðri yfirborð bleikum blöðum. Blómstrin sitja einstök í blaðöxlunum, og eru ljósrauð. Fræhúsið kúlumyndað.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

9. Fíóla (*Viola*).

a. Mýrafíóla (*V. palustris*). Staungulslaus. Blöðin nýrnalík, slètt; ísl. Fíóla.

Rótin skríðandi, aungótt, á henni vexa aungvar vatnsgreinar, en 4 strendir rótstaunglar, sem á miðju hafa 2 lítil blómstrblöð. Blöðin lángleggjuð. Blaðstaunglarnir flatir á efri, og sívalir á neðri hlið. Axblöðin eggmynduð, lensulík, nöbbótt. Blómstrin lítil. Krónan ljósblá, stundum rauðleit, rennótt.

Margra ára urt; blómstrar í maji.

b. Hundafíóla (*V. canina*). Eldri staungullinn uppstígandi, skurðóttr. Blöðin aflaung, hjartalík. Bikararnir hvestir; ísl. Tírsfíóla.

Rótin trèlík, aungótt. Staungullinn vex fyrst framávið fyrir blómstrunina, ‛strendr, djúpskurðóttr, greinóttr, blöðóttr, slèttr, við neðri endann framáviðliggjandi; efri hlutinn í bugðu uppstígandi. Blöðin næstum slètt, hríngnöbbótt. Blaðstaunglarnir vængjaðir á röndunum. Axblöðin lensulík, nöbbótt, hærð. Blómstrstaunglarnir

spretta millum blað- og greina-hornanna, upprèttir, slèttir, 4strendir, hafa 2 alllík blómstrblöð, sem eru nálægt blómstrinu. Krónurnar ljósbláar.

Margra ára urt; blómstrar í mají og júní.

c. Marglituð Fíóla (*V. tricolor*). Staungullinn strendr, útbreiddr. Blödin aflaung, tennt, hríngnöbbótt. Axblöðin nýrumlík, hálfugguð; ísl. Fíóla, þrenníngargras (Blóðsóley).

Rótin aungótt. Staungullinn stuttr, þykkr, greinóttr, blöðóttr. Blómstrstaunglarnir strendir, strikaðir án blómstrblaða. Blöðin missett, leggjuð, á röndum dúnhærð, þau neðri kransmynduð, hjartalík. Krónan opt 3lit, nefniliga rauðblá og gul. Bikarinn bláleitr, lítið lengri enn krónan.

1 árs urt; blomstrar allt sumarið ígegn.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi hefir hjartastyrkjandi krapt, en rót hennar búkhreinsandi. Te af blómstrunum drekkist hálfr tebolli 2svar dagliga. Dupt rótarinnar skal, eptir Willémets, geta brúkast fyrir uppsölumeðal, frá hálfu til heils kvintíns, inntekið á fastandi maga að morgni dags.

## 2ur Orða (*Digynia*) tvíkvæntar.

### 10. Entíana (*Gentiana*).

a. Vall-lendis Entíana (*G. campestris*). Krónan 4 til 5-skipt, ávíðflöt. Ginið með skeggi. þeir yztu bikarleppar mikið stórir; ísl. Maríuvöndr, Kveisugras.

Urtin líkist þeirri næst eptir fylgjandi, en er þó lægri, þykkri, greinóttari. Blöðin breiðari, blómstrin snubbóttari. 2 innri bikarlepparnir smærri og lensulíkir. 2 þeir ytri 2faldt stærri og eggmyndaðir.

1 árs urt; blómstrar í ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Kraptr urtarinnar er styrkjandi, uppleysandi, svitadrífandi, ormdrepandi. Hún er því góð móti hjartveiki, matarólyst, vindum og uppþembíngi, móti landfarsóttum, ormum, blóðlátum, sinateigjum, köldu og iktsýki. Seyði af rótinni takist 2 matspænir í senn, 6 sinnum dagliga. Af rótinni má dropa þannig tilbúa: tak af rótinni smáskorinni 4 lóð, af sterkasta brennivíni 16 lóð, lát á flösku, er standi við yl í 6 daga, sía síðan hið þunna frá og geym. Af dropum þessum takist 2 teskeiðar í senn, 4sinnum dagliga. Af dupti rótarinnar takist 1 teskeið í senn, 3svar dagliga, í vatni eðr mysu.

b. Mark Entíana (*G. amarella*). Krónan 4 til 5skipt, áviðflöt. Ginið með skeggi. Bikarlepparnir jafnstórir.

Rótin með fínum aungum. Staungullinn upprèttr, lítið greinóttr, 4strendr, slèttr, blöðóttr. Rótarblöðin mörg saman, minni enn staungulblöðin, 3sinótt. Staungulblöðin mótsett, laung, eggmynduð, 3 til 5-sinótt. Blómstrin sitja í efri enda staungulsins, og í blaðhornunum á einstökum, eðr 4strendum, greinóttum staunglum. Bikarinn helfíngs styttri enn krónan, með 5 hvössum lepp-

úm, nær því jafnlaungum. Krónurnar bláar með hvítleitri pípu, nöbbóttum leppum og rauðleitu skeggi.

1 árs urt; blómstrar í ágúst og september.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

c. **Reifð Entíana** (*G. involucrata*). Krónurnar 5klofnar, trektmyndaðar, reifaðar. Staungullinn hvast strendr. Blöðin aflángt eggmynduð; ísl. **Maríuvöndr.**

Rótin einföld, í broddinn aungótt. Staungullinn greinóttr, við rótina blöðóttr, stundum óskiptr, slèttr. Greinarnar jafnlángar staunglinum, mótsettar, uppstígandi. Blöðin sitjandi, heil á röndúm, snubbótt, þètt saman við rótina, mótsett, strjál á staunglinum. Blöðin á staunglinum umfaðma blómstrstaunglana, hvörra 4 sitja í efri enda staungulsins og 2 á greinunum. Blómstrin eru í skýlu á enda staungulsins og greinanna. Stundum vaxa fáein blómstur á greinahornunum, ogsvo blaðhornunum á staunglinum. Blómstrstaunglarnir mislángir, þræðilíkir. Bikarinn 3 til 5-skiptr, með mjóum, strikmynduðum leppum, sem eru lítið styttri enn krónan. Krónan gulleit, stundum rauðleit.

1 árs urt; blómstrar síðla sumars.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

d. **Snjóentíana** (*G. nivalis*). Krónan 5-klofin. Bikarstrendrnar jafnstórar, hvassar. Staunglarnir með mörgum blómstrum; ísl. **Digragras.**

Rótin aungótt, veigalítil. Staungullinn upprèttr, skiptr, einfaldr, 4strendr, blöðóttr. Grein-

arnar upprèttar, jafnlángar staunglinum, með 1 blómstri. Blöðin mótsett, heil á röndum, slètt. Rótarblöðin umsnúið-eggmynduð, nærstandandi, snubbótt, minni enn staungulblöðin, sem eru lensulík, hvöss, strjál. Bikarinn pípumyndaðr, 5strendr, slèttr. Strendrnar framstandandi. Krónan lítil, innantil fagrblá, utantil grænleit.

1 árs urt; blómstrar snemma sumars.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

e. **Litla Entíana** (*G. tenella*). Krónurnar 5klofnar, áviðflatar. Ginið með skeggi. Staungullinn 2skiptr. Blómstrstaunglarnir lángir. Blöðin eggmynduð, snubbótt.

Rótin þræðilík, aungótt. Staungullinn upprèttr, strendr, blöðóttr við rótina, og þar sem hann skiptist, slèttr, 2skiptr. Blöðin þètt saman við rótina, aflaung, fá á staunglinum, mótsett, eggmynduð, neðan aðþrykkt staunglinum. Blómstrstaungullinn lengri enn sjálfr staungullinn, með 1 blómstri í efri enda staunglanna og greinanna. Bikarlepparnir eggmyndaðir, misstórir, styttri enn krónaurnar. Krónurnar bláar, með lensumynduðum leppum.

1 árs urt; blómstrar í ágúst.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

f. **Holkrögótt Entíana** (*G. rotata*). Krónurnar 5klofnar, hjólmyndaðar. Blöðin strikmynduð, lensulík.

Rótin toppmynduð. Staungullinn upprèttr, óskiptr, slèttr, 4strendr, blöðóttr. Blöðin mótsett, einslaung sem lángt er á millum þeirra, slètt,

hriggjótt neðan, en þrykkt að staunglinum, opin, í broddinn lítið beygð á bak aptr. Millum blaðhornanna vaxa smá-blómstrstaunglar með 1 blómstri, stundum ogsvo smágreinar. Bikarinn jafnlángr krónunni, með strikmynduðum, opnum, hvössum leppum. Krónan ljósblá, með áflaungum, snubbóttum leppum og lítilli pípu. Fræhúsið nærri jafnlángt krónunni, samanþrykkt, rennótt beggja hliða. Örið snubbótt.

Margra ára urt; blómstrar í ágùst.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

g. **Randhærð Entíana** (*G. ciliata*). Krónurnar 4- til 5klofnar randhærðar.

Hèr á Íslandi gefast 2 tegundir urtar þessarar, nefniliga:

*aa.* **Afkubbuð randhærð Entíana** (*G. cil. detonsa*), með 4klofnum krónum og afkubbuðum leppum.

Rótin þræðilík, með fínum aungum. Staungullinn upprèttr, við rótina greinóttr, blöðóttr, 4strendr. Rótarblöðin mjó, aflaung, snubbótt. Staungulblöðin strikmynduð, hvöss, mótsett, slètt. Bikarlepparnir mislángir, 2 lensulíkir, 2 eggmyndaðir. Krónan blá. Lepparnir snubbóttir, smánöbbóttir, Duptþræðirnir hvítir. Dupthnapparnir gulir.

Margra ára urt; blómstrar síðla sumars.

*bb.* **Nöbbótt randhærð Entíana** (*G. cil. serrata*), með 5klofnum smánöbbóttum krónum.

Urtin líkist enni fyrri, utan að krónulepparnir eru hvassari og litrinn dökkblárri.

Margra ára urt; blómstrar síðla sumars.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

### 11. Vatnsnabli (*Hydrocotile*).

a. Almennr Vatnsnabli (*H. vulgaris*). Blöðin skjöldmynduð. Skýlurnar með 5 blómstrum.

Rótin með stuttum aungum. Staungullinn skríðandi, þræðilíkr, liðóttr, sívalr, misjafn, lángr. Blöðin mótsett með staunglum, slètt, glansandi, ljósgræn, einsog öll urtin, krínglótt, 2faldt hríngnöbbótt. Skýluleggirnir einstakir eðr í pörum saman í blaðhornunum, hafa 2 hymnulík blómsturblöð. Skýlan lítil, stundum toppskjótandi. Krónublöðin hvít eðr rauðleit, hvöss. Ávöxturinn lítið áviðflatr, hefir 3 rif hvörjumegin hliðar.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

### 12. Spekíngsurt (*Ligusticum*).

a. Skotsk Spekíngsurt (*L. scoticum*). Blöðin 2faldt-3sett.

Rótin þykk, stutt, með aungum á hliðunum. Staunglarnir upprèttir, sívalir, strikaðir, slèttir, blöðóttir, ofanverdt greinóttir. Blöðin missétt. Smáblöðin skáhallt skakk-4hyrnd, innskorin, nöbbótt, hvöss, neðan heilrönduð. Blaðstaungullinn við neðri endann hymnulíkr, umfaðmandi. Skýlurnar, hvaraf einúngis 1 er á hvörjum staungli, eru uppreistar, margkvíslaðar. Geislarnir slèttir, strendir. Sameginligu reifarnar hafa 4 til 5 misstór blöð. Litlu reifarnar samanstanda af mörgum stórum strikmynduðum blöðum. Krónurnar litlar, hvítar. Ávöxturinn aflángr með uppháum, hymnulíkum rifbeinum.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi gefr góða lukt og smekk, gott meðal við magapínu, sem og að lækna og mótstanda ýmsum veikindum vorra tömdu dýra. Seyði af henni gefist inn með salti.

### 13. Hvönn (*Angelica*).

a. Ætihvönn (*A. archangelica*). Blöðin 2-sett, ugguð, það einstaka blað 3flipað.

Rótin þykk, kjötlig. Staungullinn upprèttr, þykkr, holr, greinóttr, sívalr, slèttr, rauðleitt-strikaðr. Smáblöðin eggmynduð, innskorin, djúpt hvassnöbbótt, slètt; það einstaka blað skipt í 3 leppa. Blaðstaungullinn neðan keistr, þykkr, á röndum hymnulíkr. Stóra-skýlan er kúlumynduð, samanstendr af mörgum geislum. Smá-skýlurnar þèttar, ávalar. Stóru-reifarnar hafa fá affallandi strikmynduð blöð. Minni-reifarnar samanstanda af 8 stuttum, lensulíkum, ábakaptrbeygðum blöðum. Krónublöðin græn, innáviðbeygð. Fræin breið, aflaung, með 3 upphækkuðum röndum.

2ja ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Urtin hefir styrkjandi, vindeyðandi, svitaleiðandi, ormdrepandi, uppleysandi, forrotnun mótstandandi og blóðhreinsandi krapt. Hún er því góð ímóti matarólyst, vindum í þörmum, innvortis tökum, gulu, hósta, skyrbjúgi, stöðnuðu tíðablóði, og mótstendr drepsóttum. Fræið smásteitt, brúkast til dropa, sem tilbúast þannig: tak hvanna-

fræ marið og steytt 2 lóð, sterkasta brennivíns 8 lóð, lát á flösku, sem standi við yl í viku vel tillokuð; þaraf takist hálft spónblað í senn, 4 sinnum dagliga. Af rótinni má og tilbúa seyði og dropa. Til seyðsins takist 2 lóð af rótinni, móti 8 eðr 12 af vatni, sjóðist litla stund í luktum katli, hvarí það standi til kallt er orðið, þá síist hið þunna frá. Af seyðinu takist 2 matspænir hvorn annan klukkutíma. Til dropanna takist 4 lóð af rótinni smáttskorinni, móti 8 lóðum brennivíns, tilbúist síðan allteins og brúkist sem droparnir af fræinu. Það er haldið bezta meðal að tyggja þurkaða hvannarót, þá næmar sóttir gánga. Til manneldis má rótina brúka, er hún munntöm fæða með fiski og nýu smjöri; hún er og bezta sælgæti bituð og sellituð með sykri.

b. Snókahvönn (*A. sylvestris*). Smáblöðin jafnstór, eggmynduð, nöbbótt; ísl. Geitla.

Rótin toppmynduð, greinótt. Staungullinn upprèttr, bládöggvaðr, sívalr, slèttr, strikaðr, greinóttr, blöðóttr. Blöðin 2sett, ugguð, missett, jafnlit staunglinum. Smáblöðin sundrskild, hvöss, nöbbótt, dúnhærð á efra borð, smærri enn á undangángandi. Blaðstaunglarnir breiðir, neðan umfaðmandi, keistir. Skýluleggirnir sívalir, strikaðir, fínhærðir. Skýlurnar hálfkúlumyndaðar, marggeislaðar. Geislarnir dúnhærðir. Stórn-reifarnar vanta optast, eða þær samanstanda af fáum affallandi blöðum. Smá-reifarnar strikmyndaðar, háramlíkar, margar. Krónublöðin rauðleit, hvít, innáviðbeygð. Ávöxturinn aflángr með væng jaðri rönd, sem er

með upphækkuðum rennum, minni enn á undangángandi.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

### 14. Kúmen (*Carum*).

a. Algengt Kúmen (*C. carvi*). Staungullinn greinóttr. Blaðslíðrin keist; eingar smáreifar.

Rótin toppmynduð. Staungullinn upprèttr, greinóttr, strendr, slèttr, strikaðr. Blöðin 2sett, ugguð, slètt. Smáblöðin innskorin, með stuttum strikmynduðum leppum. Á efri enda staungulsins og greinanna eru margar reifar. Stóru-reifarnar, sem stundum vanta, hafa 2 til 3 blöð. Krónublöðin hvít, hjartalík, innávíðbeygð. það yzta krónublað stærst. Fræin aflaung, lítil, hnúskótt, með 5 upphækkuðum strikum; dökk þá fullvaxin eru.

2ja ára urt; blómstrar í júní og júlí.

*Nytsemi og verkun:*

þessi urt, einkum fræ hennar, er uppleysandi, vindeyðandi. það eykr mjólk í konubrjóstum, er gott móti gulu, lifrarbólgu og óstyrk magans. Te af fræinu drekkist, svo tebollum skipti. Dropa má af fræinu tilbúa á þennan hátt: tak kúmensfræ steitt 4 lóð, sterkasta brennivíns 12 lóð, lát standa við yl í 4 daga, sýa hið þunna frá og geym á flösku. Hèraf takist hálft spónblað í senn, 3svar dagliga. Fræið mjölblandað, gefr brauði og súpum þægiligan smekk.

## 15. Meistarajurt (*Imperatoria*).

a. **Bjarga Meistarajurt** (*I. ostruthium*).
Efstu blöðin mótsett. Smáblöðin 3skipt.
Rótin hnöllótt; ísl. Sæhvönn.

Staungullinn upprèttr, sívalr, slèttr, strikaðr, skiptr ofan. Blöðin 2faldt-3sett, missett, við rótina lángleggjuð, efst á staunglinum sitjandi, mótsett. Smáblöðin eggmynduð, nöbbótt, innskorin. Skýlúleggirnir skurðóttir. Skýlurnar þèttar. Smáreifarnar samanstanda af litlum, hárilíkum, fáum, fljótt affallandi blöðum. Krónublöðin hvít, með innáviðbeygðum broddi. Fræin breið í broddinn, og við neðri enda randskorin, slètt, og hafa á hryggnum 3 til 4 upphækkandi strik. Stundum hefir stóra-skýlan fáblöðóttar reifar.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er blóðhreinsandi, svitadrífandi, vindeydandi, styrkjandi, forrotnun mótistandandi. Hún er því góð móti vindum í maganum, og matarólyst. Hún leysir tíðir kvenna, læknar niðrfalls-sótt og aðrar sinateygjur, líka innantökur og vatnssótt. Seyði af rótinni takist 2 matspænir í senn, 6sinnum dagliga. Te af blöðunum drekkist, svo tebollum skipti, 3svar dagliga. Af rótinni má dropa tilbúa á þennan hátt: tak af rótinni smáskorinni 3 lóð, sterkasta brennivíns 15 lóð, blanda saman og lát standa við yl nokkra daga, sýa síðan hið þunna frá og geym. Af dropum þessum takist 80 í senn, 4 sinnum dagliga.

16. Skollakál (*Ægopodium*).

a. Skurfótt Skollakál (*Æ. podagraria*). Rótarblöðin tvöföld. Staungulblöðin einföld, 3hópsett; ísl. Geitnanjóli.

Rótin skríðandi, greinótt. Staungullinn upprèttr, skurðóttr, sívalr, liðóttr. Blaðstaunglarnir lángir, liðóttir. Smáblöðin á staunglum við rótina, annaðhvort misstór, eðr hið minna er samgróið við endablaðið og 2skipt. Skýlurnar í efri enda staungulsins margkvíslaðar. Krónurnar hvítar, ólíkar, misjafnar. Ávöxturinn sporöskjumyndaðr, með 3 rifum beggja hliða.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

17. Mjölurt (*Atriplex*).

a. Garða Mjölurt (*A. hortensis*). Staungullinn upprèttr; blöðin mynda sem þríhyrníng; ísl. Garðasól.

Staungullinn upprèttr, strendr, skurðóttr, grænn, slèttr. Blöðin aflaung, mjölvuð, missett, leggjuð, bleikgræn, heilrönduð eðr fátennt. Klasarnir á greina-endunum, ofantil í blaðhornunum.

1 árs urt; blómstrar í ágúst.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

b. Leppótt Mjölurt (*A. laciniata*). Staungullinn útbreiddr. Blöðin næstum múrara-spaðamynduð, bugðótt, tennt, á neðra borði silfrlituð.

Rótin greinótt, með laungum aungum. Staungullinn framáviðliggjandi, útbreiddr, sívalr, hvít-hreystróttr. Greinarnar við neðri endann mótsettar,

ábakaptrbeygðar, spretta útaf einum hnúsk á staunglinum. Blöðin missett, leggjuð; við neðri endann stundum mótsett, sitjandi, lítið niðrbeygð á efri endann, silfrglansandi, hreystrótt á neðra borði, snubbótt bæði ofan og á tönnunum. Tönnurnar eru stundum stórar, stundum líka sem væru leppar. Þau 2kynja blómstrin vaxa í stuttu axini. Kvennbikararnir einfaldir í blaðöxlunum. Fræin samanþrykkt, innilukt í stórum, skakkferhyrndum, tenntum bikar.

1 árs urt; blómstrar í ágúst.

*Nytsemi og verkun:* góð fóðr-urt.

c. Svína Mjölurt (*A. patula*). Greinarnar útskagandi, neðri blöðin spjótmynduð, þau efri lensulík, næstum heil á röndum. Frjófu bikarblöðin skakk-ferhyrnd, tennt ofaná hryggnum.

Rótin með laungum aungum. Staungullinn upprèttr, framáviðliggjandi, stuttr, greinóttr. Greinarnar standa nær því beint út frá bolnum, síðan bogið uppstígandi, þær neðstu mótsettar, þykkari neðan, lángar; þær efstu styttri, missettar, minna útstandandi. Neðstu blöðin tennt. Miðblöðin hafa neðantil stóra tönn á báðum hliðum. Þau efstu lensulík, heil á röndum, þunn, laung, vessamikil. Blómstrin sitja í efstu blaðhornunum á litlum, legglausum, aflaungum axinum. Bikarblöðin skakk-ferhyrnd, kringlótt. Fræið áviðflatt, sporöskjumyndað, dökkglansandi.

1 árs urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

## 3ja Orða (*Trigynia*) þríkvæntar.

### 18. Arfi (*Alsine*).

a. Almennr arfi (*A. media*). Blöðin eggmynduð, hjartalík. Staungullinn framáviðliggjandi með hársettum strikum á vixl.

Rótin aungótt. Staungullinn greinóttr, liðóttr, meyrr, sívalr, slèttr. Millum blaðanna er hvítt strik, er myndast af hvítum hárum, svoleiðis, að neðri endinn byrjar í axlinni milli blaðsins og staungulsins, og endar í þeirri efstu milli þeirra fyrir ofan verandi blaða. Blöðin mótsett, pörin missett, stuttleggjuð, heil á röndum, slètt, með þykkri sin á miðjunni, rauðhærð. Staungullinn hærðr, efstu blöðin sitjandi. Blómstrstaunglarnir í efri enda staungulsins og í blaðhornunum, einstakir, með 1 blómstri, hærðir á aðra hlið. Sá sem ber hið opna blómstr er lengstr. Krónublöðin hvít, djúpskipt. Bikarinn hærðr, lengri enn krónan. Fræhúsið eggmyndað, með 6tenntum munna. Fræin misjöfn.

1 árs urt; blómstrar allt sumarið út.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er kælandi, mýkjandi og græðandi. Seyði af arfa mýkir bólgu og þrota. Arfinn nýr, heittr í potti, gjörir hið sama. Nýtekinn arfi, kaldr viðlagðr, stillir og kælir hitaverk og bólgu. Mýkjandi grautr úr arfa gjörir vel út meinsemdir. Seyði af arfa nýúm, hvaraf drekkist 1 peli í senn, er vallgáng mýkjandi, yðrabólgu uppleysandi, og græðir sár í lúngum, samt örfar matarlyst.

## 4ða Orða (*Tetragynia*) fjórkvæntar.

### 19. Lifrarurt (*Parnassia*).

a. Hvít Lifrarurt (*P. palustris*). Blöðin hjartalík. Staungullinn 1blaðaðr, strendr; ísl. Mýra Sóley.

Rótin aungótt. Staungullinn eðr skaptið upprètt, snúið, slètt, með 1 blómstri. Blöðin slètt, heil á röndum, sinótt. Rótarblöðin mörg saman, leggjótt. Staungulblöðin sitjandi. Blómstrið stórt eptir urtinni, í enda staungulsins. Krónublöðin hjartalík, hol, lengri enn bikarinn, hvít, með gagnsærum, rauðleitum æðum. Bikarlepparnir lensulíkir, misstórir. Hunángsberarnir mótsettir krónublöðunum, kjötligir, hjartalíkir, skiptir í 8 til 10 þræði, sem hafa gult höfuð á endanum. Duptberarnir, sem eru mótsettir bikarleppunum, og ímilli hunángsberanna, hallast hvör eptir öðrum ofanyfir dupthyrzlurnar. Dupthnapparnir hjartmyndaðir. Örin sitja á því eggmyndaða ávaxtarhúsi, án þess þau hafi stýlinn.

Margra ára urt; blómstrar í ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er uppleysandi, mýkjandi, skaðlig fyrir augu. Te af blöðunum drekkist, svo tebollum skipti, og er gott móti lifrar- og miltisbólgu, samt kvefi og brjóstþýngslum.

## 5ta Orða (*Pentagynia*) fimmkvæntar.

### 20. Geldíngahnappr (*Statice*).

a. Algengr Geldíngahnappr (*S. armeria*). Skaptið óskipt. Blómstrin mynda

eitt höfuð. Blöðin strikmynduð; ísl. Gúllintoppa.

Rótin trèlík, með mörgum þèttum aungum. Af henni vaxa 1 eðr fleiri upprètt, sívöl, óskipt, hærð, smástrikótt sköpt. Blöðin við rótina þètt, slètt, röndótt. Blómstrin sitja í einu höfði saman á skaptendanum, þètt saman, ljósrauð, hafa neðan margblaðaðar, þaktar, harðhymnóttar reifar. Krónublöðin umsnúið-hjartalík, með nöglum. Bikarinn hymnulíkr, með 5 rauðum strikum. Duptberarnir styttri enn krónan. Dupthyrslurnar hærðar við neðri endann.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

21. Hör (*Linum*).

a. Viltvaxandi Hör (*L. catharticum*). Blöðin mótsett, umsnúið-eggmynduð, lensulík. Staungullinn ofanvert 2skiptr. Krónublöðin hvöss.

Rótin þræðilík. Staunglarnir upprèttir, slèttir, sívalir, neðantil óskiptir, blöðóttir. Blöðin snubbótt, slètt, heil á röndum, við rótina minni og þèttari saman. Blómstrin hallast áðr þau springa út. Bikarblöðin nöþbótt. Krónublöðin hvít. Duptberarnir samanvaxnir neðantil. Örin höfðilík.

1 árs urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Urtin er búkhreinsandi og þvagleiðandi. Hún er því góð í vatnssýki, gulu, þvagteppu. Seyði af

rótinni drekkist, svo teboll um skipti, 2svar dagliga. Sè urtin soðin með járnviktríli lítar hún svart.

22. Sibbaldsurt (*Sibbaldia*).

a. Framáviðliggjandi Sibbaldsurt (*S. procumbens*). Blöðin fleygmynduð, 3tennt.

Rótin þykk, framáviðliggjandi, trèlík. Af henni spretta margir stuttir, blöðóttir staunglar. Blöðin 3sett, lángleggjuð. Smáblöðin umsnúið-fleygmynduð, hærð, hafa á efri enda 3 stórar tennr. 2 litlu axlablöðin samgróin við neðri enda blaðstaungulsins. Blómstrin eru í hálfskýlu, lítil, gulleit. Bikarlepparnir hærðir, misstórir, víðvarandi. Krónublöðin umsnúið-eggmynduð. Duptberarnir styttri enn krónublöðin. Fræin eggmynduð; ísl. Fjallasmári.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

6ta Orða (*Hexagynia*) sexkvæntar.

23. Sóldögg (*Drosera*).

a. Hríngblöðótt Sóldögg (*D. rotundifolia*). Blöðin eru við rótina hríngmynduð. Skaptið ber klasa.

Rótin aungótt; af henni vaxa mörg upprètt, óskipt, sívöl, slètt, dökkrauð sköpt. Blöðin sitja í skýlu við rótina, þètt útbreidd á jörðu; þau eru leggjuð, hol, heil á röndum. Á efra flatveg ogsvo á röndum rauðhærð, á hárbroddunum sitr ein dekkri kúla. Blómstrin sitja í innáviðbeygðum klasa á enda skaptsins. Bikarlepparnir aflángir,

snubbóttir, dökkir, uppreistir. Krónnblöðin umsnúið-eggmynduð, hvít. Örin kylfumynduð. Fræhúsið aflángt. Fræin ogsvo laung.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Með urt þessari soðinni í mjólk má burttaka freknur, sè húðin þarí þvegin. Urtin ný, núin á hríngorma eyðir þeim.

b. Lángblöðótt Sóldögg (*D. longifolia*). Blöðin við rótina umsnúið-eggmynduð. Skaptið ber klasa.

Að undanskildri blaðanna lögun, líkist urt þessi að öllu enni undangángandi.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágùst.

*Nytsemi og verkun:* öll hin sama.

---

## 6. Hópr.

### (*Hexandria*) sexmannaðar.

### 1sta Orða, (*Monogynia*) einkvæntar.

1. Beinbrjótr (*Anthericum*). Krónan 6blöðótt, opin. Fræhúsið eggmyndað.

2. Vorblómi (*Convallaria*). Krónan 6klofin Berið 3rúmað. Örið 3strendt.

3. Sef (*Juncus*). Bikarinn 6blöðóttr, undirsitjandi. Fræhúsið 3blaðkað, margfrævað.

2ur Orða, (*Trigynia*) þríkvæntar.

4. Skreppa (*Rumex*). Bikarinn 3-blöðóttr. 3 krónublöð. 1 fræ, með 3 flatvegum.

5. Bjarnarbroddr (*Nartheticum*). Bikarinn 3skiptr. 6 krónublöd. 3 margfrævuð fræhús.

6. Sældíngr (*Triglochin*). Bikarinn 3-blöðóttr. 3 krónublöð. Fræhúsið opnar sig við neðri endann.

6ti Hópr (*Hexandria*) sexmannaðar.

1sta Orða (*Monogynia*) einkvæntar.

1. Beinbrjótr (*Anthericum*).

a. Greinóttr Beinbrjótr (*A. ramosum*). Blöðin rennótt. Skaptið greinótt. Krónurnar flatar. Dupthyrzlan útstandandi; ísl. Íglagras, Síkisgras.

Rótin með litlum görðum, hvítum aungum. Skaptið upprètt, rètt, sívalt, strikað slètt, í broddinn greinótt. Blöðin öll við rótina, strikmynduð, slètt, á efra borð rennótt, hryggjótt á neðra borð. Blómstrin sitja á staungulbroddinum, ogsvo greinanna í útbreiddum klösum; við neðri enda sèrhvörrar greinar er eitt blómstrblað, sem líkist enum öðrum blöðum, en er þó minna. Krónublöðin hvít, þau 3 yztu stærri; þau 3 innri hafa

strik í miðju og á toppinum grænan blett. Duptberarnir mislángir. Ávaxtarbotninn 3-hyrndr.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

## 2. Vorblómi (*Convallaria*).

a. **Tvíblöðóttr Vorblómi** (*C. bifolia*). Blöðin hjartalík, stuttleggjuð, krónan 4skipt, 4mönnuð.

Rótin smá-aungótt. Staungullinn upprèttr, strendr, 2blöðóttr, lítið boginn við neðsta blaðið. Blöðin missett, hvöss, sinótt, slètt á efra, en lítið hærð á neðra yfirborð. Blómstrin sitja í eggmynduðum slèttum klasa í efri enda staungulsins. Blómstrstaunglarnir hvítir. Krónurnar hvítar, 4klofnar. Lepparnir beygðir á bak aptr; við neðri enda blómstrstaunglanna eru lítil, smá, tennt blómstrblöð. Duptberarnir lángir, eptir krónunnar stærð. Örið snubbótt. Berið kúlumyndað, fyrir frjófgunartímann grænglánsandi, með rauðum deplum, en rautt, þá fullþróast.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

## 3. Sef (*Juncus*).

a. **Burstablöðótt Sef** (*J. sqvarosus*). Stráið nakið. Blöðin burstalík; einn samansettr hnykilmyndaðr toppr á efri enda strásins.

Rótin með þèttum aungum; af henni vaxa mörg strá og fjöldi þèttsamanverandi blaða. Stráin uppreist, slètt, sívöl, lítið innáviðbeygð. Blöðin burstalík, stinn, röndótt á yfirborðið, slètt, innáviðbeygð, nær því hálfu styttri enn stráið. Blómstr-

topprinn greinóttr, neðan slíðraðr í einu blaði, sem er styttra enn topprinn. Bikarblöðin dökk, á röndum stinn- og hvíthærð. Fræhúsið snubbótt, umsnúið-eggmyndað.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

b. **Útbreidt Sef** (*J. effusus*). Stráið nakið, rètt, hefir útbreiddan, margtvísettan hliðartopp. Fræið snubbótt.

Rótin þykk, vatnsflöt. Af henni vaxa mörg upprètt, sívöl, útvortis með hvítum mergi, fín, strikuð, hvöss, slètt strá, sem neðantil eru í hymnulíkum, snubbóttum, dökkum slíðrum. Blöðin stór, og eru eginliga ófrjófsöm strá. Krónublöðin hvest, gulgræn. Fræhúsið umsnúið-eggmyndað, snubbótt.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

c. **Þríklofið Sef** (*J. trifidus*). Stráið nakið, hefir 3 blómstur og 3 blöð á toppinum.

Rótin aungótt. Stráin þètt saman, rètt, þunn, strikuð, umkríngð neðan af slíðrandi, ljósleitu hreistri. Í toppi þeirra vaxa 3 blöð, millum hvörra venjuliga sitja 3 blómstur, sem eru ryðlituð sitjandi. Bikarblöðin eggmynduð. Fræhúsið hvast.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

d. **Liðótt Sef** (*J. articulatus*). Blöðin görðótt, liðótt, lítið flatþrykkt. Blómstrtoppgreinarnar bera þètt blómstur. Bikarblöðin jafnstór, lítið snubbótt.

Rótin þètt, aungótt, skríðandi. Stráið neðan niðráviðliggjandi, ofan uppreist, sívalt, slètt, blöðótt, við rótina sett alilíku hreistri. Blöðin missett,

slíðrandi, hvöss, hol, með þèttum liðum, sem hæg-ara finnast enn sjást, og sem innanvert gjöra eins mörg millibil. Blómstrtopprinn á strásend-anum. Greinarnar 2skiptar, og hafa á endanum og við millibilin 3 til 4 legglaus blómstur. Við neðri enda toppsins er eitt reifarmyndað blað, nærri jafnlángt toppinum, og við millibilin lítil, hymnulík blöð. Bikarblöðin lensulík, dökk. Fræhúsið aflángt, 3strent, hvast.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

e. **Hnöllótt Sef** (*J. bulbosus*). Blöðin strik-mynduð, rennótt. Stráið við neðri endann blöðótt. Blómstrtopprinn skúfmyndaðr. Fræhúsið snubbótt.

Rótin þykk, skríðandi, lítið hnöllótt með hliðar aungum. Stráin þètt saman, upprètt, óskipt, lítið flatþrykkt, strikuð, slètt, neðan blöðótt, ofan næstum blaðlaus. Blöðin styttri enn stráin, slíðr-andi, hvöss. Blómstrtopprinn á enda strásins, marg-blómstraðr, neðan slíðraðr í litlu blaði. Bik-arblöðin aflaung, snubbótt, misstór, græn, dökk, hymnulík á röndunum. Fræhúsið umsnúið-egg-myndað, snubbótt, með brodd á endanum, lengra enn bikarinn, ljósdökkt.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

f. **Vatna-Sef** (*J. bufonius*). Blöðin strik-mynduð, rennótt. Stráið klasalíkt, 2skipt. Blómstrin einstök.

Rótin aungótt, á henni vaxa hneppi stráa, sem eru upprètt, veikari enn á undangángandi, sívöl, slètt, bugðótt, með fínum rennum, í broddinn

2skipt, blöðótt. Blöðin strikmynduð, ei svo stinn sem á undangángandi, hvöss, mikið styttri enn stráið. Blaðslíðrin jafnlaung blaðinu. Blómstrin sitjandi eðr stuttleggjuð, spretta í hornunum þar sem stráið skiptist, eðr þar á hliðunum. Bikarblöðin jafnstór, lensulík, hvöss á röndum, hvíthymnótt. Fræhúsið styttra enn bikarinn, mjórra enn á undangángandi. Hefir ljósgrænan lit.

1 árs urt; blómstrar í júní og júlí.

g. Tvíblómstrað Sef (*J. biglumis*). Blöðin flöt. Blómstrhöfuðið blöðótt neðan, hefir 2 blómstur, og er á aðra síðu strás-endans.

Rótin aungótt. Stráið óskipt, upprètt, einblöðótt, sívalt, strikað, jafndigrt, bogið. Blöðin strikmynduð, alilík, snubbótt, styttri enn stráið. Blaðið við blómstrin snubbótt, leingra enn hin. Blómstrin 2, hvort uppaf öðru. Bikarblöðin dökkbrún, lensulík. Þau 3 að utanverðu hafa á miðju innri hliðarinnar grænt strik. Fræhúsið umsnúiðeggmyndað, snubbótt með stuttum broddi, leingra enn bikarinn.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

h. Þríblómstrað Sef (*J. triglumis*). Blöðin flöt. Blómstrhöfuðið uppreist með 3 blómstrum í broddi strásins.

Þessi er stærri enn undangángandi, sem hún er mjög lík. Rótin aungótt. Stráin fá saman, næstum nakin, upprètt, þræðilík, slètt, sívöl, neðantil blöðótt. Blöðin strikmynduð, alilík, hvöss, slíðrandi við neðri nedann. Slíðrin strikuð. Blöðin við blómstrin eggmynduð, snubbótt, hol, styttri

enn blómstrin; þau yztu stærst. Bikarblöðin aflaung, lensulík. Fræhúsið aflángt, snubbótt, leingra enn bikarinn.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

i. Hært Sef (*J. pilosus*). Blöðin flöt, hærð. Hálfskýlan einföld. Blómstrstaunglarnir einblómstraðir, lútandi. Bikarblöðin eggmynduð, hvöss, styttri enn fræhúsið.

Rótin aungótt, lítið skríðandi. Stráin upprètt, óskipt, sívöl, blöðótt. Blöðin strikmynduð, lensulík, hvöss, sinótt, á röndum með laungum, fínum, hvítum hárum. Þau neðstu jafnlaung stráinu. Staungulblöðin missett, slíðrandi, innantil og á röndunum rauðleit. Blómstrtopprinn hálfskýlumyndaðr, í efri enda strásins með útstandandi ábakaptrbeygðum greinum. Á sèrhvörjum staungli er eitt blómstr, sem við neðri endann hefir 2 lítil, hvöss blöð. Bikarblöðin lensulík, hvöss, dökk, með gulri rönd. Dupthnapparnir stórir, gulir. Fræhúsið snubbótt, gult.

Margra ára urt; blómstrar í mají og júní.

k. Vallar-Sef (*J. campestris*). Blöðin flöt, hærð. Axinin skýlumynduð, leggjuð á enda strásins, það í miðju sitjandi. Fræhúsin snubbótt.

Rótin skríðandi, dökk, aungótt. Stráið upprètt, sívalt. Blöðin strikmynduð, hvöss, á röndum hærð. Fyrir neðan axinin eru 2 slíðrandi, mislaung blöð. Það neðra og leingra nær jafnhátt axinu. Axinin, sem eru eggmynduð, snubbótt, eru optast leggjuð, fyrir blómstrunina uppreist,

eptirá lútandi. Í miðjunni er legglaust axin. Við enda hvörs blómstrs eru 3 til 4 í broddinn trosnuð blómstrblöð. Bikarblöðin lensulík, hvöss, leingri enn fræhúsið. Duptberarnir styttri enn á undangángandi. Fræhúsið umsnúið-eggmyndað, hefir 3 fræ.

Margra ára urt; blómstrar í mají og júní.

l. Axblómstrað Sef (*J. spicatus*). Blöðin flöt. Axið klasamyndað, lútandi, neðantil samsett. Fræhúsin hvöss.

Rótin með þèttum aungum. Stráið upprètt, blöðótt, sívalt, fínt, slètt. Blöðin mjó, strikmyndað, hvöss, missett, beygð ábakaptr, á röndum fínhærð, slíðrandi. Á enda strásins er aflángt, snubbótt, dökkryðlitað axíni, sem neðst er með millibili. Blómstrblöðin randhærð, trosnuð, bleik. Bikarblöðin lensulík, hvöss. Fræhúsið snubbótt.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

m. Finnmerkr-Sef (*J. arcticus*). Stráið rètt, nakið, hefir blómstrskýlu á hliðinni. Blómstrin án smástaungla.

Rótin skríðandi, liðótt, aungótt. Stráin saman, blaðlaus, sívöl, strikuð, slètt, stíngandi, hvöss í broddinn, neðan slíðruð af mörgum ljósdökkum, snubbóttum hreystrum. Blómstrin sitja við broddinn á stráinu, í þèttri, stuttri, höfuðmyndaðri skýlu, við hvörrar greinir margar legglausar krónur eru fastar. Krónublöðin alilík, rennótt, og hafa dökkgljáandi lit. Við neðri enda hvörrar krónu er eggmyndað-umfaðmandi hreystr, ljósdökkt að lit. Duptberarnir styttri enn dupthyrzlan, jafnlángir

krónublöðunum. Fræhúsið umsnúið-eggmyndað, 3klofið að ofanverðu.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun allra þessara sefurta:* óþekkt.

## 2ur Orða (*Trigynia*) þríkvæntar.

### 4. Skreppa (*Rumex*).

a. Rauð-Skreppa (*R. acutus*). Fræblöðkurnar aflángar, lítið tenntar, hafa 1 korn á sèr. Blöðin eggmynduð-aflaung, hvest. Blómstrklasarnir blöðóttir; ísl. Heimilisnjóli, Heimula, Fardagakál.

Rótin toppmynduð, greinótt. Staungullinn upprèttr, greinóttr, strendr, skurðóttr, slèttr, holr. Greinarnar þunnar, opnar, blöðóttar. Blöðin hjartmynduð, lensulík, á röndum krúsuð, hvest, leggjuð. Blómstrin í laungum klösum, skipt í hliðarkransa, sem hvörr hefir 1 blað neðantil. Krónublöðin fyrst heil á röndum, eðr lítið nöbbótt, eptir blómstrunina tennt. Á sèrhvörju, eðr í hið minnsta á 2, sitr rautt korn.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi hefir barkandi, samandragandi, styrkjandi krapt. Hún leiðir vallgáng, uppleysir þykkva vessa, er blóðhreinsandi og forrotnun mótstandandi. Hún brúkast því móti lífsýki, blóðsótt, gulu, harðlífi, lifrarbólgu, vatnssýki, kláða og útbrotum, skyrbjúgi og holdsveiki. Af blöðunum nýum búist seyði til; þaraf drekki maðr 1 tebolla 3svar dagliga. Í seyði þessu er gott að þvo allslags út-

brot hörundsins. Sè fræið þurkað, og síðan þaraf seyði tilbúið, af því takist 2 matspænir í senn 4-sinnum dagliga. Dupt af rótinni brúkist 1 teskeið full, hvörn 3ja tíma. Af rótarinnar seyði er þannig púrgermeðal tilbúið: tak af rótarseyðinu 1 eðr 2½ pela, af hvítu smásteyttu salti 1 lóð, uppleys saltið í seyðinu volgu, og tak inn á fastandi maga. Smyrsl móti kláða og útbrotum má þannig tilbúa: tak af dupti rótarinnar 5 lóð, smásteyttann brennistein 1 lóð, ósaltað vel afvatnað nýtt smjör, sem sè brædt, 10 lóð, blanda og hnoða þetta vel saman.

Blöð og rót urtarinnar soðin með vatni og álúni gefa gulan lit, sem verðr enn fegri, sè því strax eptir blekkt í staðið þvag. Tak af blöðunum smáskornum 4 til 6 hnefa, 2 lóð af álúni, 2 potta vatns og 1 mörk af þvagi, og sjóð þarí sem gult skal litast til þess vel er tekið. Blöð urtarinnar eru hollasta kálmeti í súpum og grautum, ekki einúngis hraustum og heilbrigðum, heldr ogsvo veikum, sem ekki þola annann mat.

b. Súruskreppa (*R. acetosa*). Blöðin aflaung, skeytilík. Fræblöðkurnar bera korn; ísl. Vallarsúra.

Rótin greinótt, innantil hvít. Staungullinn upprèttr, sívalr, strikaðr, blöðóttr, ofan greinóttr. Blöðin slètt, heil á röndum, þau neðri á staunglinum snubbótt. Staungulblöðin sitjandi, umfaðmandi, hvöss. Blómstrtoppgreinarnar opnar. Blómstrkransarnir niðráviðbeygðir. Kvennblómstrin hafa dekkri lit enn kallblómstrin, hvörra krónur þarámóti eru meir opnar.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er kælandi, vallgáng mýkjandi, mótstendr forrotnun og skyrbjúgi. Fræ hennar er bindandi; hún brúkast því móti harðlífi, skyrbjúgi, matar-ólyst, blóðsótt, þorsta í landfarsóttum, ólgu í blóðinu, blóðlátum og þykkum vessum. Seyði af nýrri súru og skarfakáli tilsamans er hið bezta meðal móti skyrbjúgi. Af seyði af einsömlum súrublöðum drekkist hálfr tebolli í senn, 3svar dagliga. Dupt af fræinu brúkist 1 teskeið full í senn, 3svar dagliga, í spæni fullum af mysu.

c. Spjótblöðótt Skreppa (*R. acetosella*). Blöðin lensulík, spjótmynduð. Fræblöðkurnar kornlausar.

Urt þessi líkist mikið enni undangángandi, en er öll mikið minni. Staungullinn greinóttari. Rótarblöðin hafa útstandandi flipa við neðri endann; efstu blöðin lensulík. Kallurtarinnar dupthnappar rauðleitir; kvennurtarinnar dupthyrzlur hvítleitar.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

*Nytsemi og verkun:* sem undangángandi.

5. Bjarnarbroddr (*Nartheticum*).

a. Fjalla-Bjarnarbroddr (*N. calyculatum*). Krónublöðin umsnúið-eggmynduð, snubbótt; ísl. Sýkisgras.

Rótin með laungum aungum. Staungullinn upprèttr, óskiptr, nær því blaðalaus, sívalr, slèttr. Blöðin líkjast grasstráum, eru hvöss, sinótt.

Blómstrin sitja í axi á staungulendanum, eru ljós- eðr hvít-græn. Bikarinn 3klofinn, minni enn krónan. Krónublöðin snubbótt, hol, ævarandi.

Margra ára urt; blómstrar í ágúst.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

6. Sældíngr (*Triglochin*).

a. Mýra-Sældíngr (*T. palustre*). Fræhúsið 3rúmað, næstum strikmyndað.

Rótin aungótt. Skaptið upprètt, lítið strent, slètt, óskipt. Blöðin jafnlaung skaptinu, hálfsívöl, rennótt, slètt, strikmynduð, við neðri endann slíðrandi, kjötlig. Blómstrin eru á skaptendanum í margblómstruðu axini. Fræhúsin snubbótt, sitja á stuttum leggjum. Fræin strikmynduð.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

b. Stranda-Sældíngr (*T. maritimum*). Fræhúsin 6rúmuð, eggmynduð; ísl. Sandlaukr.

Urt þessi líkist mjög undangángandi, en hefir mjórri rót, leingra og hálfsívalt skapt, breiðari og kjötligri blöð, stærri og snubbóttari blómstur, sem hafa styttri leggi og þèttari axin.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

## 7. Hópr.

(*Heptandria*) sjömannaðar.

1sta Orða (*Monogynia*) einkvæntar.

1. Fagurblóm (*Trientalis*). Bikarinn 7blaðaðr. Krónan 7skipt, jöfn, flöt. Berið 1rúmað, þurt.

### 7di Hópr (*Heptandria*) sjömannaðar.

### 1sta Orða (*Monogynia*) einkvæntar.

### 1. Fagurblóm (*Trientalis*).

a. Evropiskt Fagurblóm (*T. evropæa*). Blöðin eggmynduð-lensulík, heil á röndum, og sitja í kransi.

Rótin hnúskótt, með laungum aungum. Staungullinn upprèttr, óskiptr, næstum blaðlaus að neðan, standum hefir hann þó 2 til 3 smá, missett, hreystrilík blöð; hann er þarfyrirutan allr slèttr. Á enda staungulsins sitja 5 til 6 opin blöð, sem eru heil á röndum, og sitja í einum kransi. Fyrir ofan blöðin finnast 1 til 4 blómstrstaunglar, samanhnepptir, rauðleitir. Bikarblöðin alilík, hvöss. Krónan skjallhvít. Krónunnar blöð eggmynduð, snubbótt, við neðri endann samanfest, svoað krónan eiginliga er 1blöðuð. Duptþræðirnir hvítir, styttri enn krónan. Dupthnapparnir rauðir. Berið næstum gagnsært, glansandi, kúlulíkt.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Sæmilig fóðr-urt fyrir annann peníng enn kýr. Taki maðr blómstur hennar og blöð og núi millum fíngra sinna, og þareptir strjúki þeim um augnahvarma sèr, er sagt hún bati ýmissa augnaveiki.

Að vitni Hr. Distriktskírúrgs *S. Pálssonar* er þessi snotra og fásèna urt fundin í Fljótsdal eystra af Herra Prófasti *Guttormi Pálssyni.*

---

## 8. Hópr.

### *(Octandria)* áttmannaðar.

### 1sta Orða, (*Monogynia*) einkvæntar.

1. Purpurajurt (*Epilobium*). Krónan 4blöðótt. Bikarinn 4klofinn, yfirsitjandi. Fræhúsið 4rúmað. Fræin þelulluð.

2. Bláber (*Vaccinium*). Krónan 1blöðótt. Bikarinn 4tenntr, yfirsitjandi. Ávöxturinn ber.

3. Lýng (*Erica*). Krónan 1blöðótt. Bikarinn 4blaðaðr, undirsitjandi. Ávöxturinn er fræhús.

### 2ur Orða, *(Trigynia)* þríkvæntar.

4. Marghyrna (*Poligonum*). Bikarinn

5skiptr, krónulíkr, undirsitjandi. Eingin króna. Eitt nakið fræ.

3ja Orða, (*Tetragynia*) fjórkvæntar.

5. Fjögralaufajurt (*Paris*). Bikarinn 4blöðóttr. Krónan 4blöðótt. Berið fyrir ofan blómstrið.

8. Hópr (*Octandria*) áttmannaðar.

1sta Orða (*Monogynia*) einkvæntar.

Geitskór

1. Purpurajurt (*Epilobium*).

a. Breiðblöðótt Purpurajurt (*E. latifolium*). Blöðin missett og mótsett, eggmynduð-lensulík, næstum heil á röndum, dúnhærð, æðalaus. Krónurnar ójafnt skiptar; ísl. Purpurablómstr, Maríuvöndr.

Staungullinn upprèttr, strendr, blöðóttr, óskiptr. Blöðin sitjandi, mjög stuttleggjuð, hafa fáar litlar tennr á röndunum, beggjamegin fínt dúnhærð. Blómstrin stór, sitja á stuttum staunglum í efstu blaðhornunum. Bikarlepparnir strikmyndaðir, lensulíkir. Krónublöðin snubbótt, næstum kringlótt, fagr-lifrauð. Duptberarnir íbjúgir í broddinn.

Margra ára urt; blómstrar í ágùst.

b. Slèttblöðótt Pupurajurt (*E. montanum*). Blöðin leggjótt, eggmynduð, tennt. Staungullinn sívalr. Örið 4skipt; ísl. Eyrarós.

Rótin með fínum greinum, skríðandi. Staungullinn rèttr, upprèttr, óskiptr, sívalr, rauðleitr, fínhærðr, enkum við blaðstaunglana. Blöðin stuttleggjuð; þau neðstu mótsett, slètt; þau efstu missett, lensulík. Bikarlepparnir næstum strikmyndaðir. Krónublöðin lítil, bleik, rauðklofin í broddinn. Arslepparnir beygðir á bak aptr. Fræhúsið 4strent.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

c. Mýra Purpurajurt (*E. palustre*). Blöðin sitjandi, mjó, lensulík, tennt. Staungullinn sívalr. Örið óskipt.

Staungullinn upprèttr, lítið greinóttr eðr óskiptr, slèttr, eðr mjög fínhærðr, blöðóttr. Blöðin mótsett, þau neðstu missett, næstum strikmynduð, heil á röndum, slètt. Krónublöðin lítil, randskorin, bleikrauð. Örið strikmyndað. Fræhúsið uppreist.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

d. Fjalla Purpurajurt (*E. alpinum*). Blöðin mótsett, eggmynduð, lensulík, heil á röndum. Fræhúsið sitjandi. Staungullinn neðantil niðráviðliggjandi.

Rótin skríðandi. Staungullinn uppstígandi, óskiptr, snubbóttr, 4strendr, slèttr. Blöðin stuttleggjuð, slètt, lítið tennt í broddinn, stundum missett, slètt. Urtin hefir 2 til 3 lítil, rauðleit blómstur í efri enda staungulsins, hjá hvörjum sitja lítil, missett blöð. Krónublöðin randskorin. Fræhúsið slètt.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

e. **Ferstrend Purpurajurt** (*E. tetragonum*). Blöðin lensulík, smátennt. Staungullinn ferstrendr.

Staungullinn upprèttr, óskiptr, blöðóttr, slèttr, ofantil fínhærðr, rauðleitr. Blöðin næstum sitjandi, hálfumfaðmandi, hvöss, slètt, mótsett utaná sinunum og röndinni. Blöðin við blómstrin missett. Klasarnir fáblómstraðir. Krónurnar litlar, rauðar. Örið kylfumyndað. Fræhúsið 3- til 4-faldt leingra enn leggirnir.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

f. **Mjóblöðótt Purpurajurt** (*E. angustifolium*). Blöðin útdreifð, strikmynduð, lensulík, með æðum, slètt. Krónurnar ójafnar. Duptberarnir niðráviðbeygðir.

Rótin greinótt, lítið skríðandi. Staungullinn upprèttr, rèttr, óskiptr, slèttr, sívalr, blöðóttr, rauðleitr. Blöðin sitjandi, heil á röndum, slètt, hvöss, og hafa þykkva sin á miðjunni. Blomstrin sitja blaðlaus á efri enda staungulsins í 4strendum, uppmjóum klasa. Klasaleggirnir strendir. Krónurnar fagr-rauðar. Bikarblöðin dökkrauð. Duptið á dupthnöppunum bláleitt.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Rótin hefir inni að halda mjölilíka parta, og kann því að brúkast til matar; sömuleiðis staungullinn. Fræullinn kann, með bómullu blönduð, að spinnast. Þaraðauki má hana brúka í kveiki, svovel í lampa sem kerti.

g. **Smáblöðótt Purpurajurt** (*E. angustissimum*). Blöðin útdreifð, strikmynduð, lensulík, tönnótt, æðalaus. Krónublöðin jafnvaxin, heil á röndum.

Staungullinn upprèttr, rèttr, sívalr, slèttr, í efri endann greinóttr. Blöðin mjög mjó, lensulík, strikmynduð, stundum mótsett, stundum missett, stundum án nokkurrar orðu. Blómstrin opin, sitja á efri enda staungulsins, á stuttum staunglum, nærfeldt helfíngs styttri enn fræhúsið. Á hvörjum staungli vex eitt lítið blað, sem þó á nokkrum sitja við neðri enda. Krónublöðin dökkljósrauð, umsnúið-eggmynduð, lensulík, nokkuð stór. Bikarblöðin eggmynduð, hvöss, við neðri endann rauðleit, í broddinn gul. Örið snubbótt.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

## 2. Bláber (*Vaccinium*).

a. **Aðal-bláber** (*V. myrtillus*). Blómstrstaunglarnir 1blómstraðir. Blöðin eggmynduð, nöbbótt. Staungullinn strendr; ísl. Aðalbláberjalýng.

Rótin greinótt, aungótt, lítið skríðandi. Bolurinn greinóttr. Greinarnar strendar, slèttar, grænleitar. Blöðin missett, stutt, leggjuð, slètt, ljósgræn. Blómstrin lútandi, sitja einstök í blaðhornunum á litlum staunglum. Bikarinn lítill, 5tenntr. Krónan kúlumynduð, með kjötlit, í munnann 5tennt. Duptberarnir innilokaðir af krónunum. Duptknapparnir 2hyrndir. Berið kúlumyndað, dökkblátt.

Margra ára urt; blómstrar í júní; berin fullvaxin í ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Ber, blöð og rót þessarar urtar eru kælandi, barkandi og forrotnun mótstandandi. Þau eru því góð móti lífsýki, köldu, sem og skyrbjúgi, samt til að þurka upp skarpa vessa úr slæmum kaunum. Blöðin takist í júní, en berin öndverðliga í september, þá fullvaxin eru. Af seyði berjanna og blaðanna takist 2 matspænir í senn, hvörn annann klukkutíma. Dupt af rótinni er gott að strá í holdfúa sár. Af berjunum má búa til mauk með því móti, að merja berin, blanda síðan með sykri eðr hunángi og geyma. 1 matspónn af mauki þessu, blandaðr í pela af vatni, er hollr drykkr fyrir landfarsóttarsjúka, móti hita og þorstá. Berin marin, látin í járnílát, síðan sett í yl, súrna og gefa svartan lög, sem barkar vel skinn, sèu þau þarí lögð, ásamt nokkru af álúni. Berin nýsoðin með álúni gefa fíólet eðr lífrauðan lit, einkum líni og ullu. Blöðin handtèruð á sama hátt lita gult.

b. **Almenn Bláber** (*V. uliginosum*). Blómstrstaunglarnir einblómstraðir. Blöðin umsnúið-eggmynduð, heil á röndum, slètt. Greinarnar sívalar.

Staungullinn sívalr, greinóttr. Blöðin snubbótt, æðótt, slètt, á neðra borði gráleit, á úngum urtum eru blöðin lítið hærð við neðri endann. Blómstrin stærri og bleikari enn á undangángandi,

4skipt í munnann. Dupthnapparnir með stríi. Berin kúlumynduð, með bláleitri dögg.

Blómstrar í júní og júlí.

c. **Mýra-Bláber** (*V. oxycoccos*). Blöðin eggmynduð, heil á röndum, lítið á bakaptr-beygð, hvöss. Staunglarnir skríðandi, þræði-líkir, slèttir.

Rótin aungótt. Staunglarnir trèlíkir, viðvarandi, þèttir, einkum í yztu greinunum. Blöðin missett, stuttleggjuð, á neðra borði gráleit. Þeir einblómstruðu blómstrstaunglar eru margir saman á efri enda greinanna, rauðir, hafa við neðri endann lítil blómstrblöð. Blómstrin lútandi. Krónurnar 4skiptar, ljósrauðar, með ábakaptrbeygðum leppum. Duptberarnir framstandandi. Dupthnapparnir hengja sig þètt utan um þá framstandandi dupthyrzlu. Berin rauð, kúlumynduð.

Blómstrar í júlí.

### 3. Lýng (*Erica*).

a. **Algengt Lýng** (*E. vulgaris*). Dupthnapparnir innilokaðir. Dupthyrzlan framskagandi. Krónan 4skipt, styttri enn bikarinn. Blöðin mótsett, sporótt; ísl. **Beitilýng**.

Rótin greinótt, trèilík. Bolrinn hríslóttr, við rótina liggjandi, greinóttr. Greinarnar sívalar í efri enda blómstur- og blöð-berandi. Blöðin eru í mótsettum 2 röðum, nálmynduð, 3strend, við neðri endann niðrbeygð, slètt, innþrykkt að staunglinum, næstum þökt. Blómstrin eru í klösum, leggjuð, slútandi. Bikarinn 2faldr, sá ytri samanstendr af 4

litlum, eggmynduðum, randhærðum blöðum, sá innri stærri enn krónan, litaðr. Krónan dökk-kjötlituð, stundum hvít, 4skipt. Dupthnapparnir hafa við neðri endann 2 strí. Dupthyrzlan leingri enn bikarinn. Örið 4klofið. Fræhúsið lítið, kringlótt, niðráviðþrykkt, 4blaðað, 4rúmað.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er góð fóðr-urt fyrir sauðfè. Hún hefir og sterkbarkandi eiginligleika; brúkast því til að lita skinn með. Með álúni, jarnviktríli eðr pottösku soðin, litar hún ýmisliga og falliga kaffebrúnt. Sè hún lögð í rúm eðr annarstaðar í hús, koma þar trauðliga mýs eðr rottur.

## 2ur Orða (*Trigynia*) þríkvæntar.

### 4. Marghyrna (*Poligonum*).

a. Útbreidd Marghyrna (*P. aviculare*). Blómstrin í blaðhornunum. Blöðin aflaung, lensulík, snörp á röndum. Sinarnar á axblöðunum strjálar. Staungullinn framáviðliggjandi; ísl. Oddvari, Blóðarfi.

Rótin samanstendr af mörgum seigum aungum. Staungullinn útbreiddr, útskagandi, greinóttr, sívalr, blöðóttr, strikaðr. Blöðin slètt, missett, heil á röndum. Axblaðanna hymnur harðar, hvassar, með fáum, strjálum hymnum. Blómstrin smáleggjuð. Krónurnar rauðar og hvítar. Duptberararnir styttri enn bikarinn. Dupthyrzlurnar mjög stuttar. Fræið 3hyrnt.

Blómstrar frá í júní og til hausts.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi hefir styrkjandi og samandragandi krapt. Hún er því góð móti lífsýki, matarólyst og blóðlátum. Dupt urtarinnar takist 1 full teskeið, hvört dagsmark. Fræ hennar má brúka til manneldis og líkist nokkuð bóghveitigrjónum.

b. Topp - Marghyrna (*P. viviparum*). Staungullinn óskiptr með 1 axini. Blöðin lensulík, tilbaka-undin á röndunum; ísl. Kornsúra.

Rótin þykk, vatnsflöt. Staungullinn upprèttr, neðan hreystraðr. Rótarblöðin aflaung, lensulík, lángleggjuð. Staungulblöðin strikmynduð, lensulík, þau efstu sitjandi, öll heil á röndum, á neðra borð lítið bleikari og lítið hærð. Á efri enda staungulsins er einstakt-strikmyndað, sívalt, glansandi axin. Krónurnar fagr-rauðar, þær neðstu stundum með toppi. Duptberararnir 8. Fræin 3ja hliða.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er barkandi og styrkjandi; hún er því góð móti allslags blóðlátum og lífsýki. Af rótinni búist til seyði, sem drekkist hálfr tebolli í senn, 4sinnum dagliga. Dupt af rótinni takist 1 full teskeið, 3svar dagliga, í vatni eðr mysu. Duptinu er gott að strá í illaluktandi sár og sem eru vessafull; það stemmir og blóðrás úr skurðum. Fræ urtarinnar vandliga þurkað, og síðan til matar búið í mjólkur jukki, gefr vel seðjandi fæðu, ei ólíka bóghveiti, sem er sama kyns og urt þessi.

Með rótinni má og svart lita, sè hún soðin með járnviktríli, sem fæst sumstaðar hèr á landi, svosem á Reykjanesi.

c. **Bitr Marghyrna** (*P. hydropiper*). Blómstrin 6mönnuð, hálf-2kvænt. Blöðin lensulík, bylgjótt. Axinin þræðilík, lútandi. Staungullinn upprèttr.

Rótin aungótt. Staungullinn upprèttr, eðr uppstígandi, sívalr, slèttr, þykkliðóttr. Liðirnir rauðir á neðri röndina. Blöðin heil á röndum, hvöss, án bletta. Axblöðin randhærð. Axinin mjó, laung. Blómstrin hvít eðr rauðhvítleit, utan stúngin. Duptberarnir styttri enn krónurnar. Fræið samanþrykkt.

1 árs urt; blómstrar í ágúst og september.

*Nytsemi og verkun:*

Urtin ver flóm. Með álúni og vínsteini má með henni grænt lita, þó enn betr, láti maðr járnviktríl samanvið. Urtin soðin, viðlögð kinnarnar, sefar tannpínu; item er dupt af velþurkuðum blöðum hennar gott í slæm sár.

d. **Breiðblöðótt Marghyrna** (*P. amphibium*). Blómstrin 5mönnuð, hálf-2kvænt.

Rótin skríðandi, liðótt með görðum. Staunglarnir sívalir, slèttir, slíðraðir af hymnulíkum, heilrönduðum axlablöðum, sveimandi þá urtin vex í vatni, skríðandi við neðri endann, uppreist í broddinn, þá hún vex á þurrlendi. Blöðin missett, leggjuð, breið-lensulík, á röndum smánöbbótt, glansandi á efra yfirborð. Blaðstaunglarnir sívalir, slèttir. Blómstr-axinið sitr á efri enda

staungulsins og er uppreist, þètt. Krónurnar rósrauðar, millum hvörrar einnar, einkum hinna neðstu, er hymnulíkt blómstrblað. Bikarinn trektmyndaðr. Duptberarnir sitja á bikarröndunum, og eru opt styttri enn bikarinn. Dupthyrzlan skipt að miðju. Fræið dökkt, eggmyndað, samanþrykkt.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Rót þessarar urtar er dreifandi og uppleysandi. Hún er því góð móti gulu, lifrarbólgu og meinlætum. Seyði af urtinni drekkist, svo tebollum skipti, 4sinnum dagliga.

e. Lénsublöðótt Marghyrna (*P. persicaria*). Blómstrin 6mönnuð, hálf-2kvænt. Axinin eggmynduð, aflaung, uppreist. Blómstrstaunglarnir hárlausir. Axblöðin randhærð; ísl. Flóarurt.

Rótin aungótt. Staungullinn við neðri enda rótumskjótandi, upprèttr, missett-greinóttr, liðóttr, blöðóttr, sívalr, slèttr, rauðleitr. Blöðin stutt, leggjuð, missett, lensulík, heil á röndum, hvöss, opt niðráviðbeygð, stundum blettótt. Axblöðin slètt, slíðrandi, hymnulík, á röndum lítið hærð. Axinin í efri enda staungulsins og greinanna, á laungum staunglum, uppreist og snubbótt. Blómstrin ljósrauð. Krónan 5- til 6-skipt. Duptberarnir jafnlángir bikarnum. Fræið 3ja hliða.

1 árs urt; blómstrar í júlí, ágùst og septbr.

*Nytsemi og verkun:*

Með blöðum urtar þessarar má gult lita, sè það er litast á, áðr soðið í álúns vatni. Að öðru

leiti hefir hún alla sömu, en þó ei svo kröptuga verkun, sem **Bitra Marghyrnan.**

## 3ja Orða (*Tetragynia*) fjórkvæntar.

### 5. Fjögralaufajurt (*Paris*).

a. **Algeing Fjögralaufajurt** (*P. qvadrifolia*) hefir 4, sjaldnar 5 krans-eggmynduð blöð á staungulendanum; ísl. **Fjögralaufasmári.**

Rótin laung, kjötlíg, skríðandi. Staungullinn upprèttr, óskiptr, rèttr, sívalr, strikaðr, slèttr, 1blómstraðr, blöðóttr einasta í broddinn. Blöðin, af hvörjum finnast 5, sjaldnar 3, eru dökkgræn, hvöss, heil á röndum, slètt, sinótt. Blómstrstaunglarnir eru á staungulendanum fyrir ofan blöðin óskiptir, upprèttir, strendir. Bikarblöðin eggmynduð, lensulík, hvöss, sinótt. Krónublöðin strikmynduð, græn, og sitja missett á móts við bikarblöðin. Þeir strikmynduðu dupthnappar sitja lángs eptir miðju enná grænu duptþráða, og eru grónir þarvið. Ávaxtarhyrzlan með 4 kornum, sívöl, dökkljósblá. Dupthyrzlurnar stuttar, gular. Berið svart, 4rúmað.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:*

Þessi fásèða urt vex í *Búðahrauni.* Hún er svæfandi, verkar uppsölu, mótstendr sinateygjum. Ber hennar eru haldin eitruð. Eptir lærðra manna reynslu, skal hún brúkast geta sem uppsölumeðal, og skal þá rótin malast eðr steytast í dupt, og sè af því tekið ½ til 1½ kvintín. Með

blöðum urtarinnar, sèu þau tekin áðrenn hún blómstrar, og þurkuð, má að *Frankismanna* dæmi lita purpurarautt; skulu þau sjóðast í vatni og síðan í seyðsluna látin ull, sem áðr hefir í álúns vátni soðin verið, og þareptir þurkuð.

---

## 9. Hópr.

### (*Enneandria*) níumannaðar.

### 1sta Orða, (*Trigynia*) þríkvæntar.

1. Rhabarber (*Rheum*). Einginn Bikar. Krónan 4- til 6klofin, æværandi. 2 til 3 ör, utan stýls. 1 hymnótt fræ.

9. Hópr (*Enneandria*) níumannaðar.

1sta Orða (*Trigynia*) þríkvæntar.

1. Rhabarber (*Rheum*).

a. Tvíkvænt Rhabarber (*R. digynum*). Krónan með 4 blöðum. Fræin flöt. Blöðin nýrumlík; ísl. Ólafs-súra.

Rótin með þunnum aungum, laung. Staungullinn uppstígandi eðr upprèttr, nær því blaða- og greinalaus, utan við blómstrin, með ryðlituðu, hymnulíku hreystri við rótina. Blöðin flest við rótina á laungum, strikuðum, slèttum blaðstaunglum, þykk, slètt, nýrumlík, nær því krínglótt, bugðótt á röndum, ljósgræn. Blómstrklasarnir

samansettir af minni klösum. Fræblöðkurnar rauðleitar.

Margra ára urt; blómstrar í ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi hefir mikið líka verkun og Vallarsúran, hvörri hún líkist að smekk.

---

## 10. Hópr.

(*Decandria*) tímannaðar.

### 1sta Orða (*Monogynia*) einkvæntar.

1. Andrómeðusjurt (*Andromeda*). Krónan eggmynduð. Fræhúsið 5rúmað.

2. Mjölber (*Arbutus*). Krónan eggmynduð, við neðri endann gagnsær. Berið 5rúmað.

3. Vetrarlilja (*Pyrola*) Fimm krónublöð. Dupthnapparnir hafa 2 holur. Fræhúsið 5rúmað, opnar sig á hliðunum.

### 2ur Orða (*Digynia*) tvíkvæntar.

4. Steinbrjótr (*Saxifraga*). 5 krónublöð. Bikarinn 5skiptr. Fræhúsið með 2 trjónum, margfrævað.

3ja Orða (*Trigynia*) þríkvæntar.

5. Blöðrujurt (*Cucubalus*). Fræhúsið 3rúmað. Krónublöðin klofin með nöglum, án gynkrans. Bikarinn uppblásinn.

6. Hólurt (*Silene*). Fræhúsið 3rúmað. Krónublöðin tvíklofin með gynkransi.

7. Stjörnujurt (*Stellaria*). Fræhúsið 1rúmað. Krónublöðin 2 skipt, opin.

8. Sandjurt (*Arenaria*). Fræhúsið 1-rúmað. Krónublöðin heil, opin.

4ða Orða (*Pentagynia*) fimmkvæntar.

9. Steinajurt (*Sedum*). 5 Fræhús. 5 hunángshreystur við enða ávaxtarhyrzl-unnar. Krónan 5blöðótt.

10. Ljósberi (*Lychnis*). Fræhúsið 5-eðr 1rúmað, margfrævað. Bikararnir pípu-myndaðir, hymnulíkir.

11. Músareyra (*Cerastium*). Fræhúsið 1rúmað. Krónublöðin 2klofin. Bikarinn 5blöðóttr.

12. Skurfa (*Spergula*). Fræhúsið 1-rúmað. Krónublöðin óskipt. Bikarinn 5-blöðóttr.

## 10. Hópr (*Decandria*) tímannaðar.

### 1sta Orða (*Monogynia*) einkvæntar.

#### 1. Andrómeðusurt (*Andromeda*).

a. Algeing Andrómeðusurt (*A. hypnoides*). Blöðin þökt, alilík. Blómstrleggirnir einstakir á staungulendanum. Krónurnar kúlumyndaðar, klukkulíkar.

Rótin þræðilík. Staungullinn framáviðliggjandi, greinóttr, þèttblöðóttr. Blöðin græn, nálmynduð, þètt, fín, glansandi, hvöss. Blómstrstaungullinn slèttr, niðráviðbeygðr. Krónan gul. Bikarblöðin eggmynduð.

Blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

#### 2. Mjölber (*Arbutus*).

a. Fjalla Mjölber (*A. alpina.*) Bolrinn framáviðliggjandi. Blöðin hrukkótt, snubbótt.

Bolrinn trèlíkr, marggreinóttr, með ljósdökkum, afflysjandi berki. Blöðin umsnúið-eggmynduð, missett, smánöbbótt, snubbótt, hafa þèttar æðar, niðrhlaupandi í 1 legg. Blómstrin sitja í klösum í greina-endunum. Krónurnar hvítar. Við blómstrstannglana eru fínhærð blómstrblöð. Berin svört, kúlulík, hol í endann.

Blómstrar í júlí.

b. Algeingt Mjölber (*A. uva ursi*). Bolirnir framáviðliggjandi. Blöðin heil á röndum; ísl. Sortulýng, Mulníngr.

Rótin trèlík, greinótt. Bolrinn trèlíkr, framáviðliggjandi, greinóttr, með slèttum berki. Blöðin missett, stuttleggjuð, umsnúið-eggmynduð, snubbótt, slètt, skinnilík, æðamörg, stinn. Blómstrin sitja í stuttum, lítið lútandi klasa í enda greinanna og staungulsins. Krónan eggmynduð, hefir kjötlit. Við hvörn staungul sitja lítil, lituð blómstrblöð. Berið niðrþrykkt, kúlumyndað, rautt, 5-frævað.

Blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er mjög barkandi, má því með varúð brúkast; hún er góð móti lífsýki, sèu eingir verkir meðfylgjandi; item móti munnsviða og öðru húðleysi líkamans. Seyði af blöðum urtarinnar takist 1 matspónn 3svar dagliga. Seyði þessu er gott að halda í munni sèr við munnsviða, og til að þvo með húðlausa staði. Dupt af blöðunum og berjunum takist hálf teskeið í spæni fullum af mysu, 2svar dagliga, er það haldið gamallt gott meðal móti blöðrusteini.

Með sortulýngi og ati litast svart, sem almenníngi er kunnugt; hvarum Herra konferenzráð *M. Stephensen* ritað hefir ágætar varúðarreglur, sjá Klaustrpóst 1818, Nr. 8.

### 3. Vetrarlilja (*Pyrola*).

a. Hríngblöðótt Vetrarlilja (*P. rotundifolia*). Duptberarnir uppstígandi. Dupthyrzlan niðráviðbeygð. Blómstrklasinn margblómstraðr; ísl. Vetrarlaukr.

Rótin þræðilík, skríðandi. Staunglarnir upprèttir, óskiptir, strendir, blöðóttir. Blöðin missett, leggjuð, næstum kringlótt, slètt, heil á röndum eðr lítið nöbbótt, einkum við neðri endann; á staungulendanum sitr strendr klasaleggr, sem hefir 3 til 4 missett, snubbótt, lensulík, dökkrauð hreystur. Klasinn margblómstraðr. Blómstrstaunglarnir missettir, niðráviðbeygðir, og hafa við neðri endann hvast, lensulíkt blómstrblað. Krónurnar stórar, hvítar. Dupthnapparnir skurðóttir. Dupthyrzlan leingri enn duptberarnir. Örið hjólmyndað. Ávaxtarhyrzlan 5skurðótt.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Te af blöðum urtarinnar er gott við brjóstveiki.

b. Einnar-síðu Vetrarlilja (*P. secunda*) hefir einnar síðu blómstrklasa.

Rótin skríðandi með laungum aungum. Staungullinn framáviðliggjandi, uppstígandi, hreystraðr, blöðóttr, greinóttr. Blöðin minni enn á undangángandi, eggmynduð, hvöss, smánöbbótt, netilíktæðótt. Klasastaungullinn upprèttr, settr 4 til 6 grænum, lensulíkum, hvössum hreystrum. Klasinn marg- og þètt-blómstraðr, styttri enn á undangángandi. Blómstrin öll snúa 1 veg. Við neðri enda hvörs blómstrstaunguls er hvítt, lensulíkt blómstrblað. Bikarlepparnir stuttir, grænir, ábakaptr-undnir. Krónublöðin hol, með innáviðbeygðum oddi, hvítleit. Dupthyrzlan rètt, eðr lítið uppstígandi, leingri enn á undangángandi.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst. *Nytsemi og verkun:* sama sem undangángandi.

## 2ur Orða (*Digynia*) tvíkvæntar.

### 4. Steinbrjótr (*Saxifraga*).

a. **Nabla Steinbrjótr** (*S. cotyledon*). Rótarblöðin í hópum, túngumynduð, brjósktennt. Staungullinn blöðóttr, toppmyndað-skiptr í endann. Bikararnir settir kyrtilberandi hárum; ísl. Klettafrú.

Staungullinn upprèttr, slèttr, frá neðri enda blómstrsettr. Blöðin stinn, breið, slètt, þau yztu hol, þau innri ávöl. Við enda hvörrar blómstrgreinar er eitt eggmyndað-lensulíkt, hvast, tennt blað; sömuleiðis við sèrhvörn blómstrstaungul, einúngis eru þau minni. Hún hefir mörg blómstr. Krónublöðin næstum kringlótt, hvít. Bikarblöðin randhærð.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Blöð þessarar urtar eru góð, viðlögð þar sem maðr brennir sig.

b. **Stjörnu Steinbrjótr** (*S. stellaris*). Blöðin nöbbótt. Staungullinn blaðlaus. Krónublöðin hvöss. Fræhúsið fyrir ofan bikarinn.

Rótin þètt, aungótt. Staungullinn upprèttr, við neðri endann blöðóttr, hærðr, sívalr, í broddinn greinóttr. Blöðin umsnúið-eggmynduð, fleigmynduð, hvöss, nöbbótt, hærð. Blómstrstaungullin fáblómstraðr. Blöðin við blómstrin lensulík.

Krónublöðin hvít, lítið gul innantil, við neðri endann eggmynduð, 3sinótt. Bikartopparnir beygðir á bak aptr. Fræhúsið slètt. Fræin mörg, snörp.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

c. Snjó-Steinbrjótr (*S. nivalis*). Blöðin umsnúið-eggmynduð, nöbbótt. Staungullinn blaðlaus. Blómstrin þètt saman. Fræhúsið hálft fyrir neðan bikarinn.

Rótin þykk, með laungum aungum. Staungullinn sívalr, límhærðr, sèrdeilis í toppinn, óskiptr, stundum greinóttr. Við hvörja grein vex eitt lensulíkt, hvast blað. Blöðin breiðari og þykkri enn undangángandi, nöbbótt einasta í efri endann, þètt saman. Krónublöðin hvít, umsnúið-eggmynduð, hafa græna bletti, snubbótt, hríngnöbbótt. Bikarinn sitr á miðri ávaxtarhyrzlunni.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

d. Ferstrendr Steinbrjótr (*S. oppositifolia*). Staungulblöðin eggmynduð, mótsett þètt, þau efstu randhærð; ísl. Snjóblómstr, Vetrarblóm, Lambablóm.

Rótin aungótt. Staunglarnir mislángir, framáviðliggjandi, greinóttir, stundum rótum skjótandi. Greinarnar þèttblöðóttar, þær blómstrberandi uppreistar. Blöðin þètt, snubbótt, þykk, rennótt, hryggjótt, hol, þau efstu í enda greinanna missett, þau neðri visin, þá þau efri eru græn. Blómstrin eru í enda greinanna og staungulsins. Krónublöðin dökkrauð, sinótt, umsnúið-eggmynduð.

Blómstrleggirnir óskiptir. Bikarinn sitr á miðri ávaxtarhyrzlunni.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:*

Af Steinbrjót gefast hèr í landi 16 tegundir, og hafa nokkrar af þeim sama krapt og þessi. Hann er nefniliga þvagdreifandi og mýkjandi. Hann mótstendr og eyðir þvagstemmu, og brýtr steina, leiðir tíðir kvenna. Te af urtinni drekkist, svo tebollum skipti, 4 sinnum dagliga. Bakstr af urtinni útvortis, dreifir bólgu og ígerðum, eðr gjörir þær út.

e. **Útlęggjaðr Steinbrjótr** (*S. hirculus*). Staungulblöðin missett, lensulík. Staungullinn upprèttr. Ávaxtarhyrzlan eggmynduð, ofar enn bikarinn.

Rótin aungótt. Staungullinn upprèttr, óskiptr eðr stuttgreinóttr, við neðri endann sívalr, blöðóttr, ofantil ryðlitaðr. Blöðin snubbótt, slètt, lítið randhærð. Á staungulbroddinum spretta fyrir blómstrunartímann lútandi blómstur, sem eru mikið stærri enn á undangángandi. Krónublöðin umsnúið-eggmynduð, sinótt, gul, með dökkum stúngum innan og neðantil. Ávaxtarhyrzlan aflaung.

Margra ára urt; blómstrar í ágùst og septbr.

*Nytsemi og verkun:* sem undangángandi.

f. **Tannhærðr Steinbrjótr** (*S. aizoides*). Staungulblöðin strikmynduð, missett, tenntrandhærð. Staungullinn við neðri endann niðráviðliggjandi. Ávaxtarhúsið niðráviðþrykkt, hálft fyrir neðan bikarinn.

Rótin aungótt. Staunglarnir uppstígandi, óskiptir á þeim niðráviðliggjandi, en í uppreista partinn greinóttir, sívalir. Blöðin missett, randhærð, hafa litlar tennr. Blómstrin sitja í blöðóttum toppi. Bikarinn uppreistr. Krónublöðin jafnlaung bikarnum, útbreidd, gul með dökkum blettum.

Margra ára urt; blómstrar í ágúst.

*Nytsemi og verkun:* sama.

g. Þvali Steinbrjótr (*S. cernua*). Blöðin hendilík, leggjuð. Staungullinn laukberandi. Ávöxturinn ofar enn bikarinn. Krónublöðin innþrykkt í broddinn.

Rótin aungótt, sett lensulíku hreystri, opt kornótt. Staungullin upprèttr, greinóttr, í broddinn stundum óskiptr, einblómstraðr, sívalr, slèttr, blöðóttr. Rótarblöðin og þau neðstu staungulblöð lángleggjuð, missett, nýrumlík-krínglótt, fagrgræn, skipt í 5 til 7 flipa, slètt. Miðstaungulblöðin stuttleggjuð, 3skipt, þau efstu sitjandi, lensulík, og hafa í hornunum rauðan lauk. Blómstrin einstök á greinunum eðr staunglinum. Bikarlepparnir aflángir, hærðir. Krónublöðin hvít, randskorin, 3sinótt.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

h. Lækjar Steinbrjótr (*S. rivularis*). Blöðin hendilík, leggjuð, þau efstu rekumynduð. Staungullinn fáblómstraðr.

Rótin aungótt. Ávaxtarhúsið hálft fyrir neðan blómstrið. Á rótinni spretta 1 eðr 2 staunglar, sem eru upprèttir, óskiptir, optast 2blómstraðir, slèttir. Rótarblöðin lángleggjuð, innskorin í 5

snubbótta flipa, slètt. Staungulblöðin stuttleggjuð, þau efstu óskipt, sitjandi. Blöðin við blómstrin lensulík. Bikarinn límhærðr við neðri endann. Krónublöðin hvít, lítil, snubbótt.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

i. **Þríklofinn Steinbrjótr** (*S. tridactylites*). Blöðin fleigmynduð, 3 til 5skipt, missett, þau efstu óskipt. Blómstrin í einum toppi. Ávaxtarhúsið fyrir neðan bikarinn.

Rótin aungótt. Staungullinn upprèttr, greinóttr eðr óskiptr, sívalr, rauðleitr, vessamikill, einsog öll urtin er. Blöðin eru saman við rótina, og missett á staunglinum, hin fyrri 2- til 5-skipt. Þau síðari optar lensulík, þykk, hærð. Blómstrtopprinn blöðóttr. Krónublöðin umsnúið-eggmynduð, lítil, hvít. Bikarinn og ávöxturinn hærðr.

1 árs urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:*

Rót þessarar urtar hefir uppleysandi krapt; hún er því góð móti gulu. Seyði af rótinni drekkist, svo tebollum skipti, 3svar dagliga, læknar hana.

k. **Fimmtenntr Steinbrjótr** (*S. petræa*). Blöðin heil og 3tennt. Staungulblöðin 5-tennt, þau efstu 3klofin. Blómstrstaunglarnir 3blómstraðir.

Rótin með fínum, þèttum aungum. Staungullinn upprèttr, óskiptr, stundum sívalr, greinóttr, rauðleitr. Blöðin sitja þètt saman, kransmynduð við rótina. Blöðin við blómstrin strikmynduð, snubbótt. Greinarnar í broddinn mis-

settar. Staunglarnir upprèttir. Bikarinn hefir litla eggmyndaða leppa, og er fyrir ofan ávöxtinn. Krónublöðin umsnúið-eggmynduð, lítið randskorin, hvít. Urtin er þvöl, líkist mjög næstundangángandi.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

l. Hrísl óttr Steinbrjótr (*S. cæspitosa*). Rótarblöðin samsett, þykk, strikmynduð, heil, 2skipt; á neðra borð sinótt. Staungullinn næstum blaðlaus, 2blómstraðr.

Rótin aungótt. Staungullinn upprèttr, sívalr. Rótarblöðin þykk, randhærð, snubbótt, stundum heil á röndum, opt 3klofin í broddinn, á neðra borð 3sinótt. Á staunglinum sitja 2 blöð, hvörra hið efra er strikmyndað, óskipt; það neðra 3klofið í broddinn. Blómstrstaunglarnir á efri enda staungulsins upprèttir. Bikarinn límhærðr, með snubbóttum leppum. Krónublöðin gulleit, umsnúið-eggmynduð, 3sinótt. Fræhúsið næstum neðanúr blómstrinu.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

m. Grænlenzkr Steinbrjótr (*S. cæsp. Grænlandica*), með hendilíkum, margskiptum, hvassleppóttum blöðum og uppreistum staungli.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

n. Handblöðóttr Steinbrjótr (*S. palmata*). Blöðin hærð, hendilík, 5- til 3skipt. Staungullinn blöðóttr. Blómstrin í 1 toppi. Krónublöðin næstum kringlótt.

Rótin þèttaungótt. Staungullinn upprèttr, sívalr, hærðr, fáblöðóttr, hefir stundum ófrjófsama síðuleggi, á hvörjum blöðin sitja þètt saman, í efri endann stjörnumynduð. Blöðin þekkjast frá ennar undangángandi, við að þau eru loðin, mjórri við neðri endann og djúptskiptari í broddinn. Rótarblöðin þètt saman. Staungulblöðin 3 eðr 4 með aflaungum leppum. Blómstrtopprinn hefir 3 eðr 4 stór blómstur. Bikarinn er sem á undangángandi, en minna snubbóttr. Krónublöðin gulhvít, 3sinótt. Fræhúsið hálft fyrir neðan bikarinn.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

o. **Þríyddr Steinbrjótr** (*S. tricuspidata*). Rótarblöðin samsett, fleigmynduð, randhærð, hvöss, 3tennt. Staunglarnir uppstígandi. Blómstrin í klasa. Krónublöðin lensulík, 3svar leingri enn bikarinn.

Rótin aungótt, greinótt. Staungullinn uppstigandi, sívalr, slèttr, í efri endann skiptr. Blöðin næstum lensulík; fleigmynduð, breiðari í broddinn, við að 2 stórar tennr standa beint út, þèttlögð hvört ofanyfir annað á enum uppstígandi hluta staungulsins, missett á efra partinum. Blómstrin í klösum á laungum staunglum, stór, gul. Bikararnir litlir.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

p. **Mosalíkr Steinbrjótr** (*S. hypnoides*). Blöðin strikmynduð, heil og óskipt. Renglurnar framáviðliggjandi. Staungullinn næstum blaðlaus. Krónublöðin sporeskjumynduð, aflaung.

Rótin með laungum aungum. Staungullinn hálfr niðráviðliggjandi, hálfr uppreistr, neðri partr hans blöðóttr. Blöðin missett, hvöss, hærð. þau neðri, samt blöðin á renglunum, strikmynduð, innáviðbeygð. Blómstrtopprinn útbreiddr, límugr. Krónurnar stórar. Bikarlepparnir hvassir, styttri enn krónublöðin, sem eru hvít, 3sinótt. Ávaxtarhúsið hálft fyrir neðan blómstrið.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

q. Fleigmyndaðr Steinbrjótr (*S. cuneifolia s. punctata*). Blöðin fleigmynduð, snubbótt, hríngbugðótt. Staungullinn blaðlaus. Blómstrin í einum toppi.

Rótin aungótt. Staungullinn uppstígandi, við neðri endann blöðóttr, ofantil nakinn, óskiptr. Blöðin eru í 2 krönsum, breiðfleigmynduð, niðrhlaupandi í 1 legg. Blöðin við blómstrin strikmynduð, hvöss, missett. Krónublöðin leingri enn bikarinn, snubbótt, aflaung, bleikrauð. Bikarblöðin beygð á bak aptr.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

### 3ja Orða (*Trigynia*) þríkvæntar.

#### 5. Blöðrujurt (*Cucubalus*).

a. Almenn Blöðrujurt (*C. behen*). Blómstrin lútandi, í einum toppi. Krónublöðin lítið klofin. Bikarinn hart uppblásinn, netmyndað-æðóttr. Blöðin lensulík. Staung-

ullinn upprèttr; ísl. **Púnga-gras, Holurt, Hjartagras.**

**Rótin** þètt, aungótt, lítið greinótt. **Staunglarnir** uppstígandi við rótina, síðan upprèttir, greinóttir, slèttir, sívalir, blágráir. **Blöðin** breið, lensulík, hvöss, slètt, blágrá, héil á röndum, við rótina þètt saman, næstum rekumynduð. **Blómstrtopprinn** 2skiptr. **Bikarinn** hvítleitr, gagnsær, og gegnumþrykktr með rauðleitum og grænum æðum. **Krónublöðin** hvít, optar án ginkrans. **Ávaxtarhúsið** lifrautt. **Fræhúsið** eggmyndað.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Urtin er sæmilig fóðr-urt. Blöð hennar eta menn sem kál, og sömuleiðis rótina, hvaraf mala má mjöl. Blómstur hennar lækna kláða.

b. **Stranda Blöðrujurt** (*C. maritimus*). Blómstrin næstum einstök á staungulendanum. Krónublöðin klofin með ginkransi. Bikararnir uppblásnir, slèttir, netmyndaðæðóttir. Blöðin strikmynduð, lensulík. Staungullinn niðráviðleggjandi.

Urt þessi líkist mjög undangángandi. **Rótin** skríðandi. **Staunglarnir** næstum framáviðliggjandi, marg-greinóttari enn á undangángandi, minni, færri blómstur. **Blöðin** mjórri á röndunum, smátenntari. **Krónublöðin** djúpskiptari. **Fræhúsið** krínglótt.

Margra ára urt; blómstrar í ágúst og septbr.

*Nytsemi og verkun:* sama sem undangángandi.

### 6. Holurt (*Silene*).

a. **Staungullaus Holurt** (*S. acaulis*) utan staunguls. Blöðin strikmynduð, neðan randhærð. Blómstrstaunglarnir einstakir, fáblómstraðir; ísl. **Lambagras, Holtarót, Harðasægjur, Gulltoppr.**

Rótin óskipt, laung; af henni spretta margar þèttar greinir, sem mynda gras-svörð. Blöðin þètt saman sitjandi, strikmynduð, umfaðmandi, opin með litlum kjöl; í enda greinanna sitr stuttr, sljór, 4strendr, fínn blómstr-staungull. Bikarinn klukkumyndaðr, 5klofinn. Krónublöðin ljósrauð, augsjáanliga krónuð. Fræhúsið sívalt, leingra enn bikarinn.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Rót urtarinnar soðin fyrst leingi í vatni, síðan í mjólk, er sæmiligr matr. Eins má og rótina á glæðum steikja, og þannig með smjöri til matar hafa.

### 7. Stjörnujurt (*Stellaria*).

a. **Lánghnöppótt Stjörnujurt** (*S. cerastoides*). Blöðin sporeskjumynduð, aflaung, snubbótt. Staunglarnir 2blómstraðir. Bikararnir 1sinóttir, dúnhærðir.

Rótin skríðandi. Staungullinn framáviðliggjandi, útbreiddr, greinóttr við neðri endann, blöðóttr í broddinn, sívalr, slèttr. Blöðin heil á röndum, lítið til einnrar síðu. Bikarblöðin snubbótt, á röndunum hvíthymnótt, neðantil hærð. Krónu-

blöðin hvít, nær því tvöfaldt leingri enn bikarblöðin, lítið klofin eðr djúpt randskorin. Ávöxturinn eggmyndaðr.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

b. Tvíblómstruð Stjörnujurt (*S. biflora*). Blöðin alilík. Blómstrstaunglarnir 1- eðr 2blómstraðir. Krónublöðin randskorin. Ávaxtarhúsið aflángt. Bikarinn rennóttr.

Rótin með fínum, laungum aungum. Staunglarnir niðráviðbeygðir, greinóttir, þèttblaðaðir. Blöðin mótsett, hvöss. Blómstrstaunglarnir í enda greinanna. Blómstrin lítil. Bikarinn eins stór og krónan, hvass. Krónublöðin hvít, lítið randskorin.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

8. Sandjurt (*Arenaria*).

a. þykkblöðótt Sandjurt (*A. peploides*). Blöðin eggmynduð, kjötlig, snubbótt. Bikararnir snubbóttir, sinalausir; ísl. Berjaarfi, Smeðjukál, Fjöruarfi.

Rótin samanstendr af laungum, skríðandi, þræðilíkum aungum. Staunglarnir framáviðliggjandi, útbreiddir, greinóttir, slèttir, blöðóttir, lítið strendir. Blöðin mótsett, sitjandi, heil á röndum, beygð á bak aptr, slètt, hryggjótt, hvass-strend, þètt saman. Blómstrin eru legglaus í blaðhornunum. Bikarblöðin kjötlig, sporöskjulík, snubbótt. Krónublöðin rekumynduð. Fræhúsið næstum kúlumyndað. Við neðri enda hvörs duptbera, er einn

hunángskirtill, 3 hvöss ör. Fræin umsnúið-egg-mynduð, stúngin, svört.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi má til matar brúkast, sem kál tilbúin.

b. Margleggjuð Sandjurt (*A. multicaulis*). Blöðin eggmynduð, sinalaus, sitjandi, hvöss. Krónurnar stærri enn bikarinn.

Rótin með laungum aungum. Staunglarnir framáviðliggjandi, greinóttir, við neðri endann uppstígandi, lángir. Blöðin kjötlig, með einstökum fínum hárum við neðri endann, þètt saman á öllum staunglinum. Á efri enda staungulsins er 1 eða 2 blómstur, á burstamynduðum staunglum. Bikarblöðin mikið hvöss, eggmynduð, fínsinótt. Krónublöðin stór, hvít. Fræhúsin eggmynduð.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

c. Smákrónuð Sandjurt (*A. serpyllifolia*). Blöðin eggmynduð, nærri sitjandi, snörp. Bikararnir loðnir, 5sinóttir.

Rótin með fínum aungum; af henni vaxa margir uppstígandi, stinnir, 3skiptir, greinóttir, stundum flatir, dúnhærðir staunglar. Blöðin smá, heil á röndum, þètt saman á miðjum staunglinum, hvassari í broddinn. Bikarblöðin eggmynduð, hvöss á röndum, stinn-hymnótt, þau innri 3sinótt. Krónublöðin heil, styttri enn bikarblöðin. Fræhúsin eggmynduð. Fræin gul.

Eins árs urt; blómstrar í júní og júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

d. **Randhærð Sandjurt** (*A. ciliata*). Blöðin eggmynduð, sinótt, randhærð, hvöss.

Rótin með laungum aungum. Staunglarnir útbreiddir, greinóttir, snubbóttir, 4strendir, á strendunum snarpir. Blöðin eggmynduð, lítil, kjötlig, mjórri neðan. Greinarnar 2blómstraðar. Bikarblöðin eggmynduð-lensulík, rennótt, sinótt. Á röndum hymnótt. Krónublöðin lítið stærri enn bikarinn. Fræhúsið aflángt.

Blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

## 4ða Orða (*Pentagynia*) fimmkvæntar.

### 9. Steinaurt (*Sedum*).

a. **Beisk Steinaurt** (*S. acre*). Blöðin missett, næstum eggmynduð, kjötlig, hnúskótt, aðvaxin-sitjandi. Blómstrskúfrinn 2skiptr, blöðóttr; ísl. **Helluhnoðri**.

Rótin aungótt. Staunglarnir framáviðliggjandi, þèttir, marggreinóttir, slèttir, sívalir, þèttblöðóttir, einkum greinarnar. Blöðin missett, þökt, snubbótt, á innra borð samgróin við staungulinn, græn eðr rauðleit. Krónublöðin fagr-gul, hvöss. Bikarblöðin snubbótt.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er blóðhreinsandi, vessa þynnandi, uppleysandi, forrotnun mótistandandi. Hún verkar uppsölu og niðrgáng. Hún er því góð móti skyrbjúgi, nýrnasteini, kveði, hósta, harðlífi, og

óhreinindum magans. Urtin ný, soðin í mysu, kann að brúkast, svo matspónum skipti, þartil hún verkar. Saft, pressuð af urtinni, takist 2 teskeiðar í senn, hvörn hálfan tíma til uppsölu. Hèraðauki er saftin, sem blóðhreinsandi meðal, gott meðal móti krabbameinum og slögum. Urtin þurkuð, getr og brúkast í seyði, 2 matspænir í senn, hvörn tíma til þess verkar.

b. **Engelsk Steinaurt** (*S. annuum s. anglicum*). Blöðin nærri missett, eggmynduð, kjötlig, hnúskótt, aðvaxin-sitjandi. Blómstrskúfrinn 2skiptr, blaðlaus.

Rótin aungótt. Staunglarnir þèttir, útbreiddir, slèttir, blöðóttir, rauðleitir. Greinarnar upprèttar. Blöðin missett, mótsett, blágrá, þètt saman. Blómstrskúfrinn klasalíkr. Blómstrin stuttleggjuð, uppreist. Bikarblöðin snubbótt. Krónublöðin hvöss, hvít, hafa rauðan kjöl, og eru rauðstúngin á broddinn. Fræhúsið slètt.

Eins árs urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

c. **Bjargsteinaurt** (*S. saxatile s. rupestre*). Blöðin hálfsívöl, snubbótt, laus við neðri endann. Staungullinn greinóttr, niðrávið-liggjandi.

Rótin aungótt, lítið skríðandi. Staungullinn uppstígandi, greinóttr við neðri endann, sívalr, blöðóttr. Þau neðstu blöð skammvinn. Blöðin vaxa óreglulig, eru kjötlig, slètt. Blómstrin gul, sitja á bakaptrbeygðum greinum. Krónublöðin hvöss. Bikarblöðin styttri enn krónublöðin, snubbótt.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

d. Loðin Steinaurt (*S. villosum*). Blöðin missett, strikmynduð, ávíðflöt, hærð, einsög blómstrstaunglarnir. Staungullinn upprèttr.

Rótin með fínum aungum. Staungullinn upprèttr, sívalr, slèttr, greinóttr, við neðri endann hærðr, í broddinn blöðóttr. Blöðin snubbótt, kjötlig, fínhærð, einkum þau efstu. Blómstrtopprinn skúfmynðaðr í staungulendanum. Bikarinn snubbóttr, límhærðr. Krónublöðin breið, snubbótt, hvít, með rauðum sinum. Fræhúsin hvöss, mjó, eggmynduð.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

e. Hvít Steinaurt (*S. album*). Blöðin aflaung, sívöl, snubbótt, opin, slètt. Blómstrtopprinn greinóttr.

Rótin aungótt. Staungullinn skríðandi, neðantil greinóttr, sívalr, slèttr, rauðleitr, þykkari um miðju enn víð neðri endann. Blöðin slètt, kjötlig, flöt á efri hlið, þykkri í broddinn enn neðan, blá- eðr rauð-græn, þètt saman, einkum í greina-endunum. Blómstrtopprinn á staungulendanum, missett-greinóttr. Bikarblöðin lítil, slètt, kringlótt, snubbótt. Krónublöðin hvít, með rauðum strikum utanvert. Duptþræðirnir hvítir. Duptknapparnir purpuralitir. Dupthyrzlan rauðleit.

Margra ára urt; blómstrar í ágúst og septbr.

10. Ljósberi (*Lychnis*).

a. Aungótt-blómstraðr Ljósberi (*L.*

*flos cuculi*). Krónublöðin 4skipt. Fræhúsið næstum kúlumyndað; ísl. Múkahetta.

Rótin aungótt, greinótt. Staungullinn upprèttr, strendr, skurðóttr, liðóttr, snarpr, utanvert dökkrauðr, ofantil límugr. Blöðin mótsett, neðantil samvaxin, mjó, lensulík, slètt. Blómstrklasinn í efri enda staungulsins upprèttr, tvískiptr. Bikarinn sívalr, eggmyndaðr, dökkrauðr. Krónublöðin ljósrauð. Lepparnir misstórir, linir.

*Nytsemi og verkun:* Sæmilig fóðr-urt.

b. Límugr Ljósberi (*L. viscaria*). Krónublöðin óskipt. Fræhúsið 5rúmað.

Rótin lítið greinótt, aungótt. Staungullinn upprèttr, liðóttr, sívalr, slèttr, undir liðunum límugr. Blöðin samvaxin við neðri endann, strikmynduð, lensulík, slètt, þètt saman, leingri við rótina. Blómstrstaungullinn þèttr, í staungulendanum. Bikarinn sívalr, hymnulíkr, rauðleitr. Krónublöðin fagr-rauð, lítið randskorin. Fræhúsið eggmyndað.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

c. Fjalla Ljósberi (*L. alpina*). Urtin slètt. Krónublöðin 2klofin. Blómstrin sitja í skýlumynduðu höfði; ísl. Kveisugras, Augnfræ.

Rótin þykk. Staungullinn upprèttr, einstakr, óskiptr, slèttr, sívalr. Blöðin strikmynduð, alilík, skurðótt, hvöss, slètt, þètt saman við rótina, mótsett, umfaðmandi, fá á staunglinum. Blöðin við blómstrin gagnsær, blómstrin þètt. Krónu-

blöðin án ginkrans, hvöss, fagr-rauð, lítið klofin. Urtin hefir 4 dupthyrzlur.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

11. Músareyra (*Cerastium*).

a. Almennt Músareyra (*C. vulgatum*). Urtin límug, loðin. Blöðin eggmynduð. Krónublöðin jafnlaung bikarblöðunum. Blómstrin leingri enn blómstrstaunglarnir.

Rótin aungótt. Urtin bleikgræn. Staungullinn framáviðliggjandi, greinóttr, sívalr, blöðóttr. Blöðin sitjandi, snubbótt, eggmynduð, stundum mjó-eggmynduð, heil á röndum. Blómstrin sitja þar sem urtin skiptir sèr á smástaunglum, hvörra efstu eru leingstir. Bikarblöðin lensulík, hvöss á röndum, hymnótt, einkum þau innstu. Krónublöðin aflaung, randskorin, hvít. Fræhúsið sívalt, lítið bogið, leingra enn bikarinn. Fræin ójöfn, gul.

Eins árs urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

b. Límugt Músareyra (*C. viscosum*). Urtin límug, loðin, útbreidd. Blöðin lensulík, aflaung.

Rótin aungótt. Urtin öll laung, þètthærð. Staunglarnir útbreiddir á allar síður, sívalir, blöðóttir, í endann skiptir. Blöðin mjórri við neðri endann, snubbótt; þèttust saman neðantil og í broddi staungulsins. Blómstrin sitja þar sem staunglarnir skipta sèr á leggnum, lítið leingri enn bikarinn, niðráviðbeygðir eptir blómstrunina.

Bikarblöðin lensulík, á röndum hvítgljáandi. Krónublöðin hvít, leingri enn bikarinn. Fræhúsið sívalt, áviðbogið, leingra enn bikarinn. Fræin hrukkótt.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

c. **Fjalla Músareyra** (*C. alpinum*). Blöðin sporeskjulík, nakin og hærð. Blómstrtoppurinn 2skiptr, fáblómstraðr, blöðóttr. Fræhúsið aflángt, ábakaptrbeygt.

Rótin aungótt, skríðandi. Á henni vaxa margir, þèttir saman, upprèttir, sívalir, við neðri endann slèttir, í broddinn hærðir, blöðóttir, óskiptir, fáblómstraðir staunglar. Blöðin mótsett, snubbótt, hærð eðr slètt, þètt, lítil við rótina, stærri og færri á staunglinum. Blómstrstaunglarnir lángir, hèrumbil 3 á enda staungulsins. Blómstrblöðin lensulík, missett og mótsett. Bikarblöðin lensulík, hvöss á röndum, glansandi, hvít-hymnótt. Krónublöðin stærri enn bikarinn, hvít, umsnúiðeggmynduð, lítið klofin. Fræhúsið tennt í broddinn.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

d. **Breiðblöðótt Músareyra** (*C. latifolium*). Blöðin sporeskjulík, snörp. Blómstrstaunglarnir í staungulendanum, óskiptir, næstum einstakir. Fræhúsið eggmyndað.

Rótin aungótt. Af henni spretta margir hálfupprèttir, þèttblöðóttir, sívalir, 1blómstraðir staunglar. Blöðin eggmynduð, sporeskjulík, umfaðmandi, þètt- og stinnhærð. Blómstrstaunglarnir jafnlángir staunglinum, stinnhærðir, sívalir,

1blómstraðir án blómstrblaða. Bikarblöðin opin, snubbótt. Krónublöðin hvít, umsnúið-hjartmynduð. Fræhúsið eggmyndað.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

### 12. Skurfa (*Spergula*).

a. **Almenn Skurfa** (*S. arvensis*). Blöðin í krönsum. Blómstrstaunglarnir niðráviðbeygðir eptir blómstrunartímann. Fræin nýrumlík.

Rótin þètt, aungótt. Staunglarnir liggjandi, ofantil upprèttir, greinóttir, opnir, sívalir, slèttir, liðóttir, lítið hærðir. Blöðin alilík, strikmynduð, slètt, hærð, vessafull, dökkgræn, skurðótt á neðra borð. Blómstrtopparnir í staungulendanum margblómstraðir, 2skipt-útstandandi. Blómstrstaunglarnir 1blómstraðir, dúnhærðir, upprèttir fyrir og um blómstrunartímann, en niðrhángandi eptirá. Bikarblöðin hærð, hvít á röndum. Krónublöðin fleingri enn bikarinn, eggmynduð, hvít. Fræhúsið eggmyndað, leingra enn bikarinn.

Eins árs urt; blómstrar í júní, júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:* afbragðsgóð fóðr-urt.

b. **Görðótt Skurfa** (*S. nodosa*). Blöðin mótsett, alilík, jöfn, þau efstu í bindinum. Bikarinn sinalaus.

Rótin aungótt. Urtin ljósgræn. Staunglarnir þèttir, framáviðliggjandi, við efri endann uppstígandi, sívalir, þræðilíkir, þèttliðóttir, slèttir, fáblómstraðir. Blöðin stutt, umfaðmandi, slètt,

stundum lítið hærð. Blómstrstaunglarnar einstakir, einblómstraðir, í efri staungulendanum, lútandi fyrir blómstrunartímann. Bikarblöðin eggmynduð, hryggjótt, slètt, smánöbbótt. Krónublöðin hvít, leingri enn bikarinn. Fræhúsið ogsvo leingra enn bikarinn.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:* góð fóðr-urt.

c. **Lángleggjuð Skurfa** (*S. saginoides*). Blöðin mótsett, alilík, brodd- og hára-laus. Blómstrstaunglarnir einstakir, lángir, slèttir.

Urtin öll slètt. Rótin aungótt; af henni spretta margir upprèttir, framáviðliggjandi, í toppinn uppreistir, greinóttir, sívalir, blöðóttir staunglar. Blöðin hvöss, samvaxin við neðri endann. Blómstrstaunglarnir í staungulendanum einstakir, upprèttir, 1blómstraðir, næstum eins lángir og staungullinn. Blómstrin lútandi. Bikarblöðin eggmynduð, snubbótt, neðantil hnúskótt. Krónublöðin snubbótt, næstum sívöl, styttri enn bikarinn. Fræhúsin eggmynduð, optast einúngis 5 duptberar. Fræin nýrumlík.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

## 12. Hópr.

### (*Icosandria*) bikarmannaðar.

1sta Orða (*Trigynia*) þríkvæntar.

1. Reynir (*Sorbus*). Bikarinn 5klofinn, yfirsitjandi. 5 krónublöð. Berið 3frævað.

2ur Orða (*Pentagynia*) fimmkvæntar.

2. Mjaðarurt (*Spiræa*). Bikarinn undirsitjandi, 5klofinn. 5 krónublöð. Fræhúsin 2rúmuð, margfrævuð.

3ja Orða (*Poligynia*) margkvæntar.

3. Krækla (*Rubus*). Bikarinn 5klofinn, undirsitjandi. Krónan 5blöðótt. Berið samansett af margfrævuðu korni.

4. Jarðarber (*Fragaria*). Bikarinn 10klofinn. Fræin nakin, fest við bermyndaðan, affallandi ávaxtarbotn.

5. Mura (*Potentilla*). Bikarinn 10klofinn. Fræin hrukkótt, nakin, strílaus.

6. Negulrót (*Geum*). Bikarinn 10klofinn. Fræin hafa knèbogið strí. Ávaxtarbotnin stafmyndaðr.

7. Krákufótr (*Comarum*). Bikarinn

10klofinn. Fræin nakin, strílaus, viðfest njarðarvetti líkan, ullhærðan, ævarandi ávaxtarbotn.

8. Hármey (*Dryas*). Bikarinn 8- eðr 10klofinn. 5 eðr 8 krónublöð. Fræin hærð, hafa hala.

9. Blóðrót (*Tormentilla*). Bikarinn 8-klofinn. 4 krónublöð. Fræinn nakin, hafa eingan hala.

**12. Hópr (*Icosandria*) bikarmannaðar.**

**1sta Orða (*Trigynia*) þríkvæntar.**

1. Reynir (*Sorbus*).

a. **Almennr Reynir** (*S. aucuparia*). **Blöðin ugguð, slètt á báðum hliðum; ísl. Reynir.**

Urtin er trè meðalstórt. Bolrinn upprèttr, í toppinn greinóttr. Blöðin ójafnt-ugguð. Smáblöðin mótsett-sitjandi, aflaung, lensulík. nöbbótt við neðri endann, heil á röndum. Endablaðið stærra og leggjað, nývöxnu blöðin dúnhærð á neðra borð. Blaðstaungullinn rauðleitr, slèttr, á efra borðið röndóttr millum smáblaðanna. Blómstrin sitja í stórri skúfmyndaðri, þètt-dúnhærðri hálfskýlu á greina-endanum. Bikarlepparnir dúnhærðir. Krónublöðin hvít. Berin fagr-rauð, hèrumbil 3fræfuð.

Blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er barkandi, þvagdrífandi og styrkjandi, getr því brúkast móti blóðlátum, lífsýki og blöðrusteini. Mauk af nýum berjunum takist 2 teskeiðir í senn. Seyði af berjunum drekkist, svo tebollum skipti, 3svar dagliga. Berin þurkuð, etin 10 á morgni og 10 á kvöldi, er gott meðal móti blöðrusteini.

## 2ur Orða (*Pentagynia*) fimmkvæntar.

### 2. Mjaðarurt (*Spiræa*).

a. Almenn Mjaðarurt (*S. ulmaria*). Blöðin með millibilum uggótt, á neðra borð fýld. Það einstaka endablað stórt, flipótt. Blómstrin í skúf.

Rótin þykk, með skríðandi aungum. Staungullinn upprèttr; skurðóttr, slèttr, í toppinn greinóttr, blöðóttr. Smáblöðin eggmynduð, flipótt, á neðra borð hvítleit. Blaðstaunglarnir strikaðir, slèttir, lítið umfaðmandi. Blaðskúfrinn þètt- og margblómstraðr. Axblöðin aðskild frá hinum blöðunum, nær því kringlótt, tennt. Krónurnar litlar, hvítar.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Urtin er nokkuð barkandi, svitadrífandi, verkeyðandi, græðandi; hún er því góð móti lífsýki, blóðsótt, blóðlátum og vondum sárum. Te bæði af blöðum og blómstrum hennar drekkist, svo tebollum skipti, 3svar dagliga, sem er gott móti holdfúa og vondum sárum, sèu þau í því þvegin.

Lita má með henni svart, sè hún með ati seydd og ullartagi þarí á eptir soðið. Urtarinnar blöð eru og góð að barka með skinn.

3ja Orða (*Poligynia*) margkvæntar.

3. Krækla (*Rubus*).

a. Frúrberjakrækla (*R. saxatilis*). Blöðin 3sett, slètt, við rótina urtum líkar, skríðandi kræklur. Toppriun fáblómstraðr; ísl. Hrútaber, Skollareipi.

Rótin aungótt; á henni vaxa margir blómstrberandi, stuttir, þyrniberandi, blöðóttir staunglar, og laung, slètt, skríðandi, blöðótt, en ei blómstrberandi rótarskot. Smáblöðin breiðeggmyndað, 2faldt-nöbbótt, á neðra borð hærð. Endablaðið leggjótt, hin önnur sitjandi. Blaðstaunglarnir blöðóttir, jafnlángir blaðinu. Blómstrin í efri enda staungulsins, 6 eðr 4 á hærðum staunglum. Bikarlepparnir lensulíkir. Krónublöðin aflaung, lensulík, hvít. Berið rautt, samanstendr af 4 eðr 5 kornum, sem eru fráskilin hvört öðru og ei falla af til samans.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Ber þessi eru barkandi, kælandi, vessaþynnandi, forrotnun mótstandandi. Þau eru því góð móti hjartveikí, lífsýki og skyrbjúgi. Mauk af berjunum tilbúið takist 2 teskeiðar í senn, 4 til 6 sinnum dagliga, móti ofannefndum sjúkdómum. Af berjunum má dropa þannig tilbúa: Tak af berjunum steittum eða mörðum 6 lóð, af sterku

brennivíni 1½ pela, lát á flösku og set í heitann sand í 3 dægur, sýa síðan hið þunna frá og geym. Af dropum þessum takist lítill matspórn, 3svar dagliga. Dropar þessir eru hjartastyrkjandi og maga, samt ágætir móti skyrbjúgi.

### 4. Jarðarber (*Fragaria*).

a. **Almenn Jarðarber** (*F. vesca*). Með laungum, skríðandi kræklum. Blöðin 3sett, djúpnöbbótt.

Rótin með laungum aungum. Staungullinn slèttr, sívalr, upprèttr, hærðr. Af rótinni spretta lángs með jörðu laung, þráðmynduð, blaðlaus, ófrjó rótarskot, af hvörjum aptr spretta nýar urtir, þar sem þær festast í jörðina. Blöðin lángleggjuð. Smáblöðin dökkgræn, hærð, með strikum á efra borðið, á neðra borðið æðótt, bleikari við neðri enda, heil á röndum. Blaðstaungullinn loðinn og hefir við neðri endann 2 lensulík, heil á röndum, slètt axblöð, sem eru samgróin við hann. Blómstrin sitja í hálfskýlu. Krónublöðin styttri enn bikarinn, næstum krínglótt, hvít. Ávöxturinn eðr sá kjötligi ávaxtarbotn rauðr, eggmyndaðr, kúlulíkr, hefir nakin fræ.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er nokkuð barkandi, þvagleiðandi, blóðhreinsandi. Te af blöðunum drekkist, 1 lítill tebolli í senn. Ber urtarinnar eru blóðhreinsandi, þvagleiðandi, græðandi, styrkjandi, forrotnun mótstandandi, uppleysandi. Þau eru því góð móti

óstyrk magans, matar-ólyst, þvagstemmu, iktsýki, brjóstveiki og steini í nýrum og blöðru. Þau uppleysa hraðberg á tönnum og bæta munnfýlu. Þau etast ný með litlu af mjólk, eðr, hvað betra er, með víni og sykri, móti iktsýki og brjóstveiki, skal af þeim mikið eta í senn. Riddari *Linné* kvaðst hafa etið fullan disk af þeim móti iktsýki og fótaveiki sinni. Mauk af berjunum tilbúið með sykri takist 2 teskeiðar í senn, hvörn annann tíma. Það er böl stórt, að þessi ágætu ber ei kunna hèr í landi, sem erlendis, í sáðgörðum ræktast, enda munu fáir reynt hafa.

## 5. Mura (*Potentilla*).

a. Gæsar-Mura (*P. anserina*). Blöðin í millibilum uggótt, nöbbótt, á neðra borð silkihærð. Staunglarnir skríðandi. Blómstrstaunglarnir einblómstraðir; ísl. Mura, Murusóley, Mýrutágar.

Rótin með laungum aungum. Staunglarnir skríðandi, framáviðliggjandi, þráðmyndaðir, blöðóttir, hærðir, rauðleitir. Blöðin stuttleggjuð, liggja flöt á jörðu, verða hvítleit, þá urtin sprettr í þurri leirjörð. Smáblöðin hvass- og djúpnöbbótt, snubbótt, á neðra borð silfrglansandi. Blómstrstaunglarnir einstakir, í blaðhornunum, sívalir, hærðir. Bikarinn með 9 eðr 10 leppum, silfrglansandi hærðr. Krónan gul.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Urtin er barkandi, svitadrífandi, uppleysandi,

styrkjandi. Hún er því góð móti lífsýki, blóðlátum og gigt. Seyði af rótarblöðunum takist 2 matspænir, eðr hálfr tebolli í senn, hvörn 3ja tíma. Ræturnar eru til manneldis hafðar með því móti, að þær seyðast fyrst í vatni, síðan í mjólk. Líka má þurka þær og síðan mala til mjöls og brúka með mjöli í brauð og grauta. Lögur blaðanna vandliga pressaðr og seyddr síðan með álúni, gefr grænan lit, sè ullartægi parí á eptir soðið.

b. Vor-Mura (*P. verna*). Rótarblöðin 5sett, fleigmynduð, nöbbótt, strikótt, randhærð, stinn. Staungulblöðin 3sett. Staungullinn niðráviðbeygðr.

Staunglarnir upprètt-framáviðliggjandi, greinóttir, hærðir, blöðóttir. Blöðin stinn. Rótarblöðin lángleggjuð, með 3klofnum smáblöðum. Þau efstu heil á röndum, hærð. Blómstrstaunglarnir í staungulendanum 1blómstraðir, upprèttir. Bikarinn hærðr. Krónublöðin gul, randskorin.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

c. Gullmura (*P. aurea*). Rótarblöðin 5sett, umsnúið-eggmynduð, innskorið-nöbbótt, hærð, næstum hymnulík. Staungulblöðin 3sett. Staunglarnir næstum upprèttir.

Rótin greinótt, skáhöll. Staunglarnir framáviðliggjandi, uppstígandi, greinóttir, hreystraðir neðantil, blöðóttir. Blöðin glansandi, snubbótt, við rótina lángleggjuð. Staungulblöðin sitjandi, þau efstu einstök sitjandi, opt mótsett. Blómstrin eru í blaðhornunum í staungulendanum, á laungum, sívölum, hærðum, 1blómstruðum blaðstaungl-

um. Bikarlepparnir lensulíkir. Krónublöðin umsnúið-eggmynduð, leingri enn bikarinn, rauðgul. Fræin hrukkótt.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

### 6. Negulrót (*Geum*).

a. **Engja Negulrót** (*G. rivale*). Rótarblöðin strikmynduð. Axlablöðin hvass-innskorin. Blómstrin lútandi. Fræstríin skurðótt, snúin; ísl. Fjalldæla, Fjallafífill, Sólsekvía.

Rótin sívöl, eðr greinótt, lítið vatnsflöt með hliðaraungum. Staungullinn upprèttr, í toppinn greinóttr, blöðóttr, hærðr, dökkleitr. Rótarblöðin með millibilum uggótt, stundum 3sett. Endablaðið stærra enn hin önnur. Öll smáblöðin næstum kringlótt, innskorin, nöbbótt, hærð, lítið rykkt. Staungulblöðin sitjandi, 3sett, eðr 1stök-3skipt. Blómstrin sitja í greina- og staungulendunum á lútandi staunglum. Bikarlepparnir misstórir, utantil dökkir. Krónublöðin hafa kjötlit, eru stundum hvít. Fræstríið hnjábeygt um miðjuna, krókmyndað í endann.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Urtin er barkandi, styrkjandi, köldueyðandi, svitaleiðandi, forrotnun mótstandandi. Hún er því góð móti lífsýki og í landfarsóttum, einkum að styrkja krapta eptir þær. Hún er og góð móti matar-ólyst, blóðsótt, og til að strá í illaluktandi

sár. Rót hennar brúkast einkanliga bæði í seyðum og dupti. Af seyðinu er mátuligt að taka 2 matspæni í senn hvört dagsmark. Af duptinu litla teskeið eins opt.

7. Krákufótr (*Comarum*).

a. Mýra Krákufótr (*C. palustre*) með 5-sinóttum, nöbbóttum blöðum; ísl. Engjarós, Mýratág, Blóðsóley.

Rótin laung, skríðandi. Staunglarnir neðantil liggjandi, uppstígandi, blöðóttir, sívalir, slèttir, eðr lítið hærðir. Blöðin lángleggjuð. Smáblöðin aflaung eðr umsnúið-eggmynduð, nöbbótt, á efra borð dökkgræn, á neðra borð gráleit. Blaðstaunglarnir hymnóttir neðantil, hálf-umfaðmandi. Blómstrin sitja í enda staungulsins, næstum í einum toppi. Blómstrbikarlepparnir hvassir, dökkvir, 5 stærri, 5 minni. Krónublöðin dökkrauð, minni enn bikarinn. Ávöxturinn eggmyndaðr, samsettr af litlum stuttum fræum.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Með urtinni má rautt lita, einkum ull, þó ei fagr-rautt.

8. Hármey (*Dryas*).

a. Nöbbótt-blöðótt Hármey (*D. octopetala*). Blöðin nöbbótt; ísl. Rjúpnalýng, Rjúpnalauf, Holtasóley, Pètrssóley.

Rótin trèlík. Staunglarnir liggjandi, lítið

greinóttir. Greinarnar þèttblöðóttar, upprèttar, slèttar. Blöðin leggjuð, eggmynduð, á röndum beygð á bak aptr, djúpnöbbótt, snubbótt, dökkgræn, slètt á efra, en hvít, fýld á neðra borð. Blómstrið stórt, sitr einstakt á laungum fýldum og sívölum staunglum á greina og staungulendanum. Bikarinn 8leppóttr, hærðr, hefir kyrtla. Krónublöðin 8, heil á röndum, snubbótt, hvít, stærri enn bikarinn. Fræstrífin lánghærð.

Margra ára urt; blómstrar í ágùst.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi hefir barkandi og styrkjandi krapt. Hún brúkast því móti lífsýki og blóðsótt. Seyði af blöðunum takist inn 2 matspænir í senn, 4 sinnum dagliga. Blöð urtarinnar, ásamt með Blóðbjörg og Vallhumli er gott og heilnæmt te, það styrkir magann og brjóstið.

### 9. Blóðrót (*Tormentilla*).

a. **Uppreist Blóðrót** (*T. erecta*). Staungullinn næstum upprèttr, greinóttr. Blöðin sitjandi.

Rótin trèlík. Staunglarnir neðst uppstígandi, ofantil upprèttir, greinóttir, sívalir, hærðir, rauðleitir. Blöðin 3sett, breið, lensulík, djúpnöbbótt, hærð. Axlablöðin innskorin. Blómstrstaunglarnir lángir, þráðmyndaðir, mótsettir, einblómstraðir. Blómstrbikarsins leppar 8, eggmyndað-lensulíkir, hvörra 4 eru stærri, 4 minni. Krónublöðin umsnúið-hjartmynduð, gul, dekkri við neðri endann. Fræin hrukkótt.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Eigi mega menn taka urt þessa fyrir Burnirót, hvör af nokkrum vanþekkjandi kallast Blóðrót. Blóðrótin er lítil urt með gulu blómstri, lík Sóley. Blóðrót hefir barkandi, þvagleiðandi og styrkjandi krapt. Seyði hennar, einkum af blöðunum, hálfr peli í senn, er einkargott móti lífsýki og þvagstemmu. Dupt af rótinni stillir nasablóð í nef tekið; ítem er gott að strá í vessafull og illaluktandi sár. Barka má skinn með seyði af urt þessari, sèu þau í það lögð.

---

## 13. Hópr.

### (*Polyandria*) margmannaðar.

#### 1sta Orða (*Monogynia*) einkvæntar.

1. Svefnurt (*Papaver*). Bikarinn 2-blöðóttr, affallandi. Fræhúsið 1rúmað með opnum holum undir örinu.

#### 2ur Orða (*Polygynia*) margkvæntar.

2. Fræstjarna (*Thalictrum*). Einginn bikar. 4 eðr 5 krónublöð. Fræin halalaus.

3. Smjörblómstr (*Ranunculus*). Bikarinn 3- eðr 5-blöðóttr. Krónublöðin 5, með hunángsberandi nöglum. Mörg nakin fræ.

4. Kúablóm (*Caltha*). Einginn bikar. 5 krónublöð. Einginn hunángshyrzla.

**13. Hópr (*Polyandria*) margmannaðar.**

**1sta Orða (*Monogynia*) einkvæntar.**

**1. Svefnurt (*Papaver*).**

**a. Skaptleggjuð Svefnurt (*P. nudicaule*).** Skaptið einblómstrað, nakið, stinnhært. Blöðin hálfugguð, bugðótt; ísl. Melasól.

Rótin laung, greinótt. Skaptið upprètt, sívalt. Blöðin lángleggjuð, stinnhærð. Lepparnir snubbóttir. Blaðstaunglarnir flatir, hærðir. Bikarblöðin affallandi, aflaung, loðin, dökkleit. Krónublöðin snubbótt, slètt, krínglótt, ljósgul, stór, eptir urtarinnar stærð.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi hefir svæfandi, verkeyðandi og stillandi krapt. Hún er því góð móti svefnleysi, stríðum verkjum og sinateygjum. Af smáskörnum blómstrum urtarinnar má dropa tilbúa á þennan hátt: Tak blómstrin smáskorin 6 lóð, gott sterkt hvítt vín 1½ pela, lát standa í viku við yl, sýa síðan hið þunna frá og geym. Þaraf takist 1 eðr 2 teskeiðar í senn eptir þörfum.

**2ur Orða (*Polygynia*) margkvæntar.**

**2. Fræstjarna (*Thalictrum*).**

**a. Fjalla Fræstjarna (*T. alpinum*).** Staungullinn óskiptr, nær nakinn, með óskiptum

klasa í broddinum; ísl. **Vèlindisurt**, **Krossgras**, **Júfrsmein**, **Brjóstagras**, **Kverkagras**.

Rótin samanstendr af dökkleitum aungum. Staungullinn upprèttr, þvínær þráðmyndaðr, einblaðaðr, slèttr. Rótarblöðin lánglegjuð, 2faldtugguð. Smáblöðin kringlótt, 3klofin, slètt, stinn, á röndunum beygð á bak aptr; gráleit á neðra borð. Blómstrin leggjuð, lútandi. 4 gulleit hvöss krónublöð. Duptberarnir gulir. Örin sitjandi, dúnuð. Fræin jöfn.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* góð fóðr-urt.

3. **Smjörblómstr** (*Ranunculus*).

a. **Bítandi Smjörblómstr** (*R. acris*). Bikararnir opnir. Blómstrleggirnir sívalir. Blöðin 3svar-margskipt; þau efstu strikmynduð; ísl. **Brennisóley**.

Rótin samanstendr af mörgum laungum aungum. Staungullinn í toppinn greinóttr, slèttr, sívalr, settr með aðþrykktum hárum, lítið blöðóttr. Blöðin djúpt, 3- eðr 5skipt. Miðleppriun venjuliga 3klofinn. Rótarblöðin lángleggiuð, þau efstu blöð sitjandi, strikmynduð. Blómstrstaunglarnir hærðir án skurða, 1blómstraðir. Bikarblöðin bugðótt, snubbótt, loðin. Krónublöðin næstum kringlótt, glansandi, gul, einkum á innri hlið. Hunángshreystrið randskorið.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er banvæn, því ei til innvortis brúkunar. Blómstur hennar, viðlögð húðina, þèna til að brenna af skinnið og draga undir sig blöðrur. Þó er ei gott að láta leingr viðleggja enn þartil vel roðnar, þá sè frátekið, og mun blaðra koma upp á eptir. Í mörgum sjúkdómum eru blöðrudragandi meðöl nytsamlig, svosem iktsýki í útlimum, augnveiki, heyrnarleysi, dofa, máttleysi, tökum, svima, brjóstveiki, og til að eyða æxlum.

b. Mýra Smjörblómstr (*R. hederaceus*). Blöðin nýrumlík, kringlótt, 3- til 5-flipótt, heil á röndum, jöfn. Staungullinn skríðandi.

Rótin aungótt. Staunglarnir framáviðliggjandi, skríðandi, greinóttir, sívalir. Blöðin lángleggjuð, missett, þykk, þarsem staunglarnir skipta sèr mótsett. Blómstrin mótsett blöðunum, eðr í greinahornunum, einstök, lítil, leggjuð. Krónublöðin fleingri enn bikarinn, hvít. Duptberarnir 5 til 10. Fræin hrukkótt.

Margra ára urt; blómstrar í júní, júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

c. Skríðandi Smjörblómstr (*R. reptans*). Blöðin strikmynduð. Staungullinn skríðandi.

Rótin með laungum aungum. Staungullinn neðantil liggjandi, í broddinn upprèttr, þræðilíkr, þykkblöðóttr. Við liðina blöðum- og rótumskjótandi. Blómstrstaunglarnir spretta milli blað-

anna, lángs eptír urtinni, en ei einúngis í brodd-inum. þeir eru fínir, upprèttir, 1blómstraðir.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Öll hin sama sem Bítandi Smjörblómstrsins.

d. Ísa-Smjörblómstr (*R. glacialis*). Blöð-in 3sett. Smáblöðin 3skipt, margklofin. Staungulblöðin sitjandi. Staungullinn 3-blómstraðr. Bikarinn stinnhærðr; ísl. Dvergasóley.

Rótin samanstendr af þèttu hneppi lángra, þykkra ánga. Staungullinn upprèttr, blöðóttr, sí-valr, slèttr, óskiptr. Blöðin lángleggjuð, slètt, nokkuð þykk, með snubbóttum leppum. þau efstu blöð sitjandi. Blómstrin stór, sitja á staungul-endanum á rauðleitum staunglum. Bikarblöðin egg-mynduð, rauðleit, einkum í broddinn. Krónublöð-in stærri enn bikarinn, rauðleit, hvít, á röndinni fínt, rykkt, hríngnöbbótt.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

e. Snjó-Smjörblómstr (*R. nivalis*). Blöð-in 5flipótt, heil á röndum. Staungulblaðið sitjandi, fíngrmyndað. Staungullinn 1blóm-straðr; ísl. Dvergasóley.

Rótin samanstendr af mörgum laungum aung-um. Staungullinn upprèttr, óskiptr, fáblöðóttr, 1blómstraðr slèttr. Rótarblöðin lángleggjuð, 3- til 5-flipótt, slètt. Á staunglinum vaxa 2 blöð, hvörra hið neðra, sem þó er ofar enn á miðju hans, er sitjandi, 5skipt, með lensulíkum leppum; það efra

óskipt, lensulíkt. Blómstrið lítið, og er í staungulbróddinum. Bikarblöðin jafnstór krónublöðunum, eggmynduð, hol, snubbótt, hærð. Krónublöðin 5, aflaung, gul.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

f. Lapplenzkt Smjörblómstr (*R. Lapponicus*). Blöðin 3skipt, flipótt, snubbótt. Staungullinn næstum nakinn, einblómstraðr.

Rótin aungótt. Staungullinn, hvörra margir þó opt spretta á einni rót, þræðilíkr, upprèttr, slèttr, óskiptr, óptast blaðlaus, 1blöðóttr. Blöðin við rótina lángleggjuð, djúpt-3skipt. Lepparnir hríngnöbbóttir, slèttir. Staungulblaðið, sem þó opt vantar, því nær sitjandi. Blómstríð lítið á staungulendanum. Bikarinn venjuliga 3blöðóttr. beygðr á bak aptr, slèttr, gulr. Krónublöðin hvöss, jafnstór bikarnum, gul.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

g. þríflipótt Smjörblómstr (*R. hyperboreus*). Blöðin djúpt-3flipótt. Flíparnir aflángir, útspanaðir. Staungullinn þráðmyndaðr, skríðandi.

Urtin öll slètt. Rótin aungótt. Staungullinn framáviðliggjandi, skríðandi, einfaldr, stundum lítið greinóttr, blöðóttr. Blöðin djúpt-3skipt, með heilrönduðum, snubbóttum leppum, lángleggjuð. Blómstrið á staungulendanum, á þráðmynduðum staungli. Krónan og bikarblöðin mjög lítil, gul.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

h. Skríðandi Smjörblómstr (*R. repens*). Bikarblöðin opin. Blómstrstaunglarnir skurðóttir. Blöðin samansett. Urtin hefir skríðandi renglur.

Rótin aungótt. Staunglarnir upprèttir, greinóttir, hærðir, einkum neðan, hvar þeir ogsvo eru bláleitir. Af rótinni spretta lángar, skríðandi, blöðóttar renglur. Blöðin 3sett, leggjuð. Smáblöðin 3skipt, nöbbótt, þau efstu heil á röndum. Blómstrstaunglarnir hærðir. Bikarblöðin hvítleit, bugðótt, hærð. Krónublöðin gul, á innri síðu glansandi.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágûst.

i. Vatna Smjörblómstr (*R. aqvatilis*). Blöðin niðrí vatninu hárumlík, fyrir ofan vatnið skjöldmynduð; ísl. Lónasóley.

Rótin aungótt. Staunglarnir niðrsokknir eðr sveimandi, sívalir, slèttir, blöðóttir. Blöðin leggjuð, þau efstu sveimandi, nýrumlík eðr kríuglótt, 3flipótt, innskorin, slètt; þau neðstu samansett af þræðilíkum, hvössum flipum. Blómstrstaunglarnir mótsettir blöðunum. Blómstrin hvít, gul á miðju. Fræin hrukkótt.

Margra ára urt; blómstrar í júní, júlí og ágûst.

4. Kúablóm (*Caltha*).

a. Almennt Kúablóm (*C. palustris*), með nýrumlíkum, tenntum, mótsettum blöðum; ísl. Lækjasóley, Hófblaðka, Hófgresi.

Rótin vatnsflöt, með laungum aungum. Staungullinn uppstígandi, slèttr, sívalr, grèinóttr, blöðóttr, skurðóttr. Blöðin snubbótt, neðan hjartmynduð, slètt, æðótt, þau neðstu lángleggjuð, þau efstu sitjandi. Blaðstaunglarnir slèttir, strendir. Blómstrin á greina- og staungulendanum, á upprèttum, einblómstruðum staunglum. Krónublöðin stór, opin, fagr-gul.

Margra ára urt; blómstrar í mají og júní.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er lítið barkandi og hreinsandi; hennar helzta nytsemi er því, að hennar nýu blöð, lögð á sár, hreinsa þau og græða. Hin útsprúngnu blómstur lögð á húðina draga undir sig blöðru eðr brenna, en það skal þá að hörundinu snúa, sem uppveit á blómstrunum. Blómstrin soðin með vatni og álúni gefa gulan lit.

---

## 14. Hópr.

### (*Didynamia*) tvímektugar.

### 1sta Orða (*Gymnospermia*) nakinfrævaðar.

1. Thymían (*Thymus*). Bikarmunninn lokaðr með hárum.

2. Tvítönn (*Lamium*). Gynið beggjamegin tennt.

3. Hánasarpr (*Galeopsis*). Efri-vörin ávöl, sú neðri ofanvert 3tennt.

4. Blákolla (*Prunella*). Allir duptberarnir eru 2klofnir í broddinn.

2ur Orða (*Angiospermia*) hafa innilokuð fræ.

5. Hanatoppr (*Bartsia*). Bikarinn litaðr. Fræhúsið 2rúmað. Fræin strend.

6. Hanakàmbr (*Rhinanthus*). Bikarinn búkmikill. Fræhúsið 2rúmað. Fræin samanþrykkt, flöt, þökt.

7. Augnafró (*Euphrasia*). Fræhúsið 2rúmað. Fræin rennótt. Dupthnapparnir þyrnóttir.

8. Tröllaurt (*Pedicularis*). Fræhúsið 2rúmað. Fræin broddótt. Krónan grímumynduð. Hjálmrinn samanþrykktr.

9. Skarnurt (*Limosella*). Fræhúsið hálf-tvírúmað. Krónan klukkumynduð, nær því jafnskipt.

14. Hópr (*Didynamia*) tvímegtugar.

1sta Orða (*Gymnospermia*) nakinfrævaðar.

1. Thymían (*Thymus*).

a. Villi Thymian (*Th. serpyllum*). Blómstrin í einu höfði. Staunglarnir framáviðliggj-

andi. Blöðin flöt, eggmynduð, snubbótt, við neðri endann randhærð; ísl. Blóðberg, Hellinhagra, Bráðbjörg E. O.

Rótin smágreinótt. Staunglarnir framáviðliggjandi, lítið hrísióttir, mikið greinóttir, blöðóttir, lítið dúnhærðir. Blöðin stuttleggjuð, heil á röndum, gagnsær, stúngin, dökkgræn. Blómstrhöfuðið sitr í greina- og staungulendanum. Bikarinn rennóttr, stúnginn. 2 neðri tennurnar stærri, randhærðar. Bikarginið er lokað með hvítum hárum eptir blómstrunartímann. Krónurnar ljósrauðar.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Þessarar alþektu urtar kraptr er hjarta- og sina-styrkjandi, þvag- og tíðir-leiðandi, vessaþynnandi, blóðhreinsandi. Af því urt þessi er lítil, brúkast hún öll, blómstr, blöð og leggir. Seyði urtarinnar má ei leingr sjóðast, en svari drukklángri stund, vegna þeirra fínu parta er annars vilja burtfljúga. Af því drekkist lítill tebolli í senn, 2svar dagliga, móti tíðateppu, þvagstemmu, niðrfallssyki, kvefi, harðlífi, hjartveiki og svefnleysi. Þaraðauki bætir hún lukt í húsum, og lögð milli fata ver hún flóm og möl.

## 2. Tvítönn (*Lamium*).

a. Rauð Tvítönn (*L. purpureum*). Blöðin hjartmynduð, snubbótt, leggjuð, þau efstu þètt.

Rótin með laungum aungum. Staunglarnir lið-

óttir, greinóttir, slèttir, neðan skríðandi. Blöðin breitt-hjartmynduð, hríng- og ójafnt-nöbbótt. Blaðstaunglarnir á neðri síðu ávalir, á efri síðu holir. Blómstrkransarnir sitja í staungul- og greinatoppinum í blaðhornunum á uppmjókkandi ferstrendíng, verða blómstrin minni eptir sem þau sitja hærra. Bikarinn svartleitr með hvössum, randhærðum tönnum. Krónan purpurarauð með dekkri rennum, og ljósari rauðum blettum á efra borði neðri vararinnar.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

b. **Hvít Tvítönn** (*L. album*). Blöðin hjartmynduð, hvöss, leggjótt. Kransarnir með 20 blómstrum.

Rótin skríðandi. Staungullinn upprèttr, hærðr, sèrdeilis í broddinn. Blöðin hærð, djúpnöbbótt. Blómstrin eru í mörgum krönsum. Blómstrstaunglarnir optast lifrauðir einsog neðri endi bikarsins, og sá partr staungulsins, sem kransarnir sitja á. Krónurnar stórar, uppreistar, hvítar. Hjálmrinn mjúkhærðr. Bikarinn klukkumyndaðr, með burstalíkum, randhærðum tennum. Dupthnapparnir sívalir, hafa gul strik á sèr.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er allgóð fóðr-urt. Í Svíþjóð brúkkast hennar nyvöxnu blöð í kál-stað.

3. **Hanasarpr** (*Galeopsis*).

a. **Smáblöðóttr Hanasarpr** (*G. ladanum*). Staungulmillibilin milli blómstr-kransana

jafnþykk. Blöðin lensulík, lítið nöbbótt, stinnhærð. Krónuhjálmrinn óljóst-hríngnöbbóttr.

Rótin greinótt. Staungullinn upprèttr, greinóttr, settr nokkuð stinnum, lítið á bakaptrbeygðum hárum. Blöðin lensu- eðr eggmynduð-lensulík, leggjuð; þau efstu sitjandi. Blöðin við blómstrin strikmynduð, hafa glansandi brodd. Blómstrin sitja í krönsum í staungul- og greina-toppinum. Bikarinn lítið klukkumyndaðr, loðinn, með hvössum stíngandi tönnum. Krónan ljósrauð með hvítum blettum.

Eins árs urt; blómstrar í júlí og ágúst.

b. Almennr Hanasarpr (*G. tetrahit*). Staungullinn stinnhærðr. Staungul-millibilin milli blómstrkransana, ofanvert þykkri. Krónan 2faldt stærri enn bikarinn. Hjálmrinn næstum rèttr.

Rótin aungótt. Staungullinn upprèttr, greinóttr, allavega settr stinnum, næstum stíngandi hárum, lítið ábakaptrbeygðum. Liðirnir þykkir, þètthærðari enn hinn partr staungulsins. Blöðin eggmynduð-hjartalík, leggjuð, hvöss, nöbbótt, stinnhærð. Bikarinn mjög stinnhærðr, með hvössum, stíngandi tönnum. Krónan stór, hefir mjóa hvíta pípu, rauðan hjálm, og rauðhvítblettótta neðri vör. Blómstrar í júlí og ágúst.

4. Blákolla (*Prunella*).

a. Almenn Blákolla (*P. vulgaris, s. officinalis*). Öll blöðin eggmynduð, aflaung, leggjuð; ísl. Brúnella.

Rótin aungótt, lítið skríðandi. Staungullinn uppstígandi, strendr, slèttr, eðr með einstöku hárum, neðantil greinóttr. Blöðin snubbótt, lítið hærð, óljóst-tennt. Blómstrin sitja í staungul- og greina-endunum, í aflaungu höfði eðr axini, sem hefir 2 blöð við neðri endann. Blöðin við blómstrin nýrumlík, hjartmynduð, hvest-randhærð. Bikars efrivörin breið, 3tennt, sú neðri mjó, klofin. Krónurnar lifrauðar eðr hvítar. Hjálmrinn ávalr yfir duptberunum.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágûst.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi hefir hreinsandi og dreifandi krapt. Seyði af urtarinnar blöðum er gott að skola með hálsinn móti kverkabólgu.

2ur Orða (*Angiospermia*), hafa innilokuð fræ.

5. Hanatoppr (*Bartsia*).

a. Fjall-Hanatoppr (*B. alpina*). Blöðin mótsett-hjartmynduð, eggilík, með snubbóttum hnöppum. Duptberarnir loðnir; ísl. Lokasjóðsbróðir.

Rótin skríðandi, görðótt. Staunglarnir upprèttir, óskiptir, blöðóttir, strendir, hærðir. Blöðin sitjandi, hrukkótt, snubbótt, dökkgræn, á neðra borð hærð, þau efstu lifrauð. Blómstraxinið sitr á staungulendanum. Bikarinn límugr, hærðr, hvassleppóttr, lifrauðr. Krónan dökklifrauð með beygðri pípu. Dupthnapparnir og dupthyrzlan loðin. Fræhúsið eggmyndað.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágûst.

### 6. Hanakambr (*Rhinanthus*).

a. **Almennr Hanakambr** (*R. crista galli*). Krónunnar efri vör ávöl, raudskorin, 2tennt, ennar neðri miðleppr mikið stuttr. Blöðin lensulík, slètt; ísl. **Lokasjóðr, Öskugras, Peníngagras.**

Rótin aungótt. Staungullinn upprèttr, strendr, slèttr, í toppinn greinóttr. Blöðin sitjandi mótsett, hvassnöbbótt, og blöðin við blómstrin eggmynduð-lensulík, hvassnöbbótt, jafnlaung blómstrbikarnum, við neðri endann lituð, lítið snörp. Blómstr-smástaunglarnir mikið stuttir. Bikarinn lítið flatþrykktr, uppbláasinn, einkum eptir blómstrunartímann, ljósgulr, samanhnepptr í munnann. Krónan 2faldt leingri enn bikarinn, gul; efri vörin blá í broddinn; dupthnapparnir loðnir. Fræhúsið ásamt með viðvarandi bikarnum er, þá fræið tekr að þróast, mjög hymnulíkt, þurt, hvörsvegna þá hrært er við urtinni að heyrist sem skráfi eðr hríngli í henni, hvaraf sum útlend nöfn hennar eru dreginn. Fræin hymnulík, vængjuð.

Eins árs urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun;*

Urt þessi er mýkjandi og lítið samandragandi. Hún brúkast því móti hósta, gulu, lifrarbólgu og lífsýki. Te af urtinni drekkist, svo tebollum skipti, 3svar dagliga. Blómstr urtarinnar með álúni soðin gefa gulan lit.

### 7. Augnafró (*Euphrasia*).

a. **Almenn Augnafró** (*E. officinalis*). Blöð-

in eggmynduð, strikótt, hvasstennt; ísl. Augnagras.

Rótin aungótt. Staungullinn upprèttr, greinóttr, rauðleitr, hærðr. Greinarnar blöðóttar, jafnháar staunglinum. Blöðin stuttleggjuð eðr sitjandi umfaðmandi. Staungulblöðin mótsett; greinablöðin missett. Blómstrin sitjandi eðr stuttleggjuð, í efstu blaðhornunum missett. Krónurnar hvítar, með lifrauðum rennum, og gulu gini. Þó finnast tegundir urtarinnar sem eru alhvítar, aðrar aptr rauðar með dökkum rennum. Fræhúsið umsnúið-egg- eðr hjart-myndað.

Eins árs urt; blómstrar í júlí, ágùst og septbr.

*Nytsemi og verkun:*

Þessi litla urt vex í vallendis brekkum, hefir samandragandi, barkandi og styrkjandi krapt. Seyði af urtinni er gott að leggja við vot og svíðandi augu. Dropar tilbúnir af urtinni eru magastyrkjandi og slími eyðandi. Af þeim takist 2 teskeiðar í senn, og þareð urtin er svo lítil, tekr maðr hana alla og þurkar.

8. Trölla-urt (*Pedicularis*).

a. Skóga Trölla-urt (*P. sylvatica*) hefir marga óskipta staungla á einni rót. Bikarinn aflángr, strendr, slèttr, misjafnt 5leppóttr, innskorinn.

Rótin aungótt, toppmynduð, greinótt. Staungullinn upprèttr, strendr, hærðr, blöðóttr. Þau neðstu blöð hreystruð, eggmynduð, ljósgræn. Blöðin djúpt hálfugguð, þètt saman. Blómstrbikarinn

æðóttr, en á hönum eru þó hvorki stúngur nè hár. Krónan stór, dökkrauð. Neðri vararfliparnir ekki randhærðir. Fræhúsið samanþrykkt. Skaptið hálfeggmyndað, í endann stíngandi, líkist fuglanefi.

Eins eðr 2ja ára urt; blómstrar í júlí.

b. **Eldgul Trölla-urt** (*P. flammea*). Staungullinn óskiptr. Blöðin tennt, hálfugguð, snubbótt. Lepparnir þaktir, hríngnöbbóttir.

Rótin hnöllótt, toppmynduð. Staungullinn upprèttr, slèttr, blöðóttr, dökkrauðr. Blöðin þètt saman, helzt við rótina, leggjuð, djúpt innskorin á hliðunum, lensulík. Lepparnir eggmyndaðir, hafa þannig leggi, að efri rönd annars flippans hylr neðri rönd hins. Blöðin fá á staunglinum. Blómstraxinið lángt, samanþrykkt. Bikarinn rennóttr, aflángr, nokkurnveginn slèttr. Krónan laung, þunn. Efrivörin innklipin í broddinn, dökkrauð; sú neðri lítil, dökkgul.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:* óþekk.

9. **Skarnurt** (*Limosella*).

a. **Litla Skarnurt** (*L. aqvatica*). Blöðin lensulík, lángleggjuð, snubbótt. Blómstrin niðr við rótina.

Rótin aungótt, af henni spretta skríðandi rótarskot. Blöðin við rótina uppreist, heil á röndum, slètt. Blómstrstaunglarnir ogsvo við rótina, margir saman, mjög stuttir, 1blómstraðir. Blómstrin mjög lítil. Bikarinn slèttr. Krónan ljósrauð-

hvítleit, 5toppótt, ójafnt skipt. Duptberarnir styttri enn krónan.

Eins árs urt; blómstrar frá júní mánuði til september.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

---

## 15. Hópr.

### (*Tetradynamia*) fjórmegtugar.

### 1sta Orða (*Siliculosa*), hafa breiðan og stuttan skálp.

1. Alblað (*Subularia*). Litli skálprinn heill á röndum. Blöðkurnar eggmyndaðar, holar, mótsettar milligirðíngunni.

2. Gæsablóm (*Draba*). Litli skálprinn heill á röndum. Blöðkurnar flatar, snúa einsog milligirðíngin.

3. Púngurt (*Thlapsi*). Litli skálprinn randskorinn, umsnúið-hjartmyndaðr. Blöðkurnar rendótt-hryggjóttar.

4. Skeiðarurt (*Cochlearia*). Litli skálprinn nær því heill á röndum, keistr, hrukkóttr, tvíblöðkóttr, margfrævaðr.

5. Strandbúi (*Cakile*). Litli skálprinn

lensulíkr, tvíliðóttr. Liðirnir einfrævaðir, þeir efstu affallandi.

**2ur Orða (*Siliqvosa*), er hafa lánga skálpa.**

6. Hlaupblaðka (*Cardamine*). Lángi skálprinn hleypr í sundr, eðr opnar sig með fjöðurkrapti, með ábakaptrundnum blöðkum. Arið heilt. Bikarblöðin lítið opin.

7. Opinblaðka (*Sisymbrium*). Lángi skálprinn gapandi, með rèttum blöðkum. Bikarinn opinn.

8. Gæsamatr (*Arabis*), fjórir ábak aptrbeygðir kirtlar fyrir neðan bikarblöðin. Lángskálprinn strikmyndaðr, görðóttr.

## 15. Hópr (*Tetradynamia*) fjórmegtugar.

**1sta Orða (*Siliculosa*), hafa breiðan og stuttan skálp.**

**1. Alblað (*Subularia*).**

**a. Vatns-alblað (*S. aqvatica*). Blöðin alilík, styttri enn skaptið.**

Rótin aungótt, hvít. Skaptið upprètt, óskipt, lítið bugðótt, nær því hálfu leingra enn blöðin, slètt, optast niðrí vatni, hvar urtin vex. Blöðin öll við rótina, slètt, hvöss, litið niðráviðbeygð. Blómstrin eru í klasamynd á staungulendanum á

stuttum staunglum. Krónublöðin eggmynduð, hvít. Smáskálprinn aflángr, slèttr. Fræin gul.

Eins árs urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

2. **Gæsablóm** (*Draba*).

a. **Vorgæsablóm** (*D. verna*). Skaptið nakið. Krónublöðin klofin. Blöðin lensulík, lítið innskorin, stinnhærð.

Rótin með fínum aungum. Sköptin uppreist lítið hærð, sívöl. Blöðin þètt saman, öll við rótina, nöbbótt, eðr lítið innskorin í efri endann, heil á röndum, mjórri við neðri endann, og sett klofnum hárum. Blómstrin eru í hálf-skýlumynduðum klösum á skaptendanum. Blómstrstaunglarnir missettir, opnir. Ávaxtarleggrinn niðrávið-beygðr. Bikarblöðin eggmynduð, opin á röndunum, rauðleit. Krónublöðin skipt nær því að miðju. Litli skálprinn sporeskjumyndaðr, slèttr, snubbóttr, hefir viðvarandi axin, sem sitja á efri enda hans.

Eins árs urt; blómstrar í mají og júní.

b. **MúraraGæsablóm** (*D. muralis*). Staungullinn greinóttr. Blöðin hjartmynduð, tennt, stinnhærð. Skálprinn sporeskjumyndaðr, snubbóttr, flatr.

Rótin aungótt. Staungullinn upprèttr, greinóttr, blöðóttr, sívalr, lítið snarpr. Blöðin missett, sitjandi, umfaðmandi, nöbbótt, stinnhærð. Blómstrin lítil í mörgum klösum á litlum staunglum, sem verða leingri þá urtin blómstrar. Krónublöðin

heil á röndum, umsnúið-eggmyndað, hvít. Smáskálprinn aflángr, slèttr.

Eins árs urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

c. Stríhært Gæsablom (*D. hirta*). Staungullinn fáblöðóttr. Blöðin aflaung, hvöss, tennt, lítið stríhærð. Smáskálparnir skáhallir, leggjóttir.

Rótin nokkuð laung, óskipt. Af henni spretta margir upprèttir, óskiptir, einblöðóttir staunglar. Blöðin þètt saman, við rótina gráleit. Staungulblaðið sitjandi eggmyndað, optast fast við staungulinn fyrir neðan miðju hans. Blómstrin eru í stuttum klasa á staungulendanum. Krónublöðin randskorin. Smáskálprinn nokkurnveginn slèttr.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

d. Ljósgrátt Gæsablóm (*D. incana*). Staungulblöðin mörg, ljósgrá, sett stjörnumynduðum hárum. Smáskálparnir skáhallir, aflángir.

Rótin laung, greinótt, aungótt. Staungullinn upprèttr, greinóttr, gráhærðr, sívalr. Blöðin sitjandi, eggmynduð-lensulík, innskorið-tennótt. Blómstrin þètt saman á staungul- og greina-endunum í hálfskýlumynduðum klösum. Bikarinn loðin. Krónublöðin hvít, randskorin. Smáskálprinn lítið snúinn, hvass, hefir stutta dupthyrzlu.

2ja ára urt; blómstrar í júlí.

3. Púngurt (*Thlapsi*).

a. Almenn Púngurt (*Th. bursa pastoris*)

er strihærð. Smáskálparnir múraraspaðamyndaðir, umsnúið-hjartmyndaðir. Rótarblöðin hálfugguð; ísl. Púngarfi, Hjartarfi.

Rótin óskipt, þráðmynduð. Staungullinn upprèttr, greinóttr, blöðóttr, neðantil sívalr, ofanvert strendr. Rótarblöðin mörg saman, innskorin, tennt. Staungulblöðin missett, umfaðmandi, hjartmynduð, neðantil nær því heil á röndum. Blómstrstaunglarnir missettir í klösum, þeir neðri leingri enn hinir. Krónublöðin hvít. Smáskálparnir slèttir, hafa viðvarandi dupthyrzlu.

Eins árs urt; blómstrar nærþví allt sumarið.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi hefir styrkjandi og samandragandi krapt. Sè fræi urtarinnar blandað í brauðgerð, fær brauðið sætan smekk, en verðr þarvið seinna til meltíngar.

b. Engja Púngurt (*Th. campestre*). Smáskálparnir kransmyndaðir, stúngnir, ofantil rendóttir. Blöðin skeytilík, tennt, ljósgrá.

Rótin greinótt. Staungullinn upprèttr, greinóttr, dúnhærðr, þèttblöðóttr. Blöðin missett, sitjandi, umfaðmandi, dúnhærð, á röndum fá og smátennt. Blómstrin lítil, og eru saman í greinóttum klösum. Krónublöðin hvít, aflaung. Smáskálprinn nær því kringlóttr, í broddinn breiðrandaðr.

2ja ára urt; blómstrar í júlí.

4. Skeiðarurt (*Cochlearia*).

a. Almenn Skeiðarurt (*C. officinalis*).

Rótarblöðin nær því kringlótt. Staungulblöðin aflaung, lítið bugðótt. Skálprinn nær því kúlumyndaðr; ísl. Skarfakál.

Rótin nær því toppmynduð, lítið greinótt, aungótt. Staunglarnir við rótina framáviðliggjandi, í toppinn upprèttir. Á stórum urtum beint upprèttir, greinóttir, strendir, bugðóttir, blöðóttir, slèttir. Blöðin slètt, kjötlig. Rótarblöðin lángleggjuð, mörg saman, stundum nýrumlík. Staungulblöðin sitjandi, missett, strend, stundum hafa þau einúngis eina stóra tönn hvörjumegin hliðar, stundum eru þau margtennt. Þau efstu heil á röndum, umfaðmandi. Blómstrin sitja í hálfskýlu á staungul- og greina-endunum. Verða leingri og klasamyndaðri eptir blómstrunartímann. Bikarblöðin snubbótt, mjórri enn krónublöðin. Krónublöðin stærri enn bikarinn, umsnúið-eggmynduð, heil á röndum, hvít. Skálprinn hrukkóttr. Duptbyrzlan viðvarandi.

Eins árs urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er hið ágætasta meðal móti skyrbjúgi. Hún er þaraðauki uppleysandi, svitadrífandi, þvagleiðandi og blóðhreinsandi. Hún er því góð móti öllu þykku og stöðnuðu blóði. Drífr tíðir kvenna, og hreinsar súra og staðnaða vessa líkamans. Urtin hrá etin er einkar gott meðal móti skyrbjúgi. Dropa af blöðum og blómstrum hennar má þannig tilbúa: Tak af nýum söxuðum blöðum og blómstrum hennar 8 lóð, sterkasta brennivíns 24 lóð, blanda saman, og lát standa

við il í viku, sía síðan hið þunna frá og geym. Af dropum þessum takist hálft spónblað í senn, 4sinnum dagliga. Urtin er eitt hit hollasta kálmeti til nautnar er fást má.

5. Strandbúi (*Cakile*).

a. þykkblöðóttr Strandbúi (*C. maritima*). Skálparnir eggmyndaðir, 2uggaðir, 1fræraðir. Blöðin kjötlig, tennt, hálfugguð. Rótin aungótt. Staungullinn uppstígandi, við neðri endann opt niðráviðliggjandi, sívalr, kjötligr, slèttr, bugðóttr. Blöðin missett, stuttleggjuð, þykk, slètt, blágrá, þau efstu nær því heil á röndum. Blómstrin í þèttri hálfskýlu á staungul- eðr greina-endunum. Bikararnir neðantil búkmyndaðir. Krónublöðin lifrauð, nokkuð stór, umsnúiðfleigmynduð.

Eins árs urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Um blómstrunartímann er urtin velluktandi.

2ur Orða (*Siliqvosa*), er háfa lánga skálpa.

6. Hlaupblaðka (*Cardamine*).

a. Engja Hlaupblaðka (*C. pratensis*). Blöðin uggótt; uggarnir eðr smáblöðin á þeim neðstu krínglóttir. Á Staungulblöðunum lensulíkir; ísl. Hrafnaklukka, Kattarbalsam, Lambaklukka.

Rótin lítið hnöllótt, hefir marga hliðaránga. Staungullinn upprèttr, rèttr, óskiptr, sívalr, slèttr, neðantil rauðleitr. Rótarblöðin lángleggjuð, slètt.

Staungulblöðin stuttleggjuð, með lensulíkt-strikmynduðum smáblöðum. Blómstrin eru í staungulendanum í stórri hálfskýlu, hvör þá urtin tekr að frævast, verðr klasamynduð. Bikarblöðin lítil, snubbótt, eggilíkt-strikmynduð. Krónublöðin stór, útbreidd, ljósrauð, randskorin. Lángiskálprinn uppreistr.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er magastyrkjandi, blóðhreinsandi, uppleysandi, þvag- og tíðir kvenna leiðandi, ormdrepandi; hún er því góð móti óstyrk magans, skyrbjúgi, kreppusótt, miltis og lifrarbólgu, þvag- og tíða-teppu og ormum í maga. Te af blöðum urtarinnar skal því í ofantöldum tilfellum brúkast, svo tebollum skipti, 4sinnum dagliga. Í samblandi með horblöðku eykst kraptr hennar. Ei er ráðligt að láta ólèttar konur brúka þessa urt.

b. **Eggblöðótt Hlaupblaðka** (*C. bellidifolia*). Blöðin óskipt, eggmynduð, heil á röndum. Blaðstaungullinn 3pörtum leingri enn blöðin.

Rótin smágreinótt. Staunglarnir upprèttir, óskiptir, slèttir, nærri blaðlausir. Blöðin breitteggmynduð, lík hjarta. Blaðstaungullinn stundum leingri enn staungullinn. Staungulblöðin sitjandi. Blómstrin fá saman, stundum líka einstök á staunglinum. Krónurnar hvítar, leingri enn bikarinn. Lángskálprinn stundum jafnlángr staunglinum.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

c. **Stinnhærð Hlaupblaðka** (*C. hirsuta*). Blöðin uggótt, hafa eingin axlablöð. Smáblöðin kringlótt-aflaung, innskorin, leggjótt.

Rótin aungótt, lítið skríðandi. Staungullinn upprèttr, greinóttr, blöðóttr, strendr, hærðr. Greinarnar stuttar. Blöðin ójafnt-ugguð, einhærð. Smáblöðin sem eru á neðstu blöðunum eru kringluleit. Þau á efstu blöðunum þarámót eggmynduð, lensulík. Blómstrin eru í þèttum klasa í staungulendanum og fá á greinunum. Krónurnar hvítar, litlar. Lángskálprinn uppreistr, hærðr.

Eins árs úrt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

d. **Steinhlaupblaðka** (*C. petræa*). Blöðin aflaung, tennt.

Rótin toppmynduð, lítið aungótt. Staungullinn margskiptr. Blöðin mörg saman við rótina, aflaung, snubbótt, 2- eðr 3tennt. Staungulblöðin missett, 2tennt, þau efstu lensulík, heil á röndum. Krónublöðin 4-eggmynduð. Krónurnar hvítar.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

7. **Opinblaðka** (*Sisymbrium*).

a. **Mýra-opinblaðka** (*S. palustre s. islandicum*). Lángskálparnir niðráviðbeygðir, aflángt-eggmyndaðir. Blöðin hálf-uggótt. Krónublöðin styttri enn bikarinn.

Rótin óskipt, nær því toppmynduð. Staungullinn upprèttr eðr uppstígandi, greinóttr, blöðóttr, skurðóttr, slèttr. Blöðin missett, þau neðstu

neðantil uggótt, ofantil hálf-uggótt, eitt endablað er þó stærst, hvaraf blöðin sýnast hörpumynduð. Lepparnir ójafnt-nöbbóttir. Blómstrin í þunnum klösum. Krónublöðin gul. Lángskálparnir beint útstandandi, slèttir.

Margra ára urt; blómstrar allt sumarið.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

b. **Beiska-opinblaðka** (*S. amphibium terrestre*). Lángskálparnir niðráviðbeygðir, leggjóttir. Blöðin aflaung, lítið nöbbótt; þau neðri óskipt, þau efri hálfuggótt; ísl. **Hrafnaklukka með gulu blómstri.**

Rótin með laungum aungum, opt skríðandi. Staunglarnir skríðandi, við neðri endann uppstígandi, linir, bugðóttir, skurðóttir, blöðóttir, slèttir, í toppinn greinóttir. Blöðin missétt, aflaung-lensulík; þau neðstu óskipt; þau efstu hálfuggótt. Blómstrin sitja í laungum klösum, er spretta á efri blaðhornunum, eðr staungulendanum. Bikarblöðin gulleit. Krónublöðin umsnúið-eggmynduð, gulleit. Skálpleggirnir lángir, beint útstandandi.

Blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er uppleysandi, magastyrkjandi, vessaþynnandi, ormdrepandi. Hún brúkast því móti skyrbjúgi, gigt og ormum. Te af blómstrum eðr blöðum hennar drekkist, svo tebollum skipti, 4sinnum dagliga.

8. **Gæsamatr** (*Arabis*).

a. **Fjalla-Gæsamatr** (*A. alpina*). Blöðin aflaung, lensulík, umfaðmandi, hvasstennt.

Rótin toppmynduð. Staungullinn upprèttr, óskiptr, blöðóttr, smáhærðr. Rótarblöðin stundum á staunglum. Staungulblöðin snubbótt, stinnhærð, grágræn. Blómstrin sitja í klasa á staungulendanum. Krónublöðin snubbótt, hvít. Lángskálparnir flatir, þunnir, strikmyndaðir, lítið innáviðbeygðir. Utaná blöðkunni sèst gjörla hvar fræin spretta.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

---

## 16. Hópr.

### (*Monadelphia*) samvaxnar.

### 1sta Orða (*Decandria*), með tíu frjófum duptberum.

1. Storkanef (*Geranium*) einkvænt. Ávöxturinn 5kornóttr, hefir bert ábakaptrbeygt nef.

16. Hópr (*Monadelphia*) samvaxnar.

1sta Orða (*Decandria*) með 10 frjófum duptberum.

1. Storkanef (*Geranium*).

a. Dökkt Storkanef (*G. fuscum s. montanum*). 2 blómstrstaunglar saman, mótsettir blöðunum. Krónublöðin heil á röndum, á bakaptrbeygð; ísl. Stóra-blágresi.

Rótin þykk. Staunglarnir óskiptir, neðan toppmyndaðir, skiptir, upprèttir, sívalir, blöðóttir, hærðir. Blöðin hendilík, margskipt, 7 eðr 8 leppótt, hærð, stinn. Rótarblöðin lángleggjuð. Staungulblöðin missett, þau efstu sitjandi, 3skipt. Blómstrstaunglarnir mótsettir blaðinu, 1blómstraðir. Blómstrblöðin hymnulík, lítil. Bikarblöðin hærð, sporeskjumynduð. Krónublöðin kringlótt, ábakaptrbeygð, dökkrauð, flöt, heil á röndum.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

b. **Skóga Storkanef** (*G. sylvaticum*). Blómstrstaunglarnir 2blómstraðir, næstum hálfskýlumyndaðir. Blöðin hafa 7 leppa, eru innskorin-nöbbótt. Fræhúsin hærð. Duptberarnir alilíkir; ísl. **Storkablágresi, Litunargras.**

Rótin þykk, hnöllótt. Staungullinn upprèttr, greinóttr, blöðóttr, sívalr, fínhærðr. Blöðin lángleggjuð við rótina. Staungulblöðin missett, sitjandi, mjúkhærð. Blómstrstaunglarnir upprèttir. Blómstrblöðin lensulík, mjög lítil. Bikarblöðin 3sinótt, hafa stutt strí. Krónublöðin stór, lifrauð eðr hvít, æðótt, randskorin, neðantil hærð. Duptþræðirnir hymnulíkir, rendóttir, neðantil randhærðir.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Kraptr þessarar urtar er barkandi og styrkjandi. Seyði af blöðum hennar inntekið, 1 spónblað í senn, er því gott í lífsýki. Það eyðir og

innvortis blöðrusteini og hvítum klæðaföllum. Útvortis brúkast það að væta í línskaf, og leggja yfir íllaluktandi og vessafull sár. Með blómstrum hennar má lífrautt lita, sèu þau soðin með álúni. Með blöðunum má lita svart, sèu þau soðin með ati, eðr ryðguðu járni, samt dálitlu af sýru. Seyðinu sè síðan afhellt, og ull þarí á ný soðin.

c. Engja-Storkanef (*G. pratense*). Blómstrstaunglarnir 2blómstraðir. Blöðin 7skipt, innskorin, nöbbótt. Fræhúsin öll hærð. Duptberarnir neðantil múraraspaðamyndaðir.

Urt þessi líkist mjög enni undangángandi, en er þó stærri, þèttara dúnhærð, og efstu hárin kirtlum sett. Blöðin djúpskiptari, hvassari, mjórri, leppótt, tennt. Blómstrstaunglarnir eptir blómstrunartímann beygðir á bak aptr. Bikarblaðastríið leingra. Krónublöðin stærri, bláleitari.

Blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

---

# 17. Hópr.

## (*Diadelphia*) tvískiptar.

### 1sta Orða (*Octandria*) áttmannaðar.

1. Mjólkur-urt (*Polygala*). Bikarinn hefir 2 vængmyndaða leppa. Krónumerkið sívalt. Belgrinn umsnúið-hjartmyndaðr, 2-rúmaðr.

2ur Orða (*Decandria*) tímannaðar.

2. Flatbelgr (*Lathyrus*). Dupthyrzlunnar yfirborð slètt, ullhært,

3. Umfeðmíngsgras (*Vicia*). Dupthyrzlan hefir skegg undir arinu.

4. Ertr (*Pisum*). Dupthyrzlan á yfirborðið hryggjótt, ullhærð.

5. Kerlíngartönn (*Lotus*). Belgrinn sívalr, fullr af fræi.

6. Krínglubelgr (*Anthyllis*). Bikarinn uppblásinn, innilokar einn kríngióttan belg.

7. Smári (*Trifolium*). Belgrinn ei leingri enn bikarinn, ein- eðr tví-frævaðr, ekki sundrhlaupandi, affallandi.

**17. Hópr (*Diadelphia*) tvískiptar.**

**1sta Orða (*Octandria*) áttmannaðar.**

**1. Mjólkur-urt (*Polygala*).**

a. **Almenn Mjólkur-urt (*P. vulgaris*).** Krónurnar í klösum og hafa kamb. Staunglarnir óskiptir, framáviðliggjandi. Blöðin strikmynduð, lensulík.

Rótin greinótt, trèlík. Af henni vaxa margir útbreiddir, slèttir, sívalir, þèttblöðóttir staunglar, sem neðan eru sameinaðir. Blöðin missett, eðr

útdreifð; þau neðri eggmynduð, minni, heil á röndum, hvöss, lítið innáviðbeygð, slètt. Blómstrin eru í einum klasa á staungulsendanum. Krónurnar bláar, hvítar, lífrauðar, eðr rauðleitar, hafa innantil eitt kambmyndað, ljósara blað. 2 bikarblöðin eru stærri enn hin önnur, eins lit og krónan.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Urtin er þvagleiðandi, svitadrífandi og opnandi. Hún er því góð móti vatnsýki, gulu og bólgu í undirlífsins kirtlum. Seyði af rótinni takist, 2 matspænir í senn, hvörn klukkutíma. Urtin er einhvör hin ágætasta fóðr-urt fyrir naut og sauði.

## 2ur Orða (*Decandria*) tímannaðar.

### 2. Flatbelgr (*Lathyrus*).

a. **Gulr Flatbelgr** (*L. pratensis*). Klasaleggirnir margblómstraðir. Blöðin uggótt, og hafa á sèr nokkur lensulík smáblöð.

Rótin laung, fín, lítið skríðandi. Staunglarnir veigalitlir, liggjandi eðr uppstígandi, með bindþráða styrk, greinóttir, blöðóttir, slèttir, hvasshyrndir. Blöðin missett, leggjótt. Smáblöðin næstum sitjandi, hvöss, slètt, sinótt, smárauðhærð. Blaðstaungullinn endar í bindþræði, sem er lángr, bæði skiptr og snúinn. Klasaleggirnir 3faldt leingri enn blöðin, og bera 8 til 12 missett blómstur. Bikarinn hærðr. Krónurnar gular. Belgrinn uppreistr.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Urtin er góð fóðr-urt. Í dýrtíð hafa menn brúkað fræ hennar til brauðgerðar með mjöli.

**3. Umfeðmíngsgras** (*Vicia*).

a. **Músar-Umfeðmíngsgras** (*V. cracca*). Klasaleggirnir margblómstraðir. Blómstrin þökt. Smáblöðin lensulík, dúnhærð. Axlablöðin hálfskeytilík, nærri heil á röndum; ísl. **Umfeðmíngsgras, Flækja, Samflettíngr, Krókagras.**

Rótin skríðandi. Staungullinn klifrandi, veigalítill, greinóttr, strendr, blöðóttr. Blöðin missett í mörgum pörum, jafnt uggótt, hafa skiptan bindþráð. Smáblöðin missett, smámjókkandi. Klasaleggirnir í blaðhornunum nærri jafnlángir blöðunum. Klasinn lángr, boginn, þèttblómstraðr, svo hvört blómstrið liggr við annað. Blómstrin 1síðu lifrauð. Bikarinn dökkr. Belgrinn slèttr.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Urtin er góð fóðr-urt. Fræ hennar með mjöli í brauði er gott og velsmakkandi.

**4. Ertr** (*Pisum*).

a. **Stranda-ertr** (*P. maritimum*). Blaðleggirnir flatir ofan. Staungullinn strendr. Axlablöðin skeytilík. Blómstrstaunglarnir margblómstraðir; ísl. **Baunagras.**

Rótin skríðandi, þykk. Staunglarnir framáviðliggjandi, hvass-4strendir, slèttir, bugðóttir, blöðóttir, rauðleitir. Blöðin ugguð með 2- eðr 3skipt-

um bindþráðum. Smáblöðin eggmynduð, slètt, heil á röndum, snubbótt, missett. þau yztu minni enn þau við neðri endann. Axlablöðin lítið tennt í neðri endann. Blómstrin eru í klösum, nærri jafnlaung blöðunum, margblómstruð í blaðhornunum. Bikarinn slèttr. Krónan fagr-lifrauð. Belgrinn samanþrykktr.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er allgóð fóðr-urt. Blöð hennar hafa í húngrsneyð verið til manneldis notuð.

5. Kerlíngartönn (*Lotus*).

a. Almenn Kerlíngartönn (*L. corniculatus*). Blómstrhöfuðið niðráviðþrykkt, margblómstrað. Staunglarnir framáviðliggjandi. Belgirnir sívalir, opnir.

Rótin laung, trèlík, með hliðar-aungum, hvará eru litlir hnútar. Af henni spretta margir útbreiddir, greinóttir, slèttir staunglar. Blöðin missett, stuttleggjuð, 3fest. Smáblöðin eggmynduð, heil á röndum, á neðra borð blágræn. Axlablöðin eggmynduð, nærri eins stór og smáblöðin. Blómstrstaunglarnir eru í blaðhornunum á sívölum leggjum. Undir blómstrhöfðinu er eitt 3fest blað. Blómstrin stuttleggjuð. Krónurnar gular, fyrir blómstrunartímann rauðleitar. Merkið ábakaptrbeygt. Belgirnir slèttir. Fræin nýramynduð.

Margra ára urt; blómstar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Urtin er góð fóðr-urt. Með blómstrum hennar má lita falliga gult.

### 6. Kringlubelgr (*Anthyllis*).

a. **Gulr Kringlubelgr** (*A. vulneraria*). Blöðin uggótt. Smáblöðin misstór. Höfuðið 2faldt.

Rótin greinótt, trèlík. Af henni spretta margir framáviðliggjandi, uppstígandi, sívalir, fínhærðir, greinóttir, blöðóttir staunglar. Blöðin missett. Smáblöðin aflaung, heil á röndum, missett á neðri blöðunum, fá, hafa eitt endablað, sem er 2faldt stærra enn hin önnur. Rótarblöðin stundum einföld. Á efri blöðunum eru smáblöðin nær því jafnstór. Blómstrhöfuðið nærri kúlumyndað, sitr á greina- og staungul-endanum. Undir höfðinu eru hendilík blómstrblöð. Krónurnar fagr-gular. Bikarinn hymnulíkr, fínhærðr.

Margra ára urt; blómstrar í júní, júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Urtin er góð fóðr-urt. Með blómstrum hennar má lita gult.

### 7. Smári (*Trifolium*).

a. **Hvítr Smári** (*T. repens*). Blómstrin í skýlumynduðum höfðum. Belgirnir 4frævaðir. Efstu bikartennurnar slèttar. Smáblöðin eggmynduð, aflaung, randskorin, snubbótt. Staungullinn skríðandi; ísl. Smári, Smæra.

Rótin aungótt. Staunglarnir útbreiddir, greinóttir, slèttir, blöðóttir. Blöðin lángleggjuð. Smáblöðin umsnúið-hjartmynduð, dökkgræn, opt með hvítri þverrák. Blómstrhöfuðs leggirnir eru í blöð-

hornunum uppreistir eðr uppstígandi, leingri enn blaðstaunglarnir. Blómstrhöfuðið nær því kúlumyndað. Þær neðri krónur opt niðráviðbeygðar, hvarfyrir höfuðið sýnist að vera þverskipt. Bikararnir slèttir. Krónurnar hvítar, sitja visnaðar á bikarnum. Belgrinn aflángr, slèttr, 4frævaðr.

Margra ára urt; blómstrar allt sumarið.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er mýkjandi, drífandi og verkeyðandi. Hún er því góð móti bólgu, ígerðum, brjóstveiki og gulu. Te af blöðum hennar drekkist, svo tebollum skipti, 4sinnum dagliga. Af blómstrum og blöðum urtarinnar gjörast mýkjandi grautar, eru þeir einkar góðir til að dreifa bólgu, og til að gjöra út meinsemdir. Rótin smáskorin, seydd í mjólk, er góðr og hollr matr.

b. **Rauðr Smári** (*T. pratense*). Blómstraxinin þètt saman. Staunglarnir uppstígandi. Krónurnar misjafnt skiptar. Þær 4 bikartennr jafnlángar. Axlablöðin leggjótt.

Rótin greinótt, aungótt; af henni spretta margir neðantil uppstígandi, sívalir, greinóttir, blöðóttir, slèttir staunglar. Blöðin aflaung, þau efstu mótsett, og eru uppundir axininu. Smáblöðin aflaung, eðr eggmynduð-aflaung, heil á röndum, hvöss, slètt, og hafa venjuliga, einsog á hinni undangángandi, 2 hvítar rákir. Axlablöðin eggmynduð, samgróin, hafa stutt, fínt strí á endanum, og eru hymnulík með rauðum æðum. Axinin sitjandi á staungul- og greina-endunum, eggmynduð, sívöl, snubbótt. Bikarinn hærðr. Tennurnar

burstamyndaðar, sú neðsta mikið leingri enn hinar. Krónan 1blöðótt, lifrauð. Belgrinn kríngióttr, slèttr.

Margra ára urt; blómstrar á sumrum.

*Nytsemi og verkun:* sama sem undangángandi.

c. Hara-Smári (*T. arvense*). Axinin loðin nærri sívöl. Bikartennurnar burstalíkar, leingri enn krónan. Smáblöðin umsnúið-eggmynduð, strikmynduð.

Rótin aungótt. Staungullinn upprèttr, greinóttr, blöðóttr, sívalr. Blöðin stuttleggjuð, þètthærð. Þau efstu sitjandi í axlablaðinu, strikmynduð, samgróin. Axinin spretta á staungul- og greina-endunum, og eru snubbótt, rauðgrá. Bikartennurnar jafnlángar. Krónurnar rauðhvítar. Belgrinn lítill, einfrævaðr.

Eins árs urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:* sama sem undangángandi.

---

## 19. Hópr.

### (*Syngenesia*) pípumannaðar.

### 1sta Orða (*Polygamia æqvalis*) jöfn sambúð.

1. Ljónstönn (*Leontodon*). Ávaxtarbotninn nakinn. Þelið leggjótt, óskipt. Bikarinn þaktr með línu hreystri.

2. Pètrsurt (*Apargia*). Ávaxtarbotn-

inn nakinn, stúnginn. þelið fjaðrað, sitjandi, misjafnt skapt. Bikarinn þaktr.

3. Fagrkolla (*Hieracium*). Ávaxtarbotninn nær því nakinn, stúnginn. þelið óskipt, sitjandi. Bikarinn þaktr, eggmyndaðr.

4. þistill (*Carduus*). Bikarinn búkmyndaðr, þaktr, settr þyrnilíku hreystri. Ávaxtarbotninn hærðr. þelið affallandi, hárilíkt eðr fjaðrað.

2ur Orða (*Polygamia superflua*) ójöfn sambúð.

5. Eilífðarblóm (*Gnaphalium*). Ávaxtarbotninn nakinn. þelið snarpt eðr fjaðrað. Bikarinn þaktr með stinnhymnóttu lituðu hreystri. Randakrónurnar alilíkar.

6. Brekkustjarna (*Erigeron*). Ávaxtarbotninn nakinn. þelið óskipt. Bikarinn þaktr. Randakrónurnar mjóstrikmyndaðar og margar.

7. Brandbikar (*Senecio*). Ávaxtarbotninn nakinn. þelið óskipt. Bikarinn sívalr, margblöðóttr, jafnskiptr, umkríngðr af öðrum bikar. Bikarhreystranna broddr er sem brunninn í endann.

8. Akkillisurt (*Achillæa*). Ávaxtarbotninn smáhreystróttr, ekkèrt þel. Bikarinn eggmyndaðr, þaktr, jafnskiptr. Randakrónurnar umsnúið-hjartmyndaðar, krínglóttar, hèrum 5.

9. Múkakróna (*Pyrethrum*). Ávaxtarbotninn nakinn. þelið með röndum. Bikarinn hálfkúlumyndaðr, þaktr, með hvössu, á rönðum stinnhymnóttu hreystri.

### 19. Hópr (*Syngenesia*) pípumannaðar.

### 1sta Orða (*Polygamia æqvalis*) jöfn sambúð.

#### 1. Ljónstönn (*Leontodon*).

a. Almenn Ljónstönn (*L. taraxacum*). Yztu bikarhreystrin beygð á bak aptr. Blöðin hefilmynduð, slètt, tennt; ísl. Ætifífill, Bifukolla.

Rótin laung, toppmynduð, greinótt. Af henni spretta mörg upprètt, slètt, nakin, hol sköpt, úr hvörjum, þá sundrskorin eru, drípr mjólkursaft. Blöðin öll niðr við rótina styttri enn skaptið, gegnum blaðlið er þykk, rauðleit sin. Blómstrið sitr einstakt á skaptendanum, er stórt að reikna móti skaptinu, útbreidt; lokast aptr, þá líðr að kvöldinu. Bikarhreystrin strikmynduð, í broddinu rauðleit. Smákrónurnar gular. Ytri hlið randablómstranna er rauðleit. þá krónurnar eru affallnar, út-

breiða fræin sig með fræ-ullinni ofaná í kúlumynd.

Margra ára urt; blómstrar í júní, júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

þessi alþekta urt vex í túnum og ræktaðri jörðu nærri húsum og girðíngum. Blöð urtarinnar safnist áðrenn blómstrin springa út. Rótin grafist upp á haustum. Urtin er vallgáng örfandi, þvagdrífandi, bólgu-eyðandi, mýkjandi, vessaþynnandi. Hún brúkast því móti meinlætum, vatnssýki, harðlífi, þvagstemmu, skyrbjúgi, bólgu og ígerðum, samt hörunds útbrotum. Hún brúkast: í seyði af blöðum og rót urtarinnar, sem drekkist, svo tebollum skipti, dagliga; í saft sem tilbúist af rótinni og hjartablöðunum, hvaraf takist full teskeið í senn, 3svar dagliga; í mýkjandi grautum til at gjöra út kýli og meinsemdir. þaraðauki eru blöð urtarinnar ný, í mýsu soðin, eitt hið hagkvæmasta fæði skyrbjúgs sjúklíngum, og öðrum sem veikir eru af fordjörfun vessanna, svosem kláðfeldum og spitelskum. Blómstrin soðin með vatni og álúni gefa falligan gulan lit.

### 2. Pètrsurt (*Apargia*).

a. Almenn Pètrsurt (*A. autumnalis*). Skaptið greinótt. Blómstrstaungullinn hreystraðr. Blöðin lensulík, tennt, hálfugguð, lítið snörp; ísl. Fífill.

Rótin afbitin með laungum hliðaraungum. Af henni spretta mörg uppreist, rennótt, snörp, í toppinn skipt sköpt, sem stundum eru fáblöðótt

neðan. Blöðin mörg saman við rótina, og eru útbreidd á jörðina. Blómstrstaunglarnir lítið bognir uppstígandi, ofantil þykkvir með missettu alilíku hreystri. Blómstrið einstakt lítið. Bikarinn næstum sívalr, þaktr, fínhærðr. Krónurnar gular. Fræin aflaung, skurðótt.

Margra ára urt; blómstrar í ágúst og september.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

3. Fagrkolla (*Hieracium*).

a. Fjalla Fagrkolla (*H. alpinum*). Blöðin aflaung, óskipt, tennt. Skaptið nær því nakið. Bikarinn hærðr; ísl. Undafífill.

Rótin þykk, skáhöll. Skaptið upprètt, rètt, óskipt, sívalt, hært. Blöðin aflaung, lensulík, leggjuð. Á skaptinu er 1, stundum mörg, heil á röndum, lensulík blöð. Blómstrið sitr á skaptendanum. Bikarinn er hálfkúlumyndaðr, með þèttum, dökksvörtum hárum. Krónan gul.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

b. Hærð Fagrkolla (*H. pilosella*). Blöðin sporeskjumynduð, heil á röndum, á neðra borð fýld. Skaptið nakið. Urtin hefir skríðandi reinglur; ísl. Undafífill.

Rótin trèlík, með hliðaraungum. Af henni spretta margskonar hliðarstaunglar, sem bera blöð en eingin blómstr, ogsvo mörg uppreist, óskipt, sívöl, fínhærð, 1blómstruð sköpt. Blöðin snubbótt, stuttleggjuð, á neðra borð græn, á efra borð

hvítfýld. Bikarinn svart- og hvíthærðr. Krónurnar ljósgular. Þær yztu neðraborðs rauðleitar.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

*Nytsemi og verkun:* hefir barkandi krapt.

c. Lensublöðótt Fagrkolla (*H. auricula*). Blöðin heil á röndum, lensulík. Skaptið nakið, 2- eðr 3blómstrað. Reinglurnar skríðandi; ísl. Undafífill.

Rótin skáhöll, aungótt. Skaptið uppreist, nakið, fáblómstrað. Blöðin uppreist, snubbótt, randhærð. Reinglurnar lángar, þèttblöðóttar. Blómstrin þètt saman, á stuttum staunglum. Bikarinn þètthærðr. Krónurnar ljósgular, líkjast ennar undangángandi, en eru þó minni.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

d. Afbitin Fagrkolla (*H. præmorsum*). Blöðin eggmynduð, lítið tennt. Skaptið nakið, hefir 1 klasa; efri krónurnar bera fyrr blómstr enn hinar; ísl. Undafífill.

Rótin afbitin, hefir marga hliðaránga. Skaptið upprètt, sívalt, rennótt, stutt, fínhært, í efri endann skipt. Klasinn toppmyndaðr. Blöðin snubbótt, leggjuð, snörp, bleikgræn, hafa fáar einstakar tennr. Blómstrstaunglarnir bera lítil alilík blöð; neðri greinarnar 3blómstraðar. Bikarinn slèttr. Blómstrin gul, þètt saman.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

e. Húsa Fagrkolla (*H. murorum*). Staung-

ullinn hærðr. Blómstrin í toppi. Blöðin eggmynduð, djúptennt; ísl. Undafífill.

Rótin aungótt. Staungullinn upprèttr, sívalr, óskiptr, snarpr, hærðr. Blöðin með dökkum blettum. Rótarblöðin leggjuð, eggmynduð, tennt, hærð. Staungulblöðin minni, missett, fá, sitjandi. Blómstrstaunglarnir þètt-gráhærðir. Blómstrblöðin alilík, lítil. Bikarblöðin strikmynduð, stinnhærð. Hárin hafa optar á sèr litla kirtla. Krónurnar gular.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

### 4. Þistill (*Carduus*).

a. **Akrþistill** (*C. arvensis*). Blöðin hálfugguð, þyrnótt. Staungullinn toppmyndaðr, skiptr. Bikararnir eggmyndaðir, óljóstþyrnóttir. Þelið fjaðrað.

Rótin greinótt, lítið skríðandi. Staungullinn upprèttr, lítið sívalr, jafn. Blöðin missett, með misstórum leppum, á röndum mjög þyrnótt. Blómstrin uppreist, leggjótt. Bikarhreystrin þètt, þökt á röndunum, lítið ullhærð. Krónurnar ljóslifrauðar.

Magra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Þel eðr ull urtarinnar má brúka til að fylla með dýnur og annað þess-slags.

b. **Margblöðóttr þistill** (*C. heterophyllus*). Blöðin umfaðmandi, lensulík, randhærð, heil, leppótt, á neðra borð fýld. Blómstrið einstakt, leggjað.

Rótin skríðandi. Staungullinn upprèttr, rèttr, sívalr, skurþóttr, lítið ullaðr. Blöðin breið, lensulík, hvöss, nöbbótt, á efra borð slètt, dökkgræn; á neðra borð hvítleit, ulluð. Rótarblöðin leggjótt, skipt í efri endann. Staungulblöðin umfaðmandi, missett. Blómstrin sitja einstök á staungulendanum, á laungum og sívölum, fyrir blómstrunartímann áviðlútandi, ullhærðum staungli. Stundum spretta og fáeinir blómstrstaunglar frá efri blaðöxlunum. Blaðhreystrin aðþrykkt, lítið þyrnótt. Krónurnar dökklifrauðar. Rauðaþelið snarpt, það sem í miðju er, er fjaðrað.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun.*

Blöð þessarar urtar brúkast í Noregi samblönduð tóbaki í tóbaksreyk. Saft af blöðum hennar tilbúin er góð að hreinsa með gömul sár. Í Rússlandi er gult litað með ullinni.

## 2ur Orða (*Polygamia superflua*) ójöfn sambúð.

### 5. Eylífðarblóm (*Gnaphalium*).

a. **Fjalla Eylífðarblóm** (*G. alpinum*). Staungullinn niðráviðliggjandi, óskiptr. Klasinn fáblómstraðr. Blöðin strikmynduð, beggjamegin fýld; ísl. **Fjandafæla.**

Rótin aungótt. Af henni spretta margir skríðandi við neðri endann, síðan uppreistir, fáblöðóttir, sívalir, dúnhærðir staunglar. Blöðin mörg saman við rótina, strikmynduð-lensulík. Á staunglinum missett, alilík. Blómstrin sitja í 2- eðr 4-

blómstruðum klasa á staungulendanum, og eru kúlulík, hvít og rauðleit.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

b. Skóga Eylífðarblóm (*G. sylvaticum*). Staungullinn upprèttr, óskiptr. Blómstrin eru í axini. Blöðin lensulík, við neðri endann mjórri, ulluð á báðum hliðum; ísl. Grájúrt.

Rótin aungótt. Staungullinn fyldr, sívalr, blöðóttr. Blöðin sitjandi, missett, hvöss. Axinið á staungulendanum samanstendr af einstökum blómstrum, er spretta í efri blaðhornunum. Bikarhreystrin þètt, þökt, í broddinn dökksvört. Krónurnar hvítleitar.

Margra ára urt; blómstrar í ágúst.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

c. Rèttvaxið Eylífðarblóm (*G. rectum*). Staungullinn upprèttr með margblómstruðum toppi. Blöðin strikmynduð, lensulík, á efra borð nakin.

Rótin trèlík, með mörgum hliðaraungum. Staungullinn upprèttr, sívalr, óskiptr, ullhærðr, blöðóttr. Blöðin missett, hálfumfaðmandi, við neðri endann bylgjótt, heil á röndum, á neðra borð fyld. Axið samanstendr af mörgum smáaxinum, sem eru í efri blaðhornunum. Bikarhreystrin dökkleit.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

d. Keldu Eylífðarblóm (*G. uliginosum*).

Staungullinn marggreinóttr, útbreiddr. Blómstrin þètt í staungulendanum.

Rótin greinótt, aungótt. Staunglarnir upprèttir, útbreiddir, greinóttir, sívalir, allir hvítullaðir. Neðri greinarnar jafnlángar staunglinum. Blöðin missett, sitjandi, strikmynduð. Á báðum endum mjórri, ulluð. Blómstrin lítil, hnikil- eðr kúlumynduð í efri blaðhornunum. Bikarhreystrin gulglansandi, hvöss. Krónurnar gráleitar.

Eins árs urt; blómstar í ágúst og septbr.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

6. Brekkustjarna (*Erigeron*).

a. Fjalla Brekkustjarna (*E. alpinum*). Staunglarnir einblómstraðir. Bikarinn lítið loðinn. Randakrónurnar útstandandi; ísl. Jakobsfífill, Smjörgras.

Rótin aungótt. Staungullinn (stundum vaxa margir frá einni rót) upprèttr, rèttr, strendr, blöðóttr, hærðr, óskiptr, í hvörs efri enda sprettr 1, stundum 2 blómstur. Blöðin missett, sitjandi, strikmynduð, snubbótt, hærð á röndum, sinótt, þau neðri lensulík. Blómstrin nokkuð stór. Randakrónurnar ljósrauðar, skerborðsblómstrandi. Krónurnar gular.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Þessi urt er græðandi, uppleysandi og styrkjandi. Hún er því góð móti gulu, liðaverkjum eðr iktsýki, hún örfar tíðablóð og stillir uppsölu. Bakstr af urtarinnar blöðum og mjólk dreifir bólgu í

kvennabrjóstum, ogsvo annari bólgu. Seyði af urtarinnar blöðum takist inn, 2 matspænir í senn, hvörn 3ja klukkutíma.

### 7. Brandbikar (*Senecio*).

a. Almennr Brandbikar (*S. vulgaris*). Blómstrin fyrir utan randakrónur. Blöðin hálfuggótt eðr bugðótt, umfaðmandi, tennt.

Rótin greinótt, aungótt. Staungullinn rauðleitr, við neðri endann upprèttr, greinóttr, blöðóttr, slèttr, eðr lítið ullaðr, strendr. Blöðin missett, opt hálfuggótt, snubbótt, á efra borð slètt, á neðra borðið ullhærð. Þau neðri leggjuð. Blómstrin eru toppmynduð í staungul- og greina-endunum. Blómstrstaunglarnir lítið ullaðir, rennóttir. Bikararnir kúlumyndaðir, sívalir, slèttir. Hreystrin strikmynduð, hvöss í broddinn, svört. Allar litlu krónurnar pípumyndaðar, gular, jafnlángar bikarnum. Þelið snarpt.

Eins árs urt; blómstrar leingi á sumrum.

*Nytsemi og verkun:*

Með urt þessari má lita gult.

### 8. Akkillisurt (*Achillæa*).

a. Almenn Akkillisurt (*A. millefolium*). Blöðin 2faldt-hálfugguð, hærð. Lepparnir strikmyndaðir, tenntir, með broddi. Staunglarnir skurðóttir; ísl. Jarðhumall, Vallhumall.

Rótin skríðandi. Af henni sprètta margir upprèttir, greinóttir, strendir, hærðir staunglar. Blöð-

in þèttleppótt, hvassnöbbótt, einkum á neðra borð, hærð. Blómstrin eru í hálfskýlu í staungul- og greina-endunum, hvít, lítil, þètt. Bikararnir eggmyndaðir. Randakrónurnar hèrumbil 5.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er styrkjandi, mýkjandi, samandragandi, uppleysandi, blóðhreinsandi, bætir sinateygjur og stríðleika líkamans. Hún er því góð móti allslags blóðlátum, innantökum, þvagteppu, uppþembíngi, matarólyst, hósta, gulu, og allslags innvortis bólgu. Te af urtarinnar blöðum og blómstrum drekkist, svo tebollum skipti, 3svar dagliga. Dupt af rótinni er gott að strá í illaluktandi, slæm kaun. Af blöðum urtarinnar má búa til salve þannig: Tak af blöðunum smásöxuðum 12 lóð, af nýu ósöltuðu sauðasmjöri 24 lóð; sjóð þetta saman um stund, sía síðan hið þunna frá og kreyst vel úr, og geym síðan. Þetta smyrsli er hið bezta meðal að bera á verki, stirðar sinar og tök. Urtarinnar blöð þurkuð og steytt í dupt, mega og blandast með smjöri, 4 lóð móti 12 lóðum smjörs, eru þá smyrsl þessi einkar góð til að græða sár og öll útbrot hörundsins.

9. Múkakróna (*Pyrethrum*).

a. Luktarlaus Múkakróna (*P. inodorum*). Blöðin sitjandi, uggótt, hárilík, margskipt. Staungullinn opinn, greinóttr. Frækrónan heil á röndum; ísl. Baldursbrá.

Rótin þunn, toppmynduð. Staungullinn upp-

rèttr, útbreiddr, greinóttr, blöðóttr, strendr, slèttr. Smáblöðin margskipt, mjög fín. Blómstrin einstök í greina-endunum, stór. Bikarhreystrin stór, dökk á röndum, hymnulík. Randakrónurnar aflángar, hvítar, 3tenntar. Skerborðið ávalt, með gulum krónum.

Eins árs urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi vex hèr í landi á húsum, í kálgörðum og ræktaðri jörðu. Hún er svitadrífandi, ormdrepandi, tíðirleiðandi, hjartastyrkjandi; hún stillir niðrfallssótt og aðrar sinateygjur. Blómstr urtarinnar brúkast í te, hvaraf drekkist 1 peli í senn, 2svar-sinnum dagliga. Te þetta drukkið að kvöldi dags leiðir svita; það er og einkar gott að þvo með limi þá, sem kláðfeldir eru. Mýkjandi urtagrautar af henni, útvortis álagðir, gjöra út meinsemdir, eyða bólgu; lagðir við kviðinn leiða þeir tíðablóð. Blómstr urtarinnar marin og lögð yfir fylli, eyða henni, en opt verðr um að skipta.

b. Stranda-Múkakróna (*P. maritimum*).

Blöðin 2faldt-ugguð, kjötlig, ávöl á efra borð, á neðra borð hryggjótt. Frækrónan flipótt.

Rótin trèlík, greinótt. Staunglar spretta margir frá einni rót, og eru útbreiddir, greinóttir, slèttir, rennóttir. Blöðin missett. Smáblöðin snubbóttari og styttri enn á undangángandi. Bikarinn slèttr. Hreystrin svört á röndinni. Skerborðið stórt, ávalt, gult. Randakrónurnar hvítar, snubbótt 3tenntar.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

---

## 20. Hópr.

(*Gynandria*) kvennbú.

1sta Orða (*Diandria*) tvímannaðar.

1. Hornberi (*Orchis*). Hunángshyrzlan hornilík.

2. Púngvör (*Satyrium*). Hunángshyrzlan líkist 2 uppblásnum, litlum blöðrum.

3. Lappavör (*Ophrys*). Hunángshyrzlan lítið hryggjótt, niðráviðbeygð.

**20. Hópr (*Gynandria*) kvennbú.**

**1sta Orða (*Diandria*) tvímannaðar.**

**1. Hornberi (*Orchis*).**

**a. Blettóttr Hornberi (*O. maculata*).** Hnúskarnir útskagandi, hendilíkir. Hunángshyrzlu-vörin 3flipótt, flöt. Hornið styttra enn ávaxtarhyrzlan. Krónublöðin opin; ísl. **Brönugrös, Hjónagras, Elskugras, Friggjargras, Graðrót, Vinagras.**

Staungullinn þunnr. Rótarblöðin breið, lensulík, snubbótt. Staungulblöðin mjórri, hvassari, öll svart-blettótt. Blómstrin eru í stuttu, uppmjóu, strendu axini. Blómstrblöðin lítil. Krónurnar ljósrauðar, með dökkrauðum blettum.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Rót urtarinnar hefir mýkjandi, nærandi og

stillandi krapt. Hún er því góð móti lífsýki og blóðsótt. Hún brúkast þannig: Rót sú er sökkur, sè vandliga þurkuð, síðan steytt í dupt; af dupti þessu tekr maðr þriðja part úr lóði, sem látist í leirpott, þará sè hellt einum pela af vatni, og vermist svo hægt og hægt, við lítinn eld, og hrært sè vel í, til þess verðr að jöfnu mauki; þarí látist lítið eitt af sykri, og af mauki þessu takist 2 fullir matspænir 4sinnum dagliga. Mauk þetta með hunángi er og eitt hið bezta meðal fyrir brjóstið móti hósta og hæsi.

b. **Þunnu axini settr Hornberi** (*O. mascula*). Hunángshyrzlu-vörin 4klofin, hríngnöbbótt. Hornið snubbótt. Þau efstu krónublöð beygð á bak aptr, 3sinótt.

Rótin samanstendr af 2 stórum, eggmynduðum hnúskum. Staungullinn upprèttr, sívalr, blöðóttr, slèttr. Blöðin mjó, slíðrandi, lensulík, slètt. Blómstraxinið þunnt, lángt. Krónurnar lifrauðar, hafa hvítleita vör.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

c. **Mjóvöróttr Hornberi** (*O. hyperborea*). Hunángshyrzluhornið jafnlángt ávaxtarhyrzlunni. Vörin strikmynduð, heil á röndum, afkubbuð.

Rótin er skipt í ýmsa lánga, þunna, toppmyndaða parta. Staungullinn upprèttr. Rótarblöðin sverðilík, nær því jafnlaung staunglinum. Það efsta lítið. Blómstrin sitja í þunnu, aflaungu axini. Blómstrblöðin jafnlaung blómstrinu, strik-

mynduð, lensulík. Krónan rauðleit. Ytri krónublöðin opin.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

d. **Breiðblöðóttr Hórnberi** (*O. latifolia*). Hunángshyrzlan hefir toppmyndað horn og 3klofna vör. Blómstrblöðin 2faldt leingri enn blómstrin.

Rótarhnúskarnir ójafnir, hendilíkir, skiptir. Staunglarnir upprèttir, sívalir, slèttir, holir. Blöðin breið, umfaðmandi, slíðrandi. Axinið þètt, hvast, margblómstrað. Blómstrblöðin lensulík, hvöss, blaðilík. Krónurnar lifrauðar. Hliðarkrónublöðin opin. Vörin neðanvert ljósleit, með rauðum blettum.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

e. **þrískiptr Hornberi** (*O. Königii*). Hunángshyrzluhornið styttra enn ávaxtarhúsið. Vörin skipt í misstóra, heilrandaða flipa.

Líkist mikið **mjóvöróttа Hornberanum**, en þekkist þó frá hönum við það, að rótin hefir fleiri ánga, blöðin eru breiðari og axinin þèttari saman.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

### 2. Púngvör (*Satyrium*).

a. **Græn Púngvör** (*S. viride*). Rótarhnúskarnir hendilíkir. Blöðin eggmynduð, snubbótt. Hunángshyrzlu-vörin strikmynduð, 3skipt. Miðlepprinn mjög lítill.

Rótarhnúskrinn útskagandi, hendilíkr. Staungullinn upprèttr, sívalr, slèttr. Blöðin breið-eggmynduð, snubbótt, slíðrandi, dökkgræn; þau efstu lensulík. Blómstrblöðin græn, leingri enn blómstrin. Blómstraxinið þètt, aflángt. Krónublöðin græn, dökkleit í broddinn. Vörin niðrhángandi, gulgræn.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

b. **Hvít Púngvör** (*S. albidum*). Rótarhnúskarnir mynda hneppi. Blöðin lensulík. Hunángshyrzluvörin hefir 3 leppa, hvörra leingstr sá sem í miðið er; ísl. **Brönugrös** eðr **Braunugrös.**

Rótarhnúskarnir í pörum saman, þunnir, hvassir. Staungullinn líkist undangángandi. Blöð þessarar eru mjórri og ljósgrænari. Axinið aflángt, sívalt. Blómstrblöðin jafnlaung ávaxtarhyrzlunni. Krónurnar litlar, gulleitr.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

c. **Dökk Púngvör** (*S. nigrum*). Rótarhnúskarnir hendilíkir. Blöðin strikmynduð. Hunángshyrzluvörin umsnúin, óskipt.

Staungullinn sem á undangángandi. Blöðin saman við rótina, helfíngs styttri enn staungullinn. Staungulblöðin styttri, alilík. Axinið þètt, snubbótt, eggmyndað, kúlulíkt. Blómstrblöðin leingri enn ávaxtarhyrzlan, alilík, dökkrauð. Krónurnar dökkrauðar.

Margra ára urt; blómstrar í ágúst.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

3. Lappavör (*Ophrys*).

a. **Reinglurætin Lappavör** (*O. corallorhiza*). Rótarhnúskarnir bugðótt-greinóttir, útskagandi. Skaptið slíðrað. Hunángshyrzluvörin óskipt.

Rótin hvít. Skaptið bugðótt, við neðri endann upprètt, sívalt, gulleitt, lítið gagnsært, með missettu, lángslíðrandi hreystri. Axinið fáblómstrað. Blómstrið strjált, stuttleggjað, lítið, fagr-lifrautt. Efri krónublöðin samanbeygð. Fræhúsin niðráviðbeygð.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

b. **Dökk Lappavör** (*O. nidus avis*). Rótarhnúskarnir aungótt-bindinum líkir. Skaptið slíðrað. Hunángshyrzluvörin klofin.

Skaptið rètt, sívalt í toppinn, strendt, slètt, holt, dökkgult, líkt missett-snubbóttu hreystrinu. Axinið lángt, strjált, Blómstrblöðin lensulík, hálfu styttri enn ávaxtarhúsið. Blómstrin stuttleggjuð, dökk. Krónublöðin opin.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

c. **Tvíblöðótt Lappavör** (*O. ovata*). Rótarhnúskarnir aungóttir. Á staunglinum eru 2 eggilík, sporeskjumynduð blöð. Hunángshyrzlu-vörin klofin, strikmynduð.

Rótarinnar hnúsk-ángar lángir, öll urtin græn. Staungullinn rèttr, sívalr, fínt dúnhærðr. Á hónum spretta 2 mótsett, sinótt blöð, neðar enn á miðjunni. Blómstraxinið lángt, sívalt. Blómstrin

stuttleggjuð. Krónublöðin opin, græn, hálfu styttri enn vörin. Fræhúsið aflángt, kúlumyndað.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

---

## 21. Hópr.

### (*Monoecia*) einbýli.

### 1sta Orða (*Monandria*) einmannaðar.

1. Kransblað (*Chara*). Kallkynið hefir eingann bikar eðr krónu. Dupthnapparnir eru undir ávaxtarhúsinu. Á kvennurtinni er bikarinn 4blöðóttr. Arið 3- eðr 5-klofið. Eitt margfrævað ber.

2. Vatnsstjarna (*Callitriche*). Kallblómstrið hefir eingann bikar, en 2 krónublöð. Kvennblómstrið eins, en hefir ogsvo 2 dupthyrzlur og 4 fræ.

### 2ur Orða (*Triandria*) þrímannaðar.

3. Brúsahöfuð (*Sparganium*). Blómstrin hópsett, á kallblómstrinu er bikarinn 3-blöðóttr, eingin króna. Kvennblómstrið eins, en hefir þurran, einfrævaðan steinávöxt.

4. Stör (*Carex*). Kall- og kvenn-

blómstrin sumpart saman, sumpart aðskild í þöktu axini, hafa einga krónu, en einn 1blaðkaðan bikar. Kvennblómstrið hefir 2 axini, og 1 fræ, sem er innilukt í búkmyndaðri hymnu.

3ja Orða (*Tetrandria*) fjórmannaðar.

5. Birki (*Betula*). Á kallblómstrinu eru undir sèrhvörju 3klofna streingja hreystrinu þrjár 4skiptar krónur. Kvennblómstrin hymnulík, en hafa 2 dupthyrzlur og samanþrykkt fræ.

6. Netla (*Urtica*). Á kallblómstrinu er bikarinn 3blöðóttr, eingin króna. Í ávaxtarhyrzlunnar sæti er bikarmynduð hunángshyrzla. Á kvennblómstrinu er bikarinn 2blöðóttr, undirsitjandi, eingin króna, eitt glansandi fræ.

4ða Orða (*Polyandria*) með 8 duptberum og þaryfir.

7. Hornurt (*Ceratophyllum*). Bikarinn margskiptr, eingin króna. Kallblómstrið hefir 16 til 20 duptbera. Á kvennblómstrinu er örið sitjandi. Eitt hymnótt fræ.

8. **Þúsundblað** (*Myriophyllum*). Á kallblómstrinu er bikarinn 4blöððóttr. 4 krónublöð. 8 duptberar. Á kvennblómstrinu eru 4 sitjandi axin. Bikarinn og krónurnar 4blöððóttar. 4 hymnulík fræ.

## 21. Hópr (*Monoecia*) einbýli.

### 1sta Orða (*Monandria*) einmannaðar.

#### 1. Kransblað (*Chara*).

a. **Almennt Kransblað** (*C. vulgaris*). Hefir einga þyrna, er rennótt. Blöðin alilík, liðótt.

Urtin öll niðrsokkin og hulin jarðskorpu. Staungullinn sívalr, greinóttr, meyrr. Blöðin alilík, hvöss, liðótt, eru í kransi, hèrum 8 í hvörjum kransi. Á efstu blöðunum sitja þau annars litlu blómstr, hvörra 4 umkríngja ávaxtarhúsið, fyrir neðan hvört er einn lítil-rauð kúla, sem almennt meinast að vera dupthnapprinn.

Eins árs urt; blómstrar í júlí.

b. **Hvasst Kransblað** (*C. hispida*), er skurðótt. Blöðin alilík, liðótt. Smáblöðin kransmynduð. Staungullinn með litlum burstamynduðum, ábakaptrbeygðum broddi.

Hún er leingri og þykkvari enn undangángandi, og á blöðunum sitja önnur minni blöð. Staungullinn lítið snúinn, einkum í efri endann, settr smáburstum.

Eins árs urt; blómstrar í júlí.

2. Vatnsstjarna (*Callitriche*).

a. Vorvatnsstjarna (*C. verna*). Hefir aðgreind kall- og kvennblómstur.

Rótin aungótt. Staungullinn þráðmyndaðr, veigalítill, mislángr. Blöðin mótsett, sitjandi, heil á röndum, slètt, gagnsær, stundum strikmynduð, stundum breið-aflaung, eru þètt saman að ofan, í broddinn nær því þökt. Blómstrin eru í blaðöxlunum. Kallblómstrið efst. Dupthnapparnir gulir.

Eins árs urt; blómstrar í mají og júní.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

b. Haust-Vatnsstjarna (*C. autumnalis*) hefir 2 kynja blómstur.

Hèrvið þekkist hún frá undangángandi, ogsvo við að blöð hennar eru mjó-strikmynduð; ítem að hún blómstrar seinna sumars eðr í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

2ur Orða (*Triandria*) þrímannaðar.

3. Brúsahöfuð (*Sparganium*).

a. Sveimandi Brúsahöfuð (*S. natans*). Blöðin niðráviðliggjandi, flöt. Sameginlegi blómstrstaungullinn óskiptr. Kallblómstrin mynda einstakt höfuð.

Urt þessi er lítil. Staungullinn upprèttr, sívalr, slèttr, blöðóttr, ofantil greinóttr. Blöðin slíðrandi, grasilík og liggja vatnsflöt. Optast einúngis eitt kallblómstrhöfuð, sem er á staungulendanum.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*
Með urt þessari má barka skinn.

### 4. Stör (*Carex*).

a. **Tvíbýlis-Stör** (*C. dioica*). Kall- og kvenn-axinin eru á 2 sundrskildum urtum. Fræhúsin eggmynduð, sinótt, á röndum fínt-nöbbótt.

Rótin skríðandi, með laungum aungum. Stráið upprètt, 3strendt, burstalíkt, neðantil blöðótt. Blöðin burstalík, 3strend, hvöss, slíðrandi, hálfu-styttri enn stráið. Kallaxinið strikmyndað. Kvenn-axinið fyrst strikmyndað-eggilíkt, síðan einúngis eggmyndað.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* góð fóðr-urt.

b. **Eggmynduð Stör** (*C. capitata*). Axinið eggmyndað, ofanvert kallblómstrað. Fræhúsin opin, þökt.

Rótin aungótt. Stráið upprètt, við neðri endann nærri sívalt, blöðótt, ofanvert 3strendt. Blöðin nærri jafnlaung stráinu, 3strend, hvöss, snörp. Axinið er á strásendanum eggmyndað, sívalt, fáblómstrað, og hefir hreystr, sem er heilt á röndum.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* góð fóðr-urt.

c. **Flóar-Stör** (*C. pulicaris*). Axinið ofantil kall- eðr kvenn-blómstrað. Fræhúsin útspennt, ábakaptrbeygð, hvöss á báðum endum.

Rótin aungótt. Stráin upprètt, þráðmynduð,

slètt, neðan blöðótt. Blöðin lensulík, nærri jafnlaung stráinu, rennótt á efra borð. Arið vex á stráendanum, strikmyndað, uppreist. Kallblómstranna hreystr aðþrykkt.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* góð fóðr-urt.

d. **Sand-Stör** (*C. arenaria*). Á neðri smáaxininum spretta kvenn-, hinum efri kallblómstur. Fræhúsin hymnulík, rendótt; neðri blómstrblöðin blöðumlík.

Rótin skríðandi, mikið laung, með dúnhærðum aungum og dökkhreystruðum liðum. Á sèrhvörjum þessara vex bogið, uppstígandi, hvast-3strendt, við rótina blöðótt strá. Blöðin við neðri endann slíðrandi, strikmynduð, hvöss, flöt, upprètt, á röndum snörp, nær því jafnlaung stráinu. Axinið eggmyndað-aflángt, auðsjáanliga af missettum, þèttstandandi, breiðeggmynduðum smáaxinum. Blómstrblöðin eggmynduð-lensulík, dökkleit með grænum kjöl, og endast með laungum, hvössum broddi. Þau neðri leingri, þau efri styttri enn smáaxinin. Bikarhreystrið eggmyndað-lensulíkt. Fræhúsið klofið í broddinn.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:*

Urtin hefir blóðhreinsandi, svita- og þvagleiðandi krapt. Hún er góð fóðr-urt.

e. **Tóu-Stör** (*C. vulpina*). Axinið 2faldt samansett, samanhneppt, snubbótt. Fræhúsin útspennt. Hreystrin hvöss. Smástrendurnar samanþrykktar, hvassar.

Rótin aungótt. Stráið upprètt, stinnt, með íbjúgum, snörpum hliðum, blöðótt, þykkt, slètt. Blöðin breið, dökkgræn; þau efstu ná uppyfir axinið. Axleggrinn þynnri enn stráið. Axinið aflángt, snubbótt; stundum stendr litið axin á einum legg fyrir neðan hið stærra. Smáaxinin uggmynduð, neðan kall-, í broddinn kvenn-kyns. Blómstrblöðin mjó, stinn, útstandandi. Hreystrin eggmynduð, stinn, dökkhymnótt, grænhryggjótt. Fræhúsið eggmyndað, hvast, með lítið ávölum hliðum.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* sama sem undangángandi.

f. Hvassblöðótt Stör (*C. muricata*). Axinið aflángt, nærþví 2faldt samansett. Fræhúsin útskagandi, hvöss, klofin, ofanvert á röndum nöbbótt.

Rótin aungótt. Stráið upprètt, hvass-3strendt, ofan snarpt, neðan blöðótt. Blöðin mjó, strikmynduð, leingri enn stráið, ljósgræn, á röndum snörp, ogsvo á kjölnum. Axinið stutt, þunnt, neðantil opt með millibilum. Smáaxinin sívaltaflaung, snubbótt. Á þeim spretta kall- og kvennblómstr, og eru kallblómstrin ofar. Blómstrblöðin eggmynduð, lensulík, fínt-hvest. Fræhúsaröndin ofantil smá-nöbbótt.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* góð fóðr-urt.

g. Stuttblöðótt Stör (*C. curta s. canescens*), hefir sporeskjumynduð, strjál axin.

Hreystrin eggmynduð, hvöss, hymnulík, styttri enn það tilhvesta fræhús.

Rótin aungótt. Stráið 3strendt, upprètt, jafnt, blöðótt við neðri endann. Blöðin mjó, strikmynduð, hvöss, jafnlaung stráinu. Smáaxinin mjó-eggmynduð, missett, ljósgrá. Blómstrblöðin lítil að undanteknu blaðinu, sem er hjá litla neðsta axininu. Ávöxturinn eggmyndaðr, samanþrykktr.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

h. **Litil hvassblöðótt Stör** (*C. m. loliacea*) hefir minna, einfaldt, samansett axin, sem ogsvo er eggmyndað, en svo útskagandi fræhús. Blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* góð fóðr-urt.

i. **Fínstaunglnð Stör** (*C. elongata*). Smáaxinin aflaung, sitjandi, strjál. Fræhúsin aflaung, hvöss, snubbótt, strend, sinótt, lítið beygð á bak aptr, með óskiptum munna.

Rótin skríðandi, þykk, með hliðarrangum. Stráin upprètt, 3strend, neðantil blöðótt, við rótina sett mjóu, lensulíku, dökku hreystri. Blöðin mjó-strikmynduð, lítið rennótt, styttri enn stráið. Smáaxinin 8 til 12, missett. Hreystrin styttri enn fræhúsin sem eru strjál.

Margra ára urt; blómstrar í júni.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

k. **Rjúpustör** (*C. lagopina s. leporina*). Smáaxinin 3, þètt. Hreystrin lítil. Fræhúsin nær því kúlumynduð, hvöss-nefjótt, með

snubbóttum, heilrönduðum strendum, og 2 flipóttum munna.

Rótin lítið skríðandi, aungótt. Af henni vaxa nokkur ófrjóf, blöðótt rótarskot. Stráið uppreist, bugðótt, 3strendt, blöðótt. Smáaxinin umsnúið-eggmynduð. Blómstrblöðin hálfu styttri enn axinin, lensulík, dökkleit. Hálfu styttri eru hreystrin enn fræhúsin.

Margra ára urt.

l. **Steina-Stör** (*C. saxatilis*) hefir hèrumbil 3, eggmynduð, missett, að undanteknu því neðsta, sitjandi axin. Kallaxinið aflángt. Hreystrin eggmynduð-snubbótt. Fræhúsin eggmynduð, í broddinu óskipt; ísl. **Rauðbrestíngr.**

Rótin skríðandi. Af henni vaxa ýmiskonar blöðótt, ófrjóf rótarskot. Stráið áviðbogið, 3strendt, neðantil blöðótt. Blöðin strikmynduð, hvöss, styttri enn stráið. Kallaxinið sprettr á stráendanum, og er lítið leingra enn kvennaxinin, sem eru 2 eðr 3, snubbótt, svört. Neðsta axinið hefir við legginn 1 blað jafnlángt axininu. Fræhúsin svört, aflaung, eggmynduð.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

m. **Stinn Stör** (*C. rigida*). Blómstrblöðin slíðrlaus. Axinin eggmynduð, þau efstu sitjandi. Blöðin lítið ábakaptrbeygð, stinn. Fræhúsið lítið samanþrykkt.

þessi stör líkist mjög enni undangángandi,

líkliga sömu tegundar, utan hún er stinnari, og axleggrinn mikið styttri enn stráið. Blöðin breiðari.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

n. **Gul Stör** (*C. flava*). Blómstrblaða slíðrin stytt, nær því jafnlaung axleggnum. Kvennaxin sívöl. Fræhúsin nefjótt, bogamynduð, beygð á bak aptr. Stráið jafnvaxið.

Rótin skríðandi. Stráið uppreist, rètt, hvass-3strendt, neðantil blöðótt. Blöðin uppreist, breiðstrikmynduð, slíðrandi, lítið leingri enn stráið, ljósgræn. Blómstrblöðin líkjast hinum blöðunum; það neðsta nærri jafnlángt þeim; þau efstu lítið beygð á bak aptr. Kallaxinið strikmyndað, uppreist. Kvennaxinin 2 eðr 3, hvörra hið neðsta er stuttleggjað. Fræhúsin leingri enn hreystrin, gul.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

o. **Fíngrilík Stör** (*C. pedata*). Axinin nær því sitjandi, fáblómstruð, opin. Blómstrblöðin stutt. Fræhúsið bogið. Blöðin mjó.

Rótin aungótt. Af henni spretta mörg bogin, upprètt, þræðilík, nærri sívöl, blaðlaus strá, sem neðantil eru í dökkum slíðrum. Blöðin eru niðrvið rótina, jafnlaung stráinu, strikmynduð, snörp á röndum, slètt á kjölnum, mjó. Kallaxinið sitr efst. Kvennaxinið 2leggjað, það efra hærra enn hitt, þau eru sitjandi, fáblómstruð, opin. Blómstrblöðin stutt, skáhallt-afkubbuð, snubbótt. Hreystrin dökkrauð, niðrþrykkt, afkubbuð. Fræhúsið bogið, 3strendt, fínhært, kylfumyndað.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

p. **Hvöss Stör** (*C. acuta*). Blómstrblöðin skeiðalaus. Axinin þráðmynduð. Fræhúsin sporeskjumynduð, snubbótt, óskipt í broddinn; ísl. Tjarnastör.

Rótin skríðandi. Stráið, upprètt, hvest, snarpt, 3strendt, fyrir blómstrunartímann lútandi, eptir hann stinnt. Blöðin fagrgræn, styttri enn stráið. Blómstrblöðin lík hinum blöðunum; það neðsta jafnlángt efstu axinunum. Axinin laung og mjó; þau 2 efstu kvennkyns, þau neðstu leggjuð. Á kvennaxinablómstrinu vaxa kallblómstur. Hreystrin svört. Fræhúsin affallandi, leingri enn hreystrin.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

q. **Hárleggjuð Stör** (*C. capillaris*). Blómstrblaðaslíðrin hálfu styttri enn axleggirnir. Kvennaxinin lin, lútandi. Fræhúsið hvast.

Rótin með fínum og laungum aungum. Stráið upprètt, þunnt, nærri sívalt, neðan blöðótt. Axinin þunn, fáblómstruð, dökkgul, og vaxa á laungum, þræðilíkum, lútandi leggjum, opt 2 eðr 3 af einu slíðri. Hreystrin hvítstrend, eggmynduð, styttri enn fræhúsin.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

r. **Skarn-Stör** (*C. limosa*). Blómstrblöðin nærri slíðrlaus. Kvennaxinin eggmynduð, hángandi. Fræhúsið sporeskjulíkt, samþrykkt.

Rótin skríðandi. Stráin uppstígandi, neðan rótum skjótandi, 3strend, snörp, frá miðju niðreptir blöðótt. Blöðin mjó, strikmynduð, alilík, neðantil hreystruð, styttri enn stráið. Kallaxinið

strikmyndað, lensulíkt, uppreist. Kvennaxinin (stundum eru þau 2) lángleggjuð, breidt-eggmynduð, nærri hjartmynduð, með breiðu og dökkgulu strendu hreystri, og uppreistu, alilíku blómstrblaði, jafnlaung staunglinum. Fræhúsin lítið leingri enn hreystrin.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

s. Bleik Stör (*C. pallescens*). Axinleggja slíðrin stutt. Axinin sívöl, leggjótt; þau blómstr-berandi niðrhángandi. Fræhúsin sporeskjumynduð, uppblásin, snubbótt.

Rótin aungótt. Stráið uppreist, 3strendt, ofan snarpt, neðan blöðótt. Blöðin bleikgræn, mjó, strikmynduð, jafnlaung stráinu. Blómstrblöðin laung, blöðum lík. Kallaxinið uppreist, strikmyndað, lensulíkt. Kvennaxinið næstum eggmyndað, bleikgult, með broddóttu hreystri. Fræhúsin bleikgræn.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

t. Axbinðinis-Stör (*C. psevdocyperus*). Axleggirnir nær því slíðrlausir. Kvennaxinin sívöl, leggjuð, hángandi. Hreystrin strikmynduð með strii. Fræhúsin lángnefjótt, útskagandi, klofin í broddinn.

Rótin með laungum aungum. Stráið upprétt, hvast, snarpt, 3strendt, blöðótt. Blöðin breiðstrikmynduð, á röndum smá-nöbbótt, á efra borð snörp, ljósgræn. Neðri blómstrblöðin eru sömu myndar, og nærri eins stór og hin blöðin. Kallaxinið uppreist, strikmyndað, dökkgult. Kvenn-

axinin græn, lítið þykkvari, eru nálæg hvört öðru á þunnum, snörpum leggjum.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

u. **Blöðrustör** (*C. vesicaria*). Kallaxinin sívöl. Kvennaxinin aflaung, stuttleggjuð. Leggirnir skeiðalausir. Fræhúsið uppblásið, 2klofið, nefjótt. Stráið hvass-3strendt.

Rótin skríðandi. Stráið upprètt, rètt, snarpt á strendunum. Blöðin mjó, strikmynduð, hvöss, uppreist, lin í efri endann, á röndum snörp. Blómstrblöðin laung, líkjast hinum blöðunum. Kallaxinin 2 eðr 3, þunn, hvöss. Kvennaxinin 2 eðr 4, sem eru þunn fyrir blómstrunartímann. Hreystrin beggjamegin lensulík, hvöss. Fræhúsin opin, gul, leingri enn hreystrin, sinótt, slètt.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

v. **Trjónu-Stör** (*C. ampullacea*). Axinin sívöl. Kvennaxinin laung, leggjótt. Fræhúsin blöðrulík, kúlumynduð, með klofnu, opnu nefi. Stráið sljóft, 3strendt.

Urt þessi líkist mikið næst undangángandi, en hefir fleiri eðr 3 til 4 kallaxini. Kvennaxinanna lögun og leggir eru nokkuð fráleit. Fræhúsið hefir leingra nef og sljóstrendt strá.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

x. **Hærð Stör** (*C. hirta*). Axinin aflaung. Kvennaxinin uppreist, strjál, leggjótt. Hreystrin hafa strí. Fræhúsin aflaung, eggmynduð, loðin, hvöss, með útskagandi munni.

Rótin laung, skríðandi. Stráið upprètt eðr

uppstígandi, 3- og hvass-strendt, blöðótt. Blöðin hvöss, strikmynduð, uppreist, styttri enn stráið, hærð á neðra borð og á slíðrunum. Blómstrblöðin líkjast hinum blöðunum. Kallaxinin optast 3 og þètt saman, lensulík, dökk. Kvennaxinin strjál, grænleit, ei þèttþökt.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

y. **Svört Stör** (*C. atrata*). Axinin leggjuð. þau blómstrberandi uppreist; þau fræberandi niðrhángandi. Fræhúsin eggmynduð, hvöss, í broddinn 2tennt.

Rótin svört, aungótt. Stráið uppreist, hvass-3strendt, neðantil blöðótt. Blöðin þètt saman við rótina, nærri jafnlaung stráinu. Axinin 3 eðr 4, aflaung, dökk; það neðsta hefir reifar jafnlángar leggnum. Hreystrinn svört.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

z. **Fjallastör** (*C. montana*). Kallaxinið sitr nálægt kvennaxininu, hvörutveggi eggmynduð í efri endann, á nærri blaðlausu strái.

Rótin aungótt, skríðandi. Stráin uppstígandi. Blöðin mjó, mjúk, bleikgul. Axinhreystrið slètt, hymnulíkt, hvast. Fræhúsin loðin.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

þ. **Sótlituð Stör** (*C. fuliginosa*). Slíðrin hálfu styttri enn axleggrinn; efsta axinið kall- og kvenn-blómstrað. Kvennaxinin lángleggjuð, lútandi. Fræhúsin lensulík, með klofnum munna og leingra enn hreystrin.

Rótin aungótt. Stráið upprètt, 3strendt, blöð-

ótt. Blöðin strikmynduð, styttri enn stráið, lángslíðrandi. Axinin lensulík, dökkleit. Þau neðstu blómstrblöð blaðilík. Hreystrin og fræhúsin dökksvört. Það efsta kvennaxin hefir stundum kallblómstr í broddinum.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

æ. Dökkleit Stör (*C. atrofusca*). Axinin eggmynduð. Leggirnir lángir, á bak aptr beygðir. Blómstrblöðin midt slíðrandi, í broddinn blaðilík. Fræhúsin eggmynduð, hvöss, með stuttu, klofnu nefi.

Rótin aungótt. Stráið upprètt, neðan blöðótt, sljóf-3strendt. Blöðin fá, lángslíðrandi, strikmynduð, lensulík. Kallaxinið eggmyndað-aflángt, snubbótt. Kvennaxinin 2, hvörra hið neðra er stærra, með laungum legg, sem er umslíðraðr af blaðilíku blómstrblaði. Það efra þarámóti slíðrað án blaðs. Fræhúsin hvass-strend.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

### 3ja Orða (*Tetrandria*) Fjórmannaðar.

### 5. Birki (*Betula*).

a. Hvítt Birki (*B. alba*), hefir eggmynduð, hvöss, nöbbótt, slètt blöð; ísl. Birki, Björk, Rifhrís.

Er trè, sem hefir nokkurnvegin rèttan bol, með hvítum berki, hvörs yzta hymna er mikið þunn, og flysjast auðveldliga af, og laungum, þunnum, í efri endann lítið dúnuðum, hángandi kvist-

um. Blöðin missett, leggjuð, nærþví múraraspaða mynduð, ójafnt-nöbbótt. Streingirnir sívalir, leggjóttir, hángandi. Kvennstreingirnir minni enn kallstreingirnir. Fræin vængjuð á röndunum.

Blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:*

Trè þetta hefir styrkjandi, þvagdrífandi, blóðhreinsandi, samandragandi og barkandi krapt. Af nýsprottnum og þurkuðum blöðum þess gjörist te. Af berkinum gjörist seyði, hvaraf mátuligt er að taka 2 matspæni í senn. Púlvèr af berkinum er gott móti megn- og krapta-leysi, og matar-ólyst; þaraf takist full teskeið í senn, 3svar dagliga, í spæni, fullum af mysu. Af trè þessu fæst og það í útlöndum alræmda birkivatn. Það skeðr á þennann hátt: á vorum fyrrenn laufin springa út, tekr maðr þá yztu húð af, sem svari ríxortsstórum bletti á fullvaxinni, þó ei gamalli hríslu; borar síðan með stuðulnafri neðanfrá skáhallt uppávið. Í þetta gat setjist pípa úr arnar eðr álftarfjöðrum. Undir vatn það sem rennr, setr maðr, og láti síðan vatnið á flöskur, og leggi til þess sykr eðr húnáng, hèrumbil 5ta part, og geymir síðan, svo leingi eigi fúlnar. Saft þessi inntekin, 2 teskeiðar í senn, 2svar til 4sinnum dagliga, er þvagleiðandi, styrkjandi, samandragandi, ormdrepandi, blöðrusteini eyðandi; ítem góð móti skyrbjúgi, holdsveiki, kláða og gulu. Birkivatnið seydt í tin- eðr leirpotti, við mjög hægan eld, verðr að saft mjög líkri sýrópi, og sem hefir líka krapta vatninu; þaraf takist 1 full teskeið. Börkrinn

stórt mulin og á hann sett vatn, sem standi hèrum 14 daga nærri il, litar skinn, sem er fitulaust, lifrautt, sè það í löginn lagt, og látið liggja nokkra daga, þartil nógu dökkt verðr. Birkiblöð, nýsoðin með vatni og álúni, gefa gulan lit.

b. Dvergabirki (*B. nana*). Blöðin krínglótt, hríngnöbbótt; ísl. Fjalldrapi.

Er runni, að nokkruleiti upprèttr, að nokkruleiti framáviðliggjandi, 2skipt-greinóttr, með dökkrauðum berki og dúnhærðum kvistum. Blöðin missett, stuttleggjuð, slètt, stinn, minni enn 2skildíngr. Kall- og kvenn-streingirnir stuttleggjaðir, uppreistir, eggmyndað-sívalir, og eru einstakir í blaðhornunum. Fræin flöt.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

6. Netla (*Urtica*).

a. Brennu-Netla (*U. urens*). Blöðin mótsett, sporeskjumynduð, 5sinótt. Klasarnir einfaldir.

Rótin aungótt. Staungullinn upprèttr, greinóttr, með hvítum, brennandi hárum. Blöðin leggjótt, hvassnöbbótt, snörp, stinn og randhærð. Axinblöðin snörp, beygð á bak aptr. Blómstrkransarnir í blaðhornunum, nær því jafnlángir staunglinum. Kvennbikarinn samanþrykktr.

1 árs urt; blómstrar í júní, júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

b. Tvíbýlis-netla (*U. dioica*). Blöðin mótsett, hjartmynduð. Blómstrklasarnir greinóttir í pörum saman, kall- og kvennblómstr-

in sundrskilin sitt á hvörri urt; ísl. Brennunetla, Notrugras.

Rótin greinótt, skríðandi, seig. Staunglarnir upprèttir, greinóttir, rennóttir, með hvítum hárum. Blöðin leggjuð, nöbbótt, með hvítum, brennandi hárum. Axinblöðin eggmynduð, uppreist. Blómstrklasarnir leingri enn á undangángandi.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi hefir þvagleiðandi og uppleysandi krapt. Hún brúkast því móti tíðateppu og votum hósta. Af seyði rótarinnar, sem blandað sè með 8da parti af húnángi, takist 2 spónblöð í senn, 4sinnum dagliga. Blöð urtarinnar hafa á efra borðinu stíngandi brodda, með þeim er einkar gott að stínga aflvana og tilfinníngarlausa limi líkamans.

## 4ða Orða (*Polyandria*) með 8 duptberum eðr fleiri.

### 7. Hornurt (*Ceratophyllum*).

a. Þyrni-frævuð Hornurt (*C. demersum*) hefir þyrnóttann ávöxt.

Staungullinn lángr, þráðmyndaðr, blöðóttr, sumpart sveymandi, sumpart niðrsokkin. Blöðin eru í krönsum í kríngum staungulinn, 8 í hvörjum kransi, 2skipt, samansett með strikmynduðum, ofantil rennóttum eðr tenntum leppum, sem á þeim efri eru pílumyndaðir. Blómstrin sitjandi, einstök;

í blaðhornunum. Ávöxturinn aflángr, hefir 1 þyrnir í efri og 2 í neðri endann.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

8. **Þúsundblað** (*Myriophyllum*).

a. **Axinblómstrað þúsundblað** (*M. spicatum*). Blómstrin með millibilum axmynduð, blaðlaus.

Staunglarnir lángir, þráðmyndaðir, niðrsokknir og sveymandi, greinóttir, blöðóttir, einkum ofan. Blöðin 4sett, kransmynduð, kambmynduð, uggótt, með opnum, slèttum, alilíkt-strikmynduðum smáblöðum. Axinin rètt-þráðmynduð í staungul- og greina-endanum, eru fyrir ofan vatnið og bera blómstrið í krönsum, sem eru með litlum eggmynduðum blómstrblöðum. Krónublöðin ljósrauð, hol, stærri á kall- enn kvenn-blómstrunum, sem sitja neðst og hafa ullhærð ör.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

b. **Kransblómstrað þúsundblað** (*M. verticillatum*). Blómstrkransarnir í blaðhornunum.

Líkist mikið undangángandi, en hefir þó þèttari blöð, sem eru 5sett, hvörra efri, sem eru hjá blómstrunum, eru minni og dökkgræn, ekki svo smáskipt. Item hefir þessi urt minni hvítleit blómstrblöð, og blómstrunarformið er öðruvísi.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

## 22. Hópr.

### *(Diœcia)* tvíbýli.

#### 1sta Orða *(Diandria)* tvímannaðar.

1. Víðir (*Salix*). Blómstrin í einum streing. Kallblómstrið hefir við neðri endann 1 hunángskirtil; 1 til 5 duptbera. Kvennblómstrið hefir 2 ör, og 1rúmað 2blaðkað fræhús. Ulluð fræ.

#### 2ur Orða *(Triandria)* þrímannaðar.

2. Krækilýng (*Empetrum*). Bikarinn 3skiptr. 3 krónublöð. Kallblómstrið hefir 3 alltað 9 duptbera. Kvennblómstrið hefir 9 ör, og eitt 9frævað ber, sem er fyrir ofan blómstrið.

#### 3ja Orða *(Octandria)* áttmannaðar.

3. Rósajurt (*Rhodiola*). Bikarinn 4skiptr. 4 krónublöð. 4 randskornar hunángshyrzlur. Kvennblómstrið hefir 4 duptbyrzlur. 4 margfrævuð fræhús.

#### 4ða Orða *(Monadelphia)* samvaxnar.

4. Einir (*Juniperus*). Á kallblómstrinu er einn hreystraðr streingr; eingin króna; 3

duptberar. Kvennblómstr-streingrinn samanstendr af fáum hreystrum, sem fyrst eru kjötlig og síðan gróa saman í eitt þrífævað ber.

## 22. Hópr (*Diœcia*) tvíbýli.

### 1sta Orða (*Diandria*) tvímannaðar.

#### 1. Víðir (*Salix*).

a. **Dvergavíðir** (*S. herbacea*). Blöðin kríngl-ótt, nöbbótt, slètt, netmynduð, æðótt, á báðum hliðum glansandi. Fræhúsið slètt; ísl. **Grasvíðir, Kotúngslauf.**

Rótin djúpt niðr, með fínum auugum. Bólrinn greinóttr, opt framáviðliggjandi, rótum skjótandi. Blöðin stuttleggjótt, fín-nöbbótt, stinn, sitja í greinatoppnum. Streingirnir í greina-endunum fáblómstraðir, eggmyndaðir. Hreystrin rauð á röndum. Fræhúsin eggmynduð, lensulík.

*Nytsemi og verkun:* góð fóðr-urt.

b. **Bláberjavíðir** (*S. myrtiloides*). Blöðin eggmynduð, hvöss.

Er hríslulík trèurt, með greinóttum, görðóttum bol. Greinarnar rauðleitar; þær efstu ljósrauðar. Blöðin eru í greinatoppinum, þètt saman; á efri hlið græn, á neðri hlið gráleit, á röndum beygð a bak aptr. Á þeim vöxnu dökkrauð.

Blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

c. **Blágrár Víðir** (*S. glauca*). Blöðin egg-

mynduð-aflaung; á neðra borð fín, ullhærð; ísl. Gráviðir, Kotúnsviðir, Tág.

Er hrísla. Bólrinn og greinarnar görðóttar, dökkrauðar, slèttar. Blöðin stuttleggjuð, snubbótt, slètt, lítið hærð; græn á efra borð, hvít neðan. Streingirnir eggmyndað-leggjóttir á greinaendunum, hvítir og svo þèttullaðir, að valla sjást hreystrin. Blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

d. Ullblöðóttr Víðir (*S. lanata*). Blöðin beggjamegin ullhærð, kríngl{ó}tt, hvöss.

Er lítill runni með hvítleitum greinum. Blöðin snubbótt, ávið krínglótt, með litlum broddi, þètt-, hvít- og láng-ulluð. Streingirnir á greinaendunum, þykkir, sívalir, snubbóttir, með fínum hárum. Blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

e. Lapplenzkr Víðir (*S. lapponum*). Blöðin lensulík, loðin.

Bólrinn greinóttr, dökkr. Blöðin þètt saman í greina-endunum, hvöss; á efra borð dökkgrá, á neðra borð hvítleit. Kvennstreingirnir aflángir þá eru í blóma, en sívalir þá frævast. Kallstreingirnir minni, afláng-sívalir. Blómstar í júní.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

f. Sandvíðir (*S. arenaria*). Blöðin nær því heil á röndum, eggmynduð, hvöss; á efra borð lítið, á neðra borð mikið þètt-ullhærð.

Er runni með þykkum, ullhærðum, rauðleitum greinum. Blöðin leggjuð; á efra borð dökk-

græn, neðantil hvít. Kvennurtarblöðin mjórri; á neðra borð silkihærð. Fræhúsið hært.

Blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

g. Geitarvíðir (*S. caprea*). Blöðin egg-myndnð, hvöss, nöbbótt, bylgjótt, á neðra borð fýld. Axlablöðin nær því túnglmynd-uð. Fræhúsin búkmynduð; ísl. Selja.

Urt þessi er stundum hríslulík, stundum sem trè. Greinarnar jafnar, gráglansandi, dökkleitar. Blöðin stuttleggjuð, meir eðr minna aflaung, eðr kringlótt, stundum hvöss, stundum snubbótt, á nývöxnu greinunum stærri enn á þeim eldri; á röndum hríngbúgðótt, bylgjótt, í broddinn nöbbótt; á efra borð jöfn, neðan gráfýld. Axlablöðin kríng-lótt, túnglmynduð, beygð á bak aptr, hríngbugðótt, smáfýld. Streingirnir stórir, þykkir, spretta fyrri enn blöðin. Hreystrin umsnúið-eggmynduð, hærð. Fræhúsin leggjuð, hærð. Örin nærri óskipt.

Blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Víðir þessi er bezta trè til smá- og fagr-smíðis.

h. Netblöðóttr Víðir (*S. reticulata*). Blöð-in sporeskjumynduð, kringlótt, heil á rönd-um, slètt, netmynduð, æðótt; á neðra borð blágrá. Fræhúsin ullhærð.

Er lítil hrísla. Rótin lítið skríðandi. Bólr-inn framáviðliggjandi, greinóttr, útbreiddr, sívalr, þykkr eptir hæðinni, rauðleitr í broddinn. Blöðin lángleggjuð, stór, snubbótt, lítið randskorin á röndum, beygð á bak aptr, með rauðleitum, net-

mynduðum æðum á neðra borðið. Streingirnir á staungul- og greina-endunum, lángleggjaðir.

Blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

i. Gráviðar-Víðir (*S. fusca*). Blöðin lítið tennt, eggmynduð; á efra borð dökk, smáhærð; á neðra borð glansandi fýld.

Ræturnar mjög lángar. Bólrinn upprèttr, greinóttr. Kvistirnir grádúnaðir, lángir. Blöðin stuttleggjuð, myndast ýmisliga, eru stundum aflaung, stundum kringlótt. Streingirnir eru missettir á kvistunum, og eggmyndað-aflángir, loðnir. Ávaxtarhyrzlan lensulík, stuttleggjuð, silkihærð. Blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

k. Glansvíðir (*S. myrsinites*). Blöðin sporeskjumynduð, nöbbótt, slètt, æðótt, á báðum hliðum glansandi. Kvistirnir stinnhærðir. Fræhúsin alilík, dúnhærð.

Er hrísla. Bólrinn greinóttr. Greinarnar útskagandi, hefir glansandi, þètt blöð, er sitja visin á greinunum. Axblöðin nöbbótt, slètt. Streingirnir eggmyndaðir, aflángir á kvista-endunum.

Blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

l. Hríslóttr Víðir (*S. arbuscula*). Blöðin lensulík, smátennt, fyrir utan axlablöð. Kvistirnir dúnhærðir; ísl. Beinvíðir.

Er lítið hríslótt trè, með opnum, uppreistum greinum, er hafa dökkan börk. Blöðin missett, stuttleggjuð, þunn, beggjamegin slètt. Blaðstaunglarnir þunnir, linir. Blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

m. Lárberja blöðóttr Víðir (*S. pentandra*). Er 5mannaðr. Blöðin sporeskjumynduð, lensulík, slètt. Ávaxtarhyrzlan slètt, nær því sitjandi.

Er trè. Greinarnar glansandi, slèttar. Blöðin hvöss, stuttleggjuð, smánöbbótt; á nöbbunum límug; á báðum hliðum græn, slètt. Blaðstaunglarnir kirtlóttir við neðri enda blaðanna. Streingirnir eru á kvista-endanum. Kallstreingirnir litlir, sívalir, niðráviðbeygðir, gulir; kvennstreingirnir leingri og þynnri, með dökku hreystri. Duptberarnir venjuliga 5, stundum 7. Ávaxtarhyrzlan lensulík. Blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:*

Víðir þessi er styrkjandi, barkandi, mótstendr forrotnun, skyrbjúgi, ormum og köldu. Hann er því góðr móti allslags óstyrk, matarólyst, forrotnunar köldu, blóðlátum, lífsýki, blóðsótt. Seyði af berkinum takist 2 matspænir í senn, 4sinnum dagliga. Dupt af berkinum takist 1 teskeið í spæni fullum af mysu, 3svar dagliga. Af berkinum má dropa tilbúa þannig: tak af berkinum smámuldum 4 lóð, af bezta brennivíni 16 lóð, lát svo standa við il í viku, sía síðan það þunna frá. Af dropum þessum takist 60 í senn, 4sinnum dagliga, í spæni fullum af vatni. Með víðirberki má barka skinn, með sama hætti sem birkiberki.

n. Skríðandi Víðir (*S. repens*). Blöðin sporeskjumynduð, lensulík, með litlum

broddi; á efra borð slètt, á neðra borð silkihærð, blágrá. Bólrinn niðráviðþrykktr. Bólrinn framáviðliggjandi, greinóttr, lítið skríðandi, dökkr. Greinarnar þèttar, nærri samflæktar, ljósleitar, slèttar, ófantil silkihærðar. Blöðin þètt saman, silkihærð á röndum, beygð á bak aptr. Kvistirnir settir missettum, aflángteggmynduðum, snubbóttum streingjum. Hreystrin umsnúið-eggmynduð, lítið innþrykkt, rauðleit. Fræhúsin lensulík, fínhærð, leggjuð. Blómstrar í júní. *Nytsemi og verkun:* sama sem næstundangángandi.

## 2ur Orða (*Triandria*) þrímannaðar.

### 2. Krækilýng (*Empetrum*).

a. Dökkt Krækilýng (*E. nigrum*). Bolirnir framáviðliggjandi; isl. Krækilýng, Lúsalýng.

Rótin með laungum aungum, skríðandi. Bolurinn greinóttr, rótum skjótandi. Greinarnar uppreistar, dökkrauðar. Blöðin stundum dreif, stundum kransmynduð, opin, stuttleggjuð, mjó-aflaung, snubbótt, þykk, á röndum beygð á bak aptr, hærð, á flatvegnum slètt. Blómstrin sitja staungullaus í efri enda þeirra ársgömlu greina í blaðhornunum. Krónublöðin lítil, aflaung, rauð. Duptberarnir lángir. Dupthyrzlan stutt, dökkrauð. Örið 9geislað. Berið kúlumyndað, svart, með 9 fræum, sem sitja í hríng. Stundum hefir sama urtin bæði kall- og kvennblómstr, eru þá kallblómstrin ofar enn hin. Blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:*

Ber urtarinnar eru kælandi, og lítið samandragandi. Lögur berjanna seyddr er því góðr móti lífsýki, sèu af hönum teknir 2 matspænir í senn, hvörn annann tíma. Mauk tilbúið af berjunum, blandað með vatni, er góðr drykkr móti þorsta og hita landfarsóttar-sjúkra. Af lög berjanna má víni líkan drykk tilbúa á norskan hátt, með því móti, að lögurinn sè látinn á heldan eikarkút, síðan sè af nýbökuðu bakstrofns brauði bráðheit sneið tekin, í skyndi brotin og þannig í löginn látin, gegnum botngatið eðr sponsið, það sè síðan tilbyrgt; kemr þá gángr í, hvör þá varað hefir um hríð mínkar, verðr þá lögurinn klárari og veldrekkandi. Þess tel eg vissa von, að lögur þessi, lítið soðinn með horblöðku, og síðan á flöskum geymdr, mundi leingi halda sèr óskemdr, og þannig verða eitt ágætt meðal móti skyrbjúgi og þvagstemmu. Sè ullar og líntægi fyrst soðið með vatni og álúni, og þareptir þurkað, síðan seydt með vatni og berjum þessum mörðum, fær það lifrauðan lit.

### 3ja Orða (*Octandria*) áttmannaðar.

### 3. Rósajurt (*Rhodiola*).

a. Ilmandi Rósajurt (*R. rosea*) hefir þökt, umsnúið-eggmyndað, kjötlig blöð. Blómstrin eru í einum skúf; ísl. Burni, Burkni, Höfuðrót, Hellnuhnoðrarót, Greiðurót.

Rótin þykk, kjötlig; af henni spretta margir

upprèttir, óskiptir, giörvalt blöðóttir staunglar. Blöðin sitjandi, slètt; í efri endann lítið nöbbótt. Blómstrskúfarnir á staungulendanum. Blómstrin gul. Kvennkrónurnar minni enn kallkrónurnar. Duptberararnir jafnlángir krónunum.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi vex í klettaskórum, einkum móti norðri eðr frá sólu, og hefir stóra rót. Hún hefir barkandi, styrkjandi, forrotnun mótstandandi, vessaleysandi krapt. Hún er því góð móti lífsýki og blóðsótt, styrkir veikar sinar, og er einkar góð í illaluktandi og slæm sár, líka móti gulu og öðrum innvortis meinum. Af seyði rótarinnar má taka í senn 2 matspæni, 3svar dagliga. Rótin ný smásöxuð, og hnoduð með nýu sauðasmjöri, er gott í holdfúa sár. Hún hreinsar og græðir. Af dupti rótarinnar takist lítil teskeið, 3svar dagliga. Með gulu blómstrunum og rótinni má gult lita, ef soðið er með litlu af álúni. Einnig er seyði rótarinnar þènanligt til skinnabörkunar.

### 4ða Orða (*Monadelphia*) samvaxnar.

#### 4. Einir (*Juniperus*).

a. Almennr Einir (*J. communis*). Blöðin 5sett, opin, brodduð, þyrnótt, leingri enn berið; ísl. Einir, Einirber.

Er hrísla, sem hefir rèttan stinnan og marggreinóttan bol, með slèttum berki. Blöðin ævarandi græn, nálmynduð, blágrá, þèttust í kvistabroddinum. Blómstrin eru í litlum, sitjandi, egg-

mynduðum streingjum í blaðhornunum. Berið kúlumyndnð, dökkleitt, verðr ei fullvaxið fyrrenn ári eptir að urtin hefir blómstrað. Blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:*

Lauf og ber þessa trjávaxtar eru svita- og þvagleiðandi, vindeyðandi, magastyrkjandi, uppörfandi, forrotnun mótstandandi. Þau brúkast því móti vatnssýki, þvagstemmu, skyrbjúgi, tíðateppu, vindi og óhægðum í inniblum, andarteppu, máttleysi og liðaverkjum. Seyði af laufi einirsins má brúka 1 matspón í senn, hvört dagsmark. Te af blöðunum drekkist, er svari 1 pela, 3svar dagliga. Einirlauf eru einkar góð í gufubað móti aflleysi og liðaverkjum. Það er ogsvo gott í vot fótaböð, móti tíðateppu. Berin og laufin eru eitt hið hollasta reykelsi, einkum þá næmar sóttir gánga.

---

## 23. Hópr.

### (*Cryptogamia*) Huldubú.

### 1sta Orða (*Filices*) Breknur.

1. Elting (*Eqvisetum*). Á laufinu er einn streingr. Kríngum fræin eru 4 rykktir, duptberandi duptþræðir.

2. Asmund (*Osmunda*). Axinið greinótt. Fræhúsin nakin, kúlumynduð.

3. Höggormstúnga (*Ophioglossum*).

Axið í 2 röðum. Fræhúsið innþrykkt í axinið.

4. Úlfsfótr (*Lycopodium*). Fræhúsin samanþrykkt, einstök, í blaðhornunum.

5. Burkni (*Polypodium*). Blómstrin í krínglóttum dreifðum blettum, bæði með og fyrir utan reifar.

6. Smáblóm (*Asplenium*). Blómstrin í dreifum strikum. Reifarnar opna sig við laufa rifin.

7. Fiskiæti (*Isoetes*). Sameginlegi áváxtarbotninn fyrir innan neðri enda laufsins. Fræin snörp.

2ur Orða (*Musci*) Blaðmosar.

3. Rauðmosi (*Sphagnum*). Fræhúsmunninn jafn. Hettan þverskorin, umkríng fræhúsið við neðri endann.

9. Hármunni (*Phascum*). Fræhúsið lokað, með ævarandi aptrlæstu loki.

10. Brunnamosi (*Fontinalis*). Fræhúsið innilokað í hreytruðum mosabikar.

11. Buxviðr (*Buxbaumia*). Fræhúsin skáhöll, búngótt á aðra, en flöt á hina síðuna.

12. Skuggahnappr (*Splacnum*). Fræhúsið sívalt, sitjandi á stórum viðbætir. Hettan affallandi.

13. Jómfrúarhár (*Polytrichum*). Fræhúsið sitjandi á litlum viðbætir. Hettan ullhærð.

14. Endahnappr (*Bryum*). Hettan jöfn. Ávaxtarleggrinn í staungul- og greinaendunum.

15. Hlíðarhnappr (*Hypnum*). Hettan jöfn. Ávaxtarleggrinn sprettr á mosabikar, á staungul-hliðunum.

16. Stjörnumosi (*Mnium*). Kvennurtarinnar botèl aflaung, perulík. Munnarnir 2; hinn ytri tenntr; sá innri hymnulíkr, leppóttr. Kallblómstrið stjörnumyndað í efri endann. Hettan slètt, alilík. Lokið hvast.

17. Berjamosi (*Gymnostomum*). Kvennurtarinnar munnr utan tanna. Kallurtarinnar blómstr stjörnumyndað á aðskilðum staunglum. Botèlið eggmyndað.

18. Krónumosi (*Tetraphis*). Munnurinn einstakr, víðr, 4klofinn, stjörnumyndaðr, Botèlið aflángt, nærri jafnbreitt, rètt.

19. Grimmja-mosi (*Grimmia*). Botèlið með einföldum munna, mestan part tennt, eggmyndað. Staungullinn greinóttr.

20. Rakmosi (*Orthotrichum*). Fræhúsið aflángt. Munninn 2faldr; sá ytri með 16 áþakaptr vundnum tönnum; sá innri ogsvo með einsmörgum.

21. Bartram-mosi (*Bartramia*). Botèlin kúlulík. Munnurinn 2faldr; sá ytri tenntr. Tennurnar hvassar; innri munnurinn hymnóttr, rykktr. Kvenn- og kallblómstrin samsitjandi. Lokið hvast. Hettan alilík.

3ja Orða (*Hepaticæ*) Laufamosar.

22. Júngermann-mosi (*Jungermannia*). Fræhúsið 4klofið. Ávaxtarleggrinn vex á pípumynduðum mosabikar.

23. Marchantsmosi (*Marchantia*). Kallblómstrið sitjandi, nakið. Kvennblómstrið umsnúið-eggmyndað. Fræhúsin eru viðfest leggjaðann, sameginligan, í efri endann gapandi ávaxtarbotn. Hjá fræunum spretta kúfúngsmyndað - snúnir, fjöðurkraptaðir þræðir.

24. Hornmosi (*Anthoceros*). Ávöxturinn strikmyndaðr, alilíkr, hálf-tvíblöðkóttr, slíðraðr við neðri endann af einum afkubbuðum, einblómstruðum bikar.

25. Blasmosi (*Blasia*). Kallblómstrið sitjandi, nær því kúlumyndað, sokkið ofaní laufið, skáhalt-eggmyndað, einrúmað. Endi þess er sem gapandi pípa.

26. Rikkja-mosi (*Riccia*). Fræhúsið niðrsokkið í laufið, er kúlumyndað, einrúmað með affallandi pípu.

4ða Orða (*Algæ*) þarrar.

27. Vatnshymna (*Ulva*) er gagnsær, blaðilík hymna. Blómstrin eru smákorn, sem einkanligast eru á röndunum.

28. þarri (*Fucus*). Blómstrin eru í hópsettum, ávölum blöðrum í sjálfum laufunum.

29. Vatnssilki (*Conferva*) er hárumlíkir þræðir á innri hlið með smákornum.

30. Dúnull (*Byssus*) er fínir, samflettaðir þrædir. Blómstrin smákorn.

31. Mósi (*Lichen*). Ávaxtarbotninn ým-

isliga myndaðr, sitr annaðhvort á skorpu eðr laufmynduðum líkömum.

5ta Orða (*Fungi*) Sveppar.

32. Blaðsveppr (*Agaricus*). Hattrinn á neðra borð blöðkum settr, sem eru hvör við aðra.

33. Pípusveppr (*Bolitus*). Hattarins neðra borð holótt.

34. Rykkíngar-sveppr (*Helvella*). Hattrinn rykktr, óreglulega skiptr, niðráviðbeygðr.

35. Bikarsveppr (*Peziza*). Hattrinn hálfkúlumyndaðr, holr.

36. Kylfusveppr (*Clavaria*) með einsettri eðr greinóttri kylfu.

37. Riksveppr (*Lycoperdon*) er sívalr, kríngló ttr, fullr af mjölilíku fræi.

38. Skjálfandi (*Tremella*) er líkr soðhlaupi, og er óreglulega myndaðr. Æxlunar verkfærin ósjáanlig.

39. Mygla (*Mucor*) eru smáblöðrur með leggjum.

## 23. Hópr (*Cryptogamia*) Huldubú.

### 1sta Orða (*Filices*) Breknur.

#### 1. Eltíng (*Eqvisetum*).

a. **Algeing Eltíng** (*E. arvense*). Ófrjófu staunglarnir allir greinóttir. Greinarnar snarpar. Blómstrstaungullinn óskiptr. Slíðrin strjál, breitt innskorin; ísl. **Eltíng**, **Góúbitill**, **Gvondarber**, **Grómbitill**, **Sætutág**, **Sultarepli**, **Skollafótr**.

Rótin skríðandi. Blómstrstaunglarnir gulleitir, með stórum, skurðóttum slíðrum, og á enda þeirra einstökum, dökkum, aflaungum streing. Þeir ófrjófu þynnri, ljósgrænari, með minni slíðrum. Greinarnar kransmyndaðar, snarpstrendar.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er barkandi, þvagleiðandi. Hún er því góð móti lífsýki og þvagteppu, samt blóðlátum. Seyði af urtinni drekkist, svo tebollum skipti, 3svar dagliga. Sè línskaf eðr njarðarvöttur vættr í seyði þessu og stúnginn í nef manni, stillist nasablóð. Urtin er lèlig fóðr-urt fyrir nautpeníng og fè, en úngum hestum eykr hún fjör, en ei krapta.

b. **Skóga-Eltíng** (*E. sylvaticum*). Greinarnar samsettar, bylgjótt beygðar, niðráviðbeygðar, snarpar.

Rótin skríðandi. Urtin öll græn. Staungullinn rèttr, liðóttr, skurðóttr, snarpr. Greinarnar

kransmyndaðar, að öðruleiti líkar staunglinum. Einn liðrinn umfaðmar hinn annann svoleiðis, að efri endi neðra liðsins er utanum neðri part hins efra með 5 skiptum, dökkum hymnulaufum. Streingirnir einstakir á staungulendanum, uppreistir, eggmyndaðir, snubbóttir, dökkleitir.

Margra ára urt; blómstrar í maí og júní.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er góð og þènanlig að barka með skinn. Sömuleiðis að fægja með horn, bein og málma.

c. Keldu Elting (*E. palustre*). Blómstr-staunglarnir strendir, greinóttir, hafa upprèttar, snarpar greinar.

Rótin skríðandi. Staungullinn settr þèttum, þunnum, liðóttum, óskiptum, grænum greinum. Slíðrin hvít á röndum. Streingrinn í staungulendanum dökkleitr.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

d. Tjarna Elting (*E. fluviatile*). Ófrjófu staunglarnir þètt- og snarp-greinóttir; þeir blómstrandi óskiptir. Slíðrin þètt, á röndum burstamynduð, margskipt.

Urt þessi þekkist frá enni undangángandi, við að hún er hærri, þykkri, og hefir þykkan, aflángan, gulleitan, snubbóttan streing á staungulendanum. Ófrjófu-staunglarnir hvassir, með margföldum, þunnum, og, þá fullvaxnir eru, laungum greinum. Slíðrtennurnar svartar. Blómstrar í maí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

e. **Skarnelting** (*E. limosum*). Þær fáu staungulgreinar jafnar. Streingrinn á staungulendanum.

Líkist mjög undangángandi, og álízt af summum urtavísum að vera sömu tegundar, en má þó þekkjast frá henni við að staungullinn er þynnri, liðirnir smærri, slíðrtennurnar styttri, færri greinar á blómstr- og eingar á ófrjófu-staunglunum.

Margra ára urt; blómstrar í maí.

f. **Fægíngar-Elting** (*E. hyemale*). Staungullinn nakinn, snarpr, neðantil fágreinóttr. Slíðrin neðantil hvítleit, ofan svört. Streingurinn í staungulendanum; ísl. **Eskigras, Góebitill.**

Urt þessi þekkist frá enni undangángandi við að hún hefir blágráan lit, stutt, strjál slíður, og er snörp. Þegar staunglarnir ekki hafa streing á endanum, eru þeir hvassir.

*Nytsemi og verkun:*

Með urt þessari má vel fægja horn, bein og málma.

2. **Osmund** (*Osmunda*).

a. **Túngl-Osmund** (*O. lunaria*). Laufið uggótt, neðantil axinberandi. Smáblöðin túnglmynduð, hríngnöbbótt; ísl. **Túnglurt.**

Rótin aungótt. Laufið leggjótt, slètt, mínkandi, misjafnt-uggað, gulgrænt. Axinið leggjað, uppreist, greinótt. Greinarnar í 2 röðum. Á röndum þeirra sprettu ljósdökk, slètt fræhús.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

3. **Höggormstúnga** (*Ophioglossum*).

a. **Almenn Höggormstúnga** (*O. vulgatum*). Skaptið einfaldt. Axinið í 2 röðum. Laufið eggmyndað, æðalaust.

Rótin aungótt. Urtin samanstendr af einstöku, leggjuðu, dökkgrænu blaði, sem er heilt á röndunum; við neðri enda sprettr upprejst, leggjað, strikmyndað, einnar síðu, tvíraðað axini. Axleggrinn leingri, eðr jafnlángr blaðstaunglinum.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* sæmilig fóðr-urt.

4. **Úlfsfótr** (*Lycopodium*).

a. **Fjalla Úlfsfótr** (*L. alpinum*). Blöðin í 4 röðum, þökt, hvöss, hryggjótt. Blómstrblöðin eggmynduð-lensulík, flöt. Smágreinarnar upprèttar; ísl. **Jafni**.

Staunglarnir framáviðliggjandi, skríðandi, þunnir, lítið blöðóttir, mislángir. Greinarnar upprèttar, þètt-blöðóttar. Blómstrgreinarnar missett-greinóttar. Blöðin slètt. Blómstraxinið og svo stutt. Blómstrblöðin breið neðan, hvöss að ofan. Fræhúsin nýrumlík, gul.

Margra ára urt; blómstrar í ágúst.

b. **Almennr Úlfsfótr** (*L. clavatum*). Blöðin dreif, ofantil breiðmynduð. Blómstrblöðin breið, hymnulík. Blómstrgreinarnar neðantil flatar, burstalíkar; í efri endann 2- eðr 3skiptar; ísl. **Jafni, Jafnabróðir**.

Staunglarnir framáviðliggjandi, útbreiddir á allar síður, greinóttir, rótum-skjótandi. Blómstr-

greinarnar uppreistar; þær ófrjófu liggjandi. Blöðin þètt, þökt, nálmynduð, endast í þráðmynduðum bursta. Uppreistu greinarnar endast í flötum, burstalíkum, uppreistum legg, á hvörjum vaxa 2 eðr 3 sívöl axin. Blómstrblöðin gul. Fræhúsin í blaðhornunum sitjandi, einstök, gul. Fræin brennisteinsgul, fín.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Báðar (þessi og undangángandi) urtir eru þerrandi, verkeyðandi, barkandi, uppleysandi; þær brúkast móti iðraverki, uppþembíngi, blóðsótt og lífsýki. Seyði af þeim drekkist, svo hálfpelum skipti, 3svar dagliga. Smáskornar og eltar saman við smjör, eðr salve af þeim tilbúið, er gott að draga í lèreft, og leggja yfir líf barna sem uppblásið er. Mosar þessir báðir lita gult, með því móti, að birkiblöð sèu fyrst seydd í vatni, þartil láti maðr síðan Jafna eðr Jafnabróðir smáttskorinn, og sjóði þarí ull til orðin er fálliga gul.

c. Áttsettr Úlfsfótr (*L. selago*). Blöðin dreif, hvít, nakin á röndum, lensulík, öll eins sköpt, áttröðuð. Staungullinn 2skiptr, upprèttr; ísl. Vargslappi, Skollafíngr.

Rótin með laungum aungum. Staunglarnir upprèttir, eðr uppstígandi, greinóttir, snubbóttir, þykkir. Blöðin þètt, dökkgræn. Fræhúsin í blaðöxlunum; nýrumlík.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

d. Fimmsettr Úlfsfótr (*L. annotinum*). Blöðin dreif, lítið nöbbótt, nakin á röndunum, 5sett. Blómstrblöðin breið, afkubbuð. Blómstrgreinarnar æðótt-liðóttar.

Staunglarnir skríðandi, blöðóttir. Blómstrgreinarnar upprèttar, 2skiptar, hafa lið fyrir hvört ár. Blöðin lensulík, jafnt-útstandandi. Blómstrblöðin þètt, þökt, gulleit. Fræhúsin nýrumlík, gul.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

e. Flatr Úlfsfótr (*L. complanatum*). Blöðin 2sett, samgróin. Blaðið á efra borðinu einstakt. Axinin í pörum, leggjuð.

Staungullinn framáviðliggjandi, flat-sívalr, greinóttr. Greinarnar 2skiptar, flatar. Blöðin þökt, hvöss. Staungulblöðin eggmynduð, lensulík. Blómstrblöðin breið, ljósgul. Á enda blómstrgreinanna er lángr, þunnr, gulleitr leggr, sem í efri endann er skiptr, og ber 2 sívöl axini.

Margra ára urt; blómstrar í júlí og ágúst.

*Nytsemi og verkun:*

Með blöðum urtar þessarar má gult lita, hafi maðr lýng með.

f. Efa-Úlfsfótr (*L. dubium*) hefir óskipt, upprètt, flatþrykkt skot. Blöðin samfýld, hryggjótt, missett, tveggja hliða þökt.

Skotin þètt, hvöss á báðum endum.

Margra ára urt. *Nytsemi og verkun:* óþekkt.

g. Randhærðr Úlfsfótr (*L. selaginoides*). Blöðin dreif, randhærð, lensulík. Blómstrblöðin opin.

Rótin smáaungótt. Af henni spretta margir niðráviðliggjandi, greinóttir staunglar, sem neðantil hafa minni blöð enn ofan. Blöðin innáviðbeygð í broddinn, ljósgræn, glansandi. Fræhúsin eru í blaðhornunum, og þekkjast þarvið að þau efstu eru einföld og þau neðstu hafa 4 frækorn.

Margra ára urt; blómstrar í ágúst.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

5. Burkni (*Polypodium*).

a. Stórúggaðr Burkni (*P. filix mas*). Smáblöðin snubbótt, nöbbótt. Staungullinn smáhreystróttr. Blómstrblettirnir krínglóttir, með stórum, nýrumlíkum reifum; ísl. Burn, Burkni, Tóugras.

Rótin stór, vatnsflöt, hreystrótt. Laufin umhverfis, lensulík, uppreist. Blöðin missett, lensulík, med laungum broddi. Smáblöðin slètt, nöbbótt, einkum í broddinn, í blaðendunum samgróin. Á hvörju smáblaði eru stórir blómstrblettir í 2 röðum, 3 eðr 4 í hvörri röð. Reifarnar sem hylja þessa bletti, eru skammvinnar, klofnar öðrumegin.

Margra ára urt; blómstrar í júlí, ágúst og september.

*Nytsemi og verkun:*

Urt þessi er barkandi og ormdrepandi. Seyði af rótinni nýrri drekkist 1 tebolli í senn, kvöld og morgna. Brend til ösku, gefr hún mikið lútarsalt, og brúkast því af Enskum til sápugjörðar. Með urtinni og rót hennar má og barka skinn með sama hætti og birkiberki. Með blöðum hennar má grænt lita. Urtin er góð fóðr-urt.

b. **Smáuggaðr Burkni** (*P. filix fæmina*). Smáblöðin hálfugguð, nöbbótt, broddlaus. Laufleggrinn jafn. Reifarnar nýrumlíkar.

Rótin þykk, hreystrótt, vatnsflöt; á henni vaxa mörg umhverfis breið-lensulík, dökkgræn lauf. Blöðin missett, lensulík, hvöss. Smáblöðin aflaung, niðráviðhlaupandi, þèttsett litlum blómstrblettum, sem hafa reifar.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

c. **Meyr Burkni** (*P. fragile*). Neðri blöðin strjál. Smáblöðin hálfugguð, innskorin, nöbbótt. Laufleggirnir vængjaðir.

Rótin hreystrótt, skríðandi, margaungótt. Af henni spretta mörg umhverfis, 3ja hliða, lensulík, slètt, dökkgræn lauf. Staungullinn dökkr, glansandi, slèttr, meyr. Blöðin lítið missett. Smáblöðin hjartmynduð, eðr umsnúið-eggmynduð-lensulík. Blómstrblettirnir kúlumyndaðir, litlir, hvítleitir.

Margra ára urt; blómstrar í júní og júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

d. **Brunna Burkni** (*P. fontanum*). Laufið strikmyndað, lensulíkt, hvasst. Smáblöðin hjartmynduð, snubbótt, hálfuggótt, hríngnöbbótt, á efra borð slètt.

Rótin með þèttum og laungum aungum; af henni spretta mörg uppreist, mjó lauf. Staunglarnir lítið bognir, neðantil settir stórum hreystrum. Smáblöðin missett, þètt saman, á efra borð ljósgræn, á neðra borð með þèttum blómstrblettum.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

e. **Almennr Burkni** (*P. vulgare*) með aflaungum, lítið nöbbóttum, snubbóttum leppum.

Rótin hreystrótt, vatnsflöt, skríðandi, sett dökku hreystri og dökkum hárum. Af henni spretta mörg uppreist, slètt, leggjuð, lensulík, neðst ugguð lauf. Fliparnir umskiptandi, þeir neðstu lítið innskornir við neðri endann eframegin. Blómstrblettirnir sitja einraðaðir, beggjamegin sinarinnar á flipunum.

Margra ára urt; blómstrar allt sumarið.

*Nytsemi og verkun:*

Í Noregi eta menn rót urtar þessarar; líka er hún þar möluð til mjöls og höfð til brauðgerðar. Hún hefir og mýkjandi og slímhreinsandi krapt.

f. **Loðinn Burkni** (*P. ilvense*). Laufin uggótt, hafa á sèr aflaung, hálfugguð, snubbótt, á neðra borð loðin smáblöð. Lepparnir eggmyndaðir, heilir á röndum. Blómstrblettirnir þèttir á röndunum.

Rótin þètt, aungótt; á henni vaxa mörg uppreist, lángleggjuð, umhverfis lensulík lauf. Staunglarnir, einkum á nývöxnum urtum hærðir. Smáblöðin mótsett; þau neðstu strjál.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

g. **Túngluggóttr Burkni** (*P. lonchitis*). Smáblöðin túnglmynduð, ranðhærð, tennt. Staunglarnir hreystróttir.

Laufin uppreist, lensulík, með mörgum ugg-um. Smáblöðin stuttleggjuð, þètt, hvassnöbbótt, neðan hríng-flipótt; þau efstu blómstrberandi. Blómstrin í gulum óreglulígum blettum.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

h. **Þríblöðóttr Burkni** (*P. dryopteris*). Laufin 3faldt-ugguð. Blöðin opin, niðráviðbeygð. Smáblaðalepparnir snubbóttir, lítið hríngnöbbóttir.

Rótin þræðilík, þunn, skríðandi, hreystrlaus. Laufstaungullinn þunnr, lángr, slèttr, einsog laufið, skiptist fyrst í 3 leggi, hvörjir aptr eru 2uggóttir. Laufið umhverfis nærri jafnt, 3ja hliða, þunnt, ljósgrænt. Smáblöðin aflaung, sitjandi, mótsett, þau neðstu samgróin. Blómstrblettirnir litlir, eru nær því á röndunum.

Margra ára urt; blómstrar í júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

i. **Mýra-Burkni** (*P. thelypteris*). Laufblöðin hálfugguð, lítið hríngnöbbótt; þau neðstu ugguð, standa í kross. Blómstrblettirnir samanhlaupandi.

Rótin laung, skríðandi; á henni spretta mörg uppreist, umhverfis breið-lensulík lauf, undir hvörjum er lángr leggr. Blöðin mótsett-lensulík, hvöss, slètt, með eggmynduðum leppum, sem eru á neðra borð þèttsettir blómstrblettum. Þegar þeir eru fullvaxnir orðnir, beygjast þeir á bak aptr á röndunum.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

k. **Safnaðar Burkni** (*P. phegopteris*). Blöðin 2 innskorin. Þau neðstu smáblöð niðrávíðbeygð, og sitja saman við neðra enda staungulsins. Stærri blöðin hvöss í efri endann, þau minni snubbótt, aflaung, heil á röndum.

6. **Smáblóm** (*Asplenium*).

a. **Norðrlenzkt Smáblóm** (*A. septentrionale*). Laufið hálfuggað, 3skipt. Smáblöðin eðr lepparnir missett-strikmyndaðir, í broddinn trosnaðir.

Rótin þètt, svört, með laungum aungum. Á henni spretta mörg uppreist, í efri endann niðrávíðbeygð, lángleggjuð, dökkgræn, slètt, neðanvert mjórri lauf. Blómstrstrikin þètt, dökk og hylja allt neðra borðið.

Margra ára urt; blómstrar allt sumarið.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

7. **Fiskiæti** (*Isoetes*).

a. **Sjó-Fiskiæti** (*I. lacustris*). Laufin alilík, hálf-sívöl. Fræhúsin kringlótt, 2rúmuð.

Rótin hnöllótt, með mörgum laungum aungum. Laufin uppreist, lík sefi, þètt saman, hvöss, liðótt, slètt, fjórrúmuð, neðantil hvítleit, umfaðmandi fræhúsið, sem er fullt af mörgum litlum hvítum fræum.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

## 2ur Orða (*Musci*) Blaðmosar.

8. **Rauðmosi** (*Sphagnum*).

a. **Almennr Rauðmosi** (*S. cymbifolium* s.

*palustre*). Greinarnar niðráviðbeygðar, uppblásnar. Blöðin eggmynduð, snubbótt, búkmynduð; ísl. Barnamosi.

Urtin öll hvít eðr rauðleit. Mosastaungullinn upprèttr, settr mörgum þèttblöðóttum, broddþunnum greinum. Blöðin þètt, hvört ofaná öðru, í broddinn lítið innáviðbeygð, á efra borð hol. Ávaxtarleggrinn á staungul- og greina-endunum, hefir á efri enda aflángt, kúlumyndað fræhús með flötu loki.

Margra ára urt; blómstrar í júní.

*Nytsemi og verkun:*

Menn segja, að mosi þessi sè góðr að leggja í skó við fótasviða og fótadofa; hann er og hentugr að troða með húsþil, ogsvo til þèttíngar. 5 eru hèraðauk tegundir sama kynferðis, sem eru hvör annari svo líkar, eðr lítið mismunandi, að ei virðist þörf þær sèrílagi að útmála.

9. Hármunni (*Phascum*).

a. Skaptlaus Hármunni (*Ph. acaulon*) hefir lángan legg. Fræhúsið kringlótt. Blöðin lítið eggmynduð, hvöss.

Eins árs urt; blómstrar í nóvember.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

2 eru hèraðauk tegundir sama kynferðis, sem eru mjög líkar þeirri fráskírðu.

10. Brunnamosi (*Fontinalis*).

a. Lángr Brunnamosi (*F. antipyretica*). Staungullinn greinóttr. Blöðin eggmynduð,

hvöss, hryggjótt, þökt, 3röðuð, hafa umsnúið-eggmyndað hliða fræhús.

Staunglarnir greinóttir, blöðóttir, fljótandi, linir. Blöðin dökkgræn, heil á röndum. Fræhúsin nær því sitjandi umkríng á mosabikarnum. Lokið alilíkt, fleigmyndað, snubbótt. Ber ávöxt á sumrum.

*Nytsemi og verkun:*

Mosi þessi, sem leingi heldr í sèr deiglu, er góðr til að varna bruna með.

b. Litli Brunnamosi (*F. minor*) með uggmynduðum, hvössum blöðum. Fræhúsin eru í toppinum. Líkist að öðru þeim undangángandi, en er minni.

c. Hærðr Brunnamosi (*F. capillacea s. sqvamosa*) er lángleggjaðr, með mjóum, lensulíkum, dökkgrænum blöðum.

11. Búxviður (*Buxbaumia*).

a. Blöðóttr Búxviður (*B. foliosa*) er legglaus, hefir skaptlausan fræhnapp, sem er umkríngðr hvössum blöðum.

Eins árs urt; blómstrar í október.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

12. Skuggahnappr (*Splachnum*).

a. Eggmyndaðr Skuggahnappr (*S. ampullaceum*). Viðbætirinn umsnúið-uppmjór, sykrtoppmyndaðr, snubbóttr, grændökkrauðr, þèttari enn fræhúsið. Blöðin lensulík, hvöss, nöbbótt.

Staunglarnir þèttir, upprèttir. Blöðin þètt, hryggjótt, þau neðri mjórri. Fræhúsleggrinn leingri enn staungullinn, bugðóttr, rauðleitr. Fræhúsið lítið, gulleitt, sívalt. Viðbætirinn perulíkr, rauðleitr. Eins árs urt; ávaxtast í júní og júlí.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

b. **Klukkulíkr Skuggahnappr** (*S. urceolatum*). Leggrinn greinóttr. Blöðin aflaung, rekumynduð.

c. **Flöskulíkr Skuggahnappr** (*S. vasculosum*) með flöskulíku, eðr nær því hnöllóttu fræi, eðr ávaxtarhúsi. Viðbætirinn rauðr, stór. Blómstrstaungullinn stuttr.

d. **Mosa-Skuggahnappr** (*S. mnioides*). Leggrinn einsettr. Blöðin lensulík, hærð, líkist mikið klukkulíka skuggahnappnum, en er minni.

e. **Rauðr Skuggahnappr** (*S. rubrum*). Blöðin eggmynduð. Blómstrskýlan purpurarauð, ávöl á aðra, en flöt á hina hliðina.

13. **Jomfrúarhár** (*Polytrichum*).

a. **Almennt Jómfrúarhár** (*P. commune*). Staungullinn óskiptr. Blöðin strikmynduð, lensulík, fín-nöbbótt. Fræhúsið uppreist, ferhyrndt. Viðbætirinn sívalr.

Rótin með laungum, þèttum aungum, skríðandi, hærð. Staungullinn upprèttr, rèttr, blöðóttr. Blöðin dökkgræn, stinn, opin, slètt. Blómstrið tvíbýlis á staungulendanum, og sýnist þá kallbúið mynda skerborði líka stjörnu. Kvennfræhúsið sitr

á dökkum legg, hefir rauðleitan munn og gulleitt lok. Hettan 2föld, sú minni hymnulík, sú ytri þètt-gulleit, hærð.

Margra ára urt; blómstrar í júní, ávaxtast í september.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

b. Fjalla Jómfrúarhár (*P. alpinum*). Staungullinn greinóttr. Blómstrstaungullinn í endanum. Blöðin heil á röndum, mjó. Fræhnapprinn eggmyndaðr. Hettan loðin.

c. Krukkulíkt Jómfrúarhár (*P. urnigerum*). Staungullinn greinóttr. Blaðstaunglarnir millum blaðanna. Botèlið sívalt, eingínn viðbætir. Hettan loðin.

d. Vængjað Jómfrúarhár (*P. aloides*). Blöðin 2ja hliða útstandandi. Botèlið einnar síðu.

14. Endahnappr (*Bryum*).

a. þak-Endahnappr (*B. rurale*). Staungullinn greinóttr. Blöðin snubbótt, beygð á bak aptr, hærð í broddinn, þau efstu stjörnumynduð. Fræhúsin eggmynduð, sívöl.

Staunglarnir þètt saman, greinóttir, blöðóttir. Blöðin dökkgræn, heil á röndum, aflaung. Leggirnir í staungulendanum eðr á hliðunum, þá staungullinn verðr leingri. Fræhúsið uppreist.

Margra ára urt; ávaxtast í apríl.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

b. Beygðr Endahnappr (*B. flexuosum*). Blómstrstaungullinn marghlykkjóttr. Blöðin

hárumlík. Botèlið tennt. Tennurnar 2-klofnar, stuttar, nokkuð innáviðbeygðar.

c. Litaðr Endahnappr (*B. extinctorium*). Staungullinn nær því einfaldr, eðr lítið greinóttr. Blöðin lensulík. Botèlin aflaung, uppreist. Hettan gul-glansandi með alilíkum broddi.

d. Alilíkr Endahnappr (*B. subulatum*). Staungullinn lítið skiptr. Blöðin lensulík. Botèlin uppreist, alilík. Hettan slètt.

e. Dránga-Endahnappr (*B. scoparium*). Staungullinn upprèttr, greinóttr. Blöðin lensulík, 1síðu. Blómstrstaunglarnir í efri enda staungulsins.

f. Bylgjóttr Endahnappr (*B. undulatum*). Botèlin aflaung, uppreist. Blómstrstaunglarnir einsettir. Blöðin lensulík, hryggjótt, bylgjótt, tennt.

g. Missettr Endahnappr (*B. heteromallum*). Botèlin rètt, lítil. Hettan alilík. Staungullinn rèttr. Blöðin hárilík, 1síðu.

h. Mosa Endahnappr (*B. hypnoides*). Staungullinn greinóttr. Hliðargreinarnar stuttar. Blómstrstaunglarnir ogsvo stuttir. Botèlin eggmynduð. Hettan uppmjókkandi. Urtin öll loðin.

i. Sylfr Endahnappr (*B. argenteum*). Botèlin hángandi. Mosastaungullinn sívalr, þaktr, slèttr.

k. Dupt-Endahnappr (*B. pulveratum*). Botèlin sitjandi, lítið lútandi. Blöðin hærð, hárumlík.

i. Snubbóttr Endahnappr (*B. pyriforme*). Botèlin upprètt, eggmynduð. Hettan alilík. Mosastaungullinn greinalaus. Blöðin eggmynduð, hvöss.

15. Hliðarhnappr (*Hypnum*).

a. Toppgreinóttr Hliðarhnappr (*H. proliferum*). Staungullinn 3faldt-uggaðr. Blöðin hjartmynduð, aðþrykkt, 1- eðr 3sinótt, lin, heil á röndum, lokið alilíkt; ísl. Gamburmosi.

Staunglarnir framáviðliggjandi, þrykktir niðr að jörðu. Blöðin þètt, þökt, litið hol. Mosabikarinn alilíkr. Leggirnir rauðir, margir saman. Fræhúsið sívalt.

Margra ára urt; ávaxtast í maí.

*Nytsemi og verkun:*

Mosa þennan má brúka í dýnur, og að troða í rifur á þilhúsum.

b. Lensublöðóttr Hliðarhnappr (*H. taxifolium*). Staungullinn einsettr, greinalaus. Blaðið lensulíkt, einsett, uggótt, frá hvörs neðri enda blómstrstaungullinn sprettr. Botèlið lútandi; ísl. Gambrmosi.

*Nytsemi og verkun:* sama sem undangángandi.

c. Tenntr Hliðarhnappr (*H. denticulatum*). Staungullinn greinalaus. Blómstrstaungullinn geingr út frá rótinni. Blöðin 2sett. Botèlin með snubbóttu loki.

d. Þrísettr Hlíðarhnappr (*H. triquetrum*). Greinarnar niðráviðbeygðar. Blöðin

eggmynduð-útbreidd, ábakaptrbeygð í 3 röðum.

e. **Brekniblöðóttr Hliðarhnappr** (*H. filicinum*). Staungullinn greinóttr, fjöðurlíkr. Greinarnar lítið aðskildar. Blöðin eggmynduð, hvöss, 1síðu.

f. **Veggja Hliðarhnappr** (*H. parietinum*) er mjög líkr toppgreinótta hliðarhnappnum, nema að greinarnar hafa niðráviðbeygðan brodd.

g. **Aflángr Hliðarhnappr** (*H. prælongum*). Staungullinn niðráviðliggjandi lángr. Greinarnar aðskildar. Blöðin eggmynduð, rètt, hvöss, sitja í 2 eðr 3 röðum. Botèlin lútandi.

h. **Trèmyndaðr Hliðarhnappr** (*H. abietinum*). Greinarnar sívalar, einfjaðraðar, uggóttar. Blöðin lítil, eggmynduð, með krók á endanum.

i. **Mænirs Hliðarhnappr** (*H. crista castrensis*). Greinarnar þèttar, uggóttar, með eggmynduðum, lítið niðráviðbeygðum lútandi enda. Botèlin lútandi.

k. **Cyprusblaðaðr Hliðarhnappr** (*H. cupressiforme*). Staunglarnir smáuggóttir. Blöðin 1síðu, niðráviðbeygð, í efri endann alilík. Botèlin umsnúið-eggmynduð, áviðbogin eðr slútandi.

l. **Krókmyndaðr Hliðarhnappr** (*H. aduncum*). Staungullinn greinóttr, 1síðu.

m. **Þveingmyndaðar Hliðarhnappr** (*H.*

*scorpioides*). Staungullinn niðráviðliggjandi. Greinarnar þykkar, aðskildar, ofantil beygðar. Blöðin hvöss, sitjandi, 1síðu.

n. **Aptrábakbeygðr Hliðarhnappr** (*H. sqvarrosum*). Staungullinn skríðandi. Greinarnar útbreiddar. Blöðin eggmynduð, í efri enðann alilík, ábakaptrbeygð í hríng.

o. **Upprèttr Hliðarhnappr** (*H. dendroides*). Staungullinn upprèttr. Greinarnar í einsettu bindini, í efri enda hans. Botèlin upprètt.

p. **Stuttgreinóttr Hliðarhnappr** (*H. curtipendulum*). Greinarnar stuttar. Blöðin eggmynduð, hvöss, útstandandi. Botèlin stuttleggjuð, lútandi. Munnrinn með stuttum tönnum, með einu hári við hvörja tönn.

q. **Hreinn Hliðarhnappr** (*H. purum*). Greinarnar dreifar, hvassar í efri endann. Blöðin snubbótt, eggmynduð, aflaung, þökt.

r. **Glær Hliðarhnappr** (*H. illecebrum*). Greinarnar snubbóttar, rèttar. Blöðin eggmynduð, stíngandi.

s. **Hvass Hliðarhnappr** (*H. cuspidatum*). Staunglarnir lángir. Blöðin aðskild, hvöss. Greinarnar upprèttar, hvassar, 2ja hliða. Botèlin niðráviðbeygð.

t. **Silkilíkr Hliðarhnappr** (*H. sericeum*). Staungullinn skríðanði. Greinarnar bognar, þèttar, sitjandi. Blöðin alilík, lángydd. Botèlin rètt.

u. **Glansandi Hliðarhnappr** (*H. nitens*).

Staungullinn rèttr. Greinarnar stuttar, þètt saman, ofanverdt gular, neðantil daukkrauð-ar. Blöðin alilík, ofantil glansandi.

16. Stjörnumosi (*Mnium*).

a. Brunna Stjörnumosi (*M. fontanum*). Staungullinn neðantil einfaldr, ofantil hnjá-beygðr. Fræhnapparnir með fínum leggj-um, stjörnulíkir. Botèlin nær því kúlu-mynduð.

b. Vatns Stjörnumosi (*M. hygrometri-cum*). Utan staunguls. Rótarblöðin egg-mynduð, hvöss. Botèlið snúið, stórt, nær því hjartmyndað, rennótt.

c. Krókbeygðr Stjörnumosi (*M. hornum*). Staungullinn einsettr. Blöðin í efri endann sagtennt. Blómstrstaunglarnir krók-beygðir.

d. Hrár Stjörnumosi (*M. crudum*). Staung-ullinn einsettr. Blöðin lensulík, gagnsær, glansandi. Hettan beygð á bak aptr.

e. Uppmjór Stjörnumosi (*M. pyriforme*). Botèlið sívalt, nær því hjartmyndað. Lokið snubbótt. Blöðin hárumlík, al-mynduð. Staungullinn einsettr, mjór.

f. Blóðbergs Stjörnumosi (*M. serpylli-folium*). Blöðin gagnsær, aflaung, bylgjótt.

17. Berjamosi (*Gymnostomum*).

a. Afkubbaðr Berjamosi (*G. truncatum*). Botèlin kúlumynduð. Lokið hvasst. Blöðin lensulík.

18. Krónumosi (*Tetraphis*).

a. Gljáandi Krónumosi (*T. pellucida*), með eggmynduðum, gagnsærum blöðum. Greinalaufin staungullaus. Botèlin í toppinum.

19. Grimmjamosi (*Grimmia*).

a. Toppmyndaðr Grimmjamosi (*G. apocarpa*). Botèlið í toppinum með litlu laufi, nær því skaptlaust. Blöðin lensulík, hvöss.

20. Rakmosi (*Orthotricum*).

a. Strikmyndaðr Rakmosi (*O. striatum*). Blöðin lensulík. Botèlin aflaung.

21. Bartram-mosi (*Bartramia*).

a. Eplilíkr Batram-mosi (*B. pomiformis*). Blöðin hárilík. Botèlið kúlumyndað.

3ja Orða (*Hepaticæ*) Laufamosar.

22. Júngermannmosi (*Jungermannia*).

a. Flatr Júngermannmosi (*J. complanata*). Staunglarnir skríðandi, flatir. Bæði blöðin sjálf og axlablöðin kringlótt, þètt, þökt. Fræhúsblöðkurnar lensulíkar.

Staungullinn greinóttr, blöðóttr, útbreiddr, dökkr, einsog öll urtin er. Mosabikarinn aflángr, samanþrykktr. Blómstrstaungullinn stuttr. Ávaxtast síðla sumars.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

b. Sívalr Júngermannmosi (*J. julacea*). Blöðin þökt, smáklofin, valla sýnilig með

beru auga. Blómstrin sitja á blómstrstaunglinum.

c. Snubbóttr Júngermannmosi (*J. asplenoides*). Blómstrin í efri enda greinanna. Greinarnar jafnbreiðar.

Staungullinn greinóttr. Blöðin eggmynduð, eðr nærri kringlótt, í efri endann snubbótt, lítið hærð.

d. Tvíyddr Júngermannmosi (*J. bicuspidata*). Blöðin 2tennt. Blómstrin í staungulhliðunum.

e. Hvítleitr Júngermannmosi (*J. albicans*). Blöðin hvöss, aflaung, niðráviðbeygð. Blómstrin í efri enda staungulsins.

f. Umsnúinn Júngermannmosi (*J. resupinata*). Blöðin smánöbbótt, þökt, kríngl-ótt. Blómstrin sitja á hliðum staungulsins, eðr neðantil á sívölum greinum.

g. Útvíðkaðr Júngermannmosi (*J. dilatata*). Staungullinn skríðandi, marggreinóttr, útbreiddr. Greinarnar breiðar í efri endann. Blöðin kringlótt.

h. Hærðr Júngermannmosi (*J. ciliaris*). Staungullinn skríðandi. Blöðin sitja í 2settum röðum, á neðri hlið loðin, hærð.

i. Afblöðóttr Júngermannmosi (*J. epiphylla*). Blómstrstaungullinn uppstígandi frá einu litlu blaði, sem er útbreidt á höfuðblaðinu án staunguls.

k. Feitr Júngermannmosi (*J. pingvis*). Höfuðblaðið aflángt, flippótt, limugt. Blómstrstaungullinn sprettr á röndinni.

l. **Þríklofinn Júngermannmosi** (*J. furcata*). Utan staunguls. Smáblöðin jafnbreið, í efri enda 3klofin, snubbótt.

m. **Kletta Júngermannmosi** (*J. rupestris*). Greinarnar sívalar. Blöðin alilík, snúa einn veg. Blómstrstaunglarnir stuttir.

**23. Marchantsmosi** (*Marchantia*).

a. **Almennr Marchantsmosi** (*M. polimorphia*). Laufin snubbótt, flipótt. Kallbikarinn skjöldmyndaðr. Kvennbikarinn ávalr.

Laufin flöt-útbreidd, grænglansandi með skakkferkyrndum æðum; á neðra borð dökkleit, þéttsett fínum rótaraungum. Á efra borðinu finnast nokkurskonar niðráviðmjókkandi, á röndum hríngnöbbóttar holur, á hvörra botni finnast nokkur græn korn, sem álítast að vera skot eðr laukr, hvarvið urtin æxlast. Í blaðleppahornunum eru ileggjuð blómstr, hvaraf kvennkynið er geislað. Kallkynið þarámót hríngnöbbótt. Margra ára.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

**24. Hornmosi** (*Anthoceros*).

a. **Stúnginn Hornmosi** (*A. punctatus*). Laufið rykkt, leppótt. Fræhúsið upprètt, strikmyndað, alilíkt.

Laufin útbreidd í hríng, flöt, aðþrykkt jörðunni, dökkgræn með hækkaðri rönd. Kallblómstrin bikarmynduð, innþrykkt í laufið, með leppóttri rönd. Fræhúsið upprètt, 2blaðkað. Blöðkurnar utanvert ávalar.

Eins árs urt; blómstrar síðla sumars.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

25. Blasmosi (*Blasia*).

a. Lítill Blasmosi (*B. pusilla*). Laufin snubbótt, flipótt, á röndum rykkt. Ávextirnir uppreistir á laufröndunum.

Laufin sem á undangángandi, þó flatari, lítið þökt, kjötlig á neðra borðið. Randirnar og broddrinn smákúlusettr, nærri við sina miðjuna eru einrúmuð, eggmynduð fræhús.

Eins árs urt; blómstrar síðla sumars.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

22. Rikkjamosi (*Riccia*).

a. Kristalls Rikkjamosi (*R. cristallina*). Fræhúsið sett smáum vörtum.

4ða Orða (*Algæ*) þarrar.

27. Vatnshymna (*Ulva*).

a. Stór Vatnshymna (*U. latissima*). Laufið einstakt, flatt, breidt, á röndinni bylgjótt; ísl. Fergin.

Er ljósgræn að lit, hymnulík, glansandi, slètt. þurkuð er hún gulleit, mjög hymnulík. Eins árs.

*Nytsemi og verkun:*

þarsem gnægð fæst af hymnu þessari, mætti hún vel brúkast til áburðar í mykjustað; í Færeyum hefir hún í harðindum verið til matar höfð.

b. Nabla Vatnshymna (*U. umbilicalis*). Laufið flatt, skjöldmyndað, einblaðað, skinnilíkt.

Er bugðótt, slètt, lítið rykkt hymna, sem á miðjunni er föst á steinum.

*Nytsemi og verkun:*

Í Skotlandi er hymna þessi etin, soðin með ediki og pipar, hún er og söltuð niðr í flát, er tekin í marz-mánuði.

c. Pípótt Vatnshymna (*U. intestinalis*) er pípótt eðr uppblásin, líkist uppblásnum lánga, er sem grænleit hymna.

d. Samanþrykkt Vatnshymna (*U. compressa*). Líkist næstundangángandi, við að hún er pípótt, en er marggreinótt. Greinarnar mjóar, jafnbreiðar.

e. Margskipt Vatnshymna (*U. lactuca*). Hymnulík, fíngr- eðr hjartmyndað-skipt, neðan til mjórri.

f. Lensulík Vatnshymna (*U. lanceolata*) er lensulík og slèttliggjandi.

g. Laung Vatnshymna (*U. linza*) er aflaung og uppblásin.

h. Rykkt Vatnshymna (*U. plicata*) er hymnulík, föst á miðjunni, staungullaus, samanlögð í margfaldar rykkíngar.

i. Fræ-Vatnshymna (*U. sobolifera*) er þveingilik, pípumynduð, allavega sett mjóum þveingjum.

## 28. Þarri (*Fucus*).

a. Nöbbóttr Þarri (*F. serratus*). Laufið flatt, 2skipt, nöbbótt, tennt, með vörtumynduðum blómstrum á broddinum.

Rótin skjöldmynduð, föst á steinum. Laufið flatt, staungulmyndað við neðri endann, síðan dökkleitt, skinnilíkt, hefir eitt höfuðrif, gegnum öll sundrskiptin.

*Nytsemi og verkun:* Sauðfè etr þarra þennan.

b. **Blöðru-þarri** (*F. vesiculosus*). Laufið flatt, hefir 2 rif, heilt á röndum, með blöðrum, sem eru í pörum í hornunum, og vörtu á broddinum; ísl. **Klóþáng**, **Bóluþáng**, **Belgjaþáng**, **þunnaþáng**.

Rótin lík sem á undangángandi, hvörjum þessi mjög líkist, en mismunar einúngis þarvið, að laufin eru mjórri og lítið þykkri.

c. **Útþaninn Blöðruþarri** (*F. divaricatus*) með 2skiptu, útspenntu laufi. Margra ára.

*Nytsemi og verkun:*

þessi og undangángandi þángtegundir eru það einkum, af hvörjum til ösku brendum, lútarsalt er tilbúið.

d. **Görðóttr þarri** (*F. nodosus*). Laufið samanþrykkt, 2skipt. Blöðin heil á röndum, 2ja hliða. Blöðkurnar einstakar, víðar; ísl. **þykkvaþáng**, **Ætiþáng**.

Rótin sem á undangángandi. Blöðin greinótt, uppblásin, með mörgum bólum, hèrum á hvörjum 3ja þumlúngi, grængul. Blómstrblöðkurnar leggjóttar, missettar, umsnúið-eggmyndaðar, gular.

Margra ára.

*Nytsemi og verkun:*

Sauðfè etr þarra þennan. Grænt má og með hönum lita.

e. **Streingja-þarri** (*F. filum*), samanstendr af sívölum, óskiptum, brjóskilíkum þráðum.

Líkist mjög mjóum þveingjum, er smáliðóttr, finnst vera slepjaðr, hálfgagnsær, grágulleitr.

Margra ára.

*Nytsemi og verkun:*

Í Noregi eta kýr þáng þetta.

f. **Gaffals-þarri** (*F. furcellatus*) er þráðmyndaðr, 2skiptr, marggreinóttr, hvesstr.

Er ogsvo 2skipt-greinóttr, þykkri ofan enn neðan, dökkleitr. Margra ára.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

g. **Sverðblöðóttr þarri** (*F. digitatus*). Laufið hendilíkt. Smáblöðin sverðmynduð. Staungullinn sívalr; ísl. **þaungull**, **Hrossaþaungull**.

Hefir þykkan, lángan, jafnan bol, ofantil útbreidd lauf, sem eru dökk, og sem regluliga skiptast við neðri enda í strikmynduð, lensulík, sundrskipti, eðr smáblöð, sem eru heil á röndunum.

Margra ára.

*Nytsemi og verkun:*

Í Færeyum er þarri þessi til manneldis notaðr; hestar og sauðfè eta hann. Þurkaðan má og brúka hann til eldiviðar.

h. **Boga-þarri** (*F. esculentus*). Laufið óskipt, sverðmyndað, lensulíkt, lángt. Blaðstaungullinn neðantil sívalr, í blaðinu 4 hliða, flatþrykktr; ísl. **Muru-** eðr **Máríukjarni**.

Rótin margaungótt. Blaðstaungullinn uppað blaðinu sívalr, ofantil með nokkrum vatnsflötum, aflaungum, lensulíkum, snubbóttum, við neðri endann mjókkandi smáblöðum. Hið stóra blað sverðmyndað-lensulíkt. Ofantil óregluliga uggótt og troanað, neðantil bylgjótt, smárykkt. Margra ára.

*Nytsemi og verkun:*

Til manneldis má urt þessa einkarvel brúka þannig: maðr afvatnar hana fyrst hèrum 2 dægur, þareptir er hún smátt skorin, sem annað kál, síðan soðin með mjólk eðr mysu eðr vatni, eptir sem hæfa þykir og efni eru á; til grautar er hún þá hollr og nærandi matr. Með varsemi má og staungullinn, sem geingr ígegnum blaðið, hráan eta. Urtin er bezta fóðr-urt, einkum fyrir kýr, bæði hrá, afvötnuð, sem og soðin, þá hún og reynist góð fyrir fè og hesta.

i. Sæti-þarri (*F. saccharinus*). Laufið nærri óskipt, sverðmyndað. Staungullinn sívalr, stuttr; ísl. Beltis-þarri, þarrabelti.

Laufið sem á undangángandi, hefir eingin smáblöð neðantil, á röndunum bylgjóttr, dökkgulr, með 2 dökkum, marghlykkjóttum strikum og einum stuttum staungli. Margra ára.

*Nytsemi og verkun:*

Þarra þennan má fullvel eta, sem og sumstaðar tíðkast, t. d. í Færeyum, hvar hann er talinn með beztu borðrèttum; ítem er hann allgóð fóðr-urt.

k. Randhærðr þarri (*F. ciliatus*). Laufin

hymnulík, toppskjótandi, randhærð; ísl. Sölvamæður.

Laufin greinótt, dökkljósrauð, fleigmynduð ofantil, leppótt, á röndum kögrlögð. Margra ára.

*Nytsèmi og verkun:* þarri þessi er vel ætiligr.

l. Krúsaðr þarri (*F. crispus*). Laufin hymnulík, 2skipt. Lepparnir útvíðkaðir.

Líkist undangángandi, en er þó stærri, og í stað kögrsins hefir hann lítil, snubbótt, aflaung blöð á röndunum, er og af háranðari lit enn hinn. Margra ára.

*Nytsemi og verkun:*

Er sem undangángandi vel ætiligr, og fènaðr allr etr hann.

m. Handmyndaðr þarri (*F. palmatus*). Staungullinn stuttr. Blöðin misstór, djúpt klofin. Lepparnir neðanverdt mjóir í broddinn öðrumeginn teuntir; ísl. Söl.

Rótin veigalítil, aungótt, skríðandi. Staungullinn þunnur, óskiptr, opt einginn. Af rótinni spretta þètt, og í bindini samanhneppt blöð, 2- 3- eðr fleir flipótt, flöt, hymnulík, fín, næstum gagnsær og glansandi, falliga dökkrauð á lit, stundum líka bleik. Margra ára.

*Nytsemi og verkun:* sjá eptirfylgjandi.

n. Sauða-þarri (*F. ovinus*). Staungullinn slèttr. Blöðin missett, djúptklofin. Lepparnir neðantil mjóir; í broddinn öðrumegin tenntir, hinumegin klofnir; ísl. Söl.

Er nokkuð stór, þunnhymnulíkr, fagr-rauðr. Lepparnir fleigmyndaðir, heilir á röndum, nema

í broddinn, neðantil eru lítil, leggjuð, lensulík blöð.

*Nytsemi og verkun:*

Báðar (þessi og undangángandi) þángartir, mega metast jafnhentugar til manneldis. þær eru þarfyrir utan, sem læknínga-urtir, kælandi, vallgáng mýkjandi, uppleysandi, þvagleiðandi, nærandi, stillandi, svitadrífandi og styrkjandi. Ferskar álagðar dreifa þær hitabólgu og tökum. Soðnar í vatni með litlu af nýu smjöri, til þess verða að graut, og þannig etnar, mýkja þær vallgáng og örfa svita. þurkaðar, sem vani er til, og etnar, ásamt öðrum þúngum mat, svosem fiski, styrkja þær magann og meltíngar kraptinn, og þannig allan líkamann eptirleiðis. Saltvera sú, er við þau loðir, og sem vèr köllum Hneitu, er sem önnur meðal-sölt (*Salia neutra*) uppleysandi, svita- og þvagrás-leiðandi, er því sölva-át einkar gott fyrir þá er þjást af innvortis bólgu og meinlætum, gulu og vatnssýki, því heldr sem það útheimtir venjuframar drykk, en allr drykkr hefir til ávaxtar þynníngu og frekari úttæmíngu þeirra stöðnuðu og þykku vessa.

o. Uppblásin þarri (*F. inflatus*) með breiðum, lensulíkum blöðum, sem eru stúngin í efri enda, uppblásin, skipt.

p. Horn-þarri (*F. ceranoides*) með lensulíkum blöðum, greinóttr. Blómstrunar verkfærin sitja í efri endanum í 2klofnum vörtum. Blöðin stúngin.

q. Toppmyndaður þarri (*F. spiralis*).

Blöðin heil á röndum, stúngin, neðan jafnbreið. Blaðstaungullinn mjórri neðan, þar sem hann stendr líkist hann snúnum toppi.

r. **Litli-þarri** (*F. distichus*). Blöðin heil á röndum, jafnbreið með vörtusettum og hvössum ávaxtar verkfærum.

s. **Skálm-þarri** (*F. siliqvosus*). Blöðin lensulík, heil á röndum. Ávaxtar-verkfærin með skapti, aflaung, hvöss. Staunglarnir margir saman, greinóttir.

t. **Fax-þarri** (*F. aculeatus*). Staungullinn þræðilíkr, marggreinóttr, með alilíkum, réttum, missettum, og dröfnóttum tönnum; ísl. **Fjörufax**.

u. **Reima-þarri** (*F. loreus*) með þveingilíkum, 2settum, dröfnóttum blöðum. Frjófgunar-verkfærin hærð.

v. **Mosa-þarri** (*F. lycopodioides*). Staungullin þræðilíkr, sívalr, greinóttr, þéttsettr smáum, hárumlíkum blöðum; ísl. **Öðuskeljaþáng**.

x. **Ullar-þarri** (*F. lanosus*). Staungullinn margskiptr, mjög fínn sem ull.

y. **Marggreinóttr þarri** (*F. fastigiatus*). Staungullinn 2skiptr, með yfrið mörgum, jafnháum, snubbóttum greinum.

z. **Tenntr þarri** (*F. dentatus*). Laufin slétt, margskipt. Greinarnar leppótt-tenntar.

þ. **Fiðr-þarri** (*F. plumosus*). Blöðin lensulík, fjöðruð beggja megin.

æ. **Brjósk-þarri** (*F. cartilagineus*). Líkist

að öllu næstundangángandi, utan að blöðin eru þynnri, minni, og fagr-rauðari.

ö. Marggreinóttr þarri (*F. gigartinus*). Laufin brjóskilík, margsamsett, uppúr hvörra efri enda spretta mjóir broddar með kúlumynduðum líkama á endanum.

aa. Vængja-þarri (*F. alatus*). Laufin 2skipt, slètt. Greinarnar eru missettar, niðrhlaupandi, hárauðar á lit.

bb. Horn-þarri (*F. corneus*). Blöðin þræðilík, jöfn, 2skipt; ísl. þussaskegg.

cc. Hvítr-þarri (*F. albus*). Laufin mjó, hvít, mjög smáskipt.

dd. Sveppa-þarri (*F. fungularis*). Blöðin hríngbugðótt, sveppilík, á röndum hymnulík, innskorin, ljósleit.

ee. Litli-þarri (*F. carvaliculatus*). Staunggullinn margskiptr. Laufið efst, 2skipt, efri laufin á aðra síðu ávöl, nær því eggmynduð á hinu síðu íhvolf.

ff. Útskorinn þarri (*F. exscissus*). Staunggullinn 2skiptr, greinóttr. Laufin öðrumegin ávöl, hinumegin íhvolf.

gg. Blóð-þarri (*F. sangvineus*). Staunggullinn sívalr, greinóttr. Blöðin aflaung, hymnulík, lensumynduð, bylgjótt, heil á röndum.

hh. Rauðleitr þarri (*F. rubens*). Staunggullinn greinóttr. Blöðin aflaung, hymnulík, stórtennt, rauðleit.

ii. Hríslóttr þarri (*F. flagelliformis*). Staunggullinn og laufið margskipt í þræði. Þræðirnir sívalir, lángir.

kk. **Gras-þarri** (*F. fœnicularеus*). Staungullinn þræðilíkr, marggreinóttr, með smáum, eggmynduðum blöðrum, sem eru í efri enda greinanna.

*Nytsemi og verkun þarranna yfir höfuð:*

Fyrir utan það, sem áðr er umtalað við einstöku þarra um nytsemi þeirra, eru allir þarrar yfirhöfuð þènanlegir til að berast saman í stórdýngjur eðr hauga, hvarí þeir sèu látnir fúna, og síðan færast sem áburðr á tún og urtagarða. Líka má af nokkrum þeirra, einkum þeim stærri tilbúa pottösku eðr lútarsalt, hvarum gjör má lesa í Íslands lærdómslista Fèlags 8da bindi. Með nokkrum þeirra má og líta, nefni og þartil **Blöðru-þarrann** (*Fucum vesiculosum*), er gefr lín- og hampvefnaði, dökkgrænan eðr kaffebrúnan lit, sè það með hönum soðið. Allvíða eru og þarrar til eldiviðar brúkaðir.

29. **Vatnssilki** (*Conferva*).

a. **Stranda Vatnssilki** (*C. littoralis*). Þræðirnir lángir, stinnir, greinóttir, dökkrauðir.

b. **Tvískipt Vatnssilki** (*C. dichotoma*). Þræðirnir 2skiptir, nokkuð þykkir; ísl. **þussaskegg**.

c. **Greinótt Vatnssilki** (*C. cancellata*). Þræðirnir stuttir, marggreinóttir, missettir og margskiptir.

d. **Margmynduð Vatnssilki** (*C. polymor-*

*pha*). þræðirnir hnjábeygðir, greinóttir, í bindinum saman.

e. Kletta Vatnssilki (*C. rupestris*). þræðirnir marggreinóttir, hnjábeygðir, grænir.

f. Kúlulíkt Vatnssilki (*C. ægagropila*) samanstendr af mjög fínum, greinóttum hárum, samundnum í hnykilmyndaðan líkama.

g. Grænt Vatnssilki (*C. æruginosa*). Hárin með fallegasta grænum lit.

h. Hreystrað Vatnssilki (*C. sqvarrosa*) er greinótt, umhverfis sett þöktum og hreystruðum burstum eðr hárum.

### 30. Dúnull (*Byssus*).

a. Hulin Dúnull (*B. cryptarum*) er grá að lit, sitr sem fín hár á klettum.

b. Mjöl-Dúnull (*B. jolithus*). Líkist rauðumjöli sitjandi á steinum.

c. Græn Dúnull (*B. botryoides*) finnst grænt á jörðunni, einkum hvar vatn hefir yfirstaðið á vetrum.

### 31. Mosi (*Lichen*).

a. Skorpulíkir Mosar (*Crustacei*).

1. Mjólkhvítr Mosi (*L lacteus*) er hvítr með litlum sprúngum, og ávölum hvítum vörtum.

Efni hans er mjólkhvítr, þunnr hrúður, sem er fastr á steinum, og settr þèttum vörtumynduðum skjöldum.

*Nytsemi og verkun:*

Mosa þennan má brúka til að lita með bæði dökkgult og grænt.

2. **Málaramosi** (*L. geographicus*) er gulleitr með svörtum smánöbbum og strikum, ei ólíkr málverkum.
3. **Blóðmosi** (*L. sangvinarius*). Skorpan gráleit með svörtum nöbbum, sem innan eru rauðleitir. Nabbarnir eru í fyrstu snubbóttir með litilli rönd, síðan verða þeir ávalir, og líkjast þá litlum storknuðum blóðdropum.
4. **Grámosi** (*L. fusco-ater*) er dökkbrúnn með nær því kringlóttum nöbbum. Skorpan smákornótt.
5. **Kalkmosi** (*L. calcarius*) er krítbvítr mosi með ófrjófnum, lítið niðrþrykktum nöbbum; þá hann eldist, verðr hann gráleitr.
6. **Litunarmosi** (*L. tartareus*). Kornið hvít-grænt, með gulleitum, heilrönduðum skjöldum.

Er þykkt grátt sprúngið hrúðr, með strjálum skjöldum, sem eru bleikleitir.

*Nytsemi og verkun:*

Mosi þessi hefir í sèr mikið litgjörðar-efni.

7. **Svartleitr Mosi** (*L. subfuscus*) er hvítr með dökkleitum skjöldum.
8. **Ljósmosi** (*L. candelarius*) er ljósgulr með gulum skjöldum. Smáblöðin fínrykkt.

b. **Þaktir Mosar** (*Imbricati*).

9. **Steinmosi** (*L. saxatilis*) er blágrár,

snarpr, netmyndað-bólóttr, á neðra borð dökkr. Blöðin bugðótt-leppótt, flöt, lítið afkubbuð. Skyldirnir dökkleitir; ísl. Litunarmosi.

Er þykkr, útbreiddr. Skyldirnir þèttir saman, um miðjuna stórir, hefir upphækkaða rönd.

*Nytsemi og verkun:*

þessi mosi hefir á sèr margskonar litunarefni, og brúkast því til margvísligrar svertu litgjörðar.

10. Lèttr Steinmosi (*L. omphalodes*). Blöðin slètt, margklofin, snubbótt, með smáum, upphækkuðum, stráðum púnktum eðr deplum; undir eðr á röndunum svartleitr að ofanverðu grágræn með blettum.

11. Grænmosi (*L. olivaceus*) með leppóttum, slèttum, og dökkgulum blöðum.

12. Falúnsborgar-Mosi (*L. Faluhnensis*). Blöðin svört, leppótt, mjó, tvískipt, með upphækkaðri, hvassri rönd. Blöðin útbreidd, rykkt. Skildirnir svartleitir, heilir.

13. Trèmosi (*L. physodes*). Blöðin leppótt, á röndum snubbótt, líkt og uppblásin væru, á efra yfirborði hvítgrá, slètt; á neðra borð svartblá. Blöðin dökk, hefir gulan lit.

14. Blákolls-Mosi (*L. stygius*). Blöðin dökk, margskipt, leppótt, með niðráviðbeygðri rönd. Ávaxtarverkfærið með íhvolfum, nöbbóttum, dökkum skálum.

15. Stjörnumosi (*L. stellaris*). Blöðin öskugrá, lítil, aflaung, leppótt, með dökkbláum

skjöldum. Fyrst eru skildirnir litlir, síðan verða þeir stórir, krúsaðir, bláir.

16. **Veggja-Mosi** (*L. parietinus*) með krúsuðum, gulum blöðum, og eldgulum skjöldum.

*Nytsemi og verkun:*

Mosi þessi hefir í sèr rauð og gul litunarefni.

c. **Blaðmosar** (*Foliacei*).

17. **Islands-Mosi** (*L. Islandicus*) er grænkaffebrúnn að lit. Smáblöðin uppstígandi, margskipt-klofin, rennótt-randhærð. Skyldirnir sitjandi flatir, eins litlir og blöðin; ísl. **Fjallagrös**.

Samanstendr af uppreistum, greinóttum, lítið smá-fýldum blöðum, sem eru ljósdökk, á röndunum lítið hærð. Skildirnir stórir, venjuliga dekkri enn blöðin.

*Nytsemi og verkun:*

Mosategund þessi er alþekt; hún takist helzt í vætu, þurkist síðan og hreinsiat vandliga. Hún er styrkjandi, samandragandi, vallgáng mýkjandi, nærandi, blóðhreinsandi, ormdrepandi. Hann er því góðr móti lúngnaveiki og hósta, lífsýki, blóðsótt, harðlífi, innanmeinum, ormum, uppþembíngi, matleiða og kraptaleysi. Hann brúkast bæði smáskorinn og líka í dupti sem te, eðr sem mauk og hlaup. Af teinu er gott að drekka hèrum litla pelaskál í einu. Mauk af hönum getr tilbúist með tvennu móti: *a*) tak 2 lóð af fjallagrasa dupti, og sjóð með 1 pela af vatni, til þess jafnþykk kvoða er vorðin; eðr *b*) tak smásöxuð fjallagrös 2 lóð, af vatni 1 pela, og eins mikið af mjólk,

sjóð þetta þartil þykknar, sía síðan hið þunna frá, og er ofantalinn skamtr mátuligr að brúka kvöld og morgna, með litlu af nýmjólk útá. Fjallagrös eru hèraðauki en hollasta fæða fyrir alla sóttlera menn, sem eigi þola annann mat. Með þeim má og gult lita, sèu þau soðin með álúni. Þetta þannig litaða ullarverk verðr á síðan raudt, sè það í kúahland lagt, sem skipt sè um annannhvörn dag.

18. Lúngna-Mosi (*L. pulmonarius*) er stinnr, skinni líkr, útbreiddr, netmyndað-æðóttr, bugðóttr, með afkubbuðum leppum, dökkgrænn á neðra borð, gulryðlitaðr, stinnhærðr. Skildirnir á blaðröndunum dökkleitir.

Er mikið útbreiddr. Fliparnir afkubbaðrandskornir. Á efra borði hans finnast tíðum litlar hvítar vörtur.

*Nytsemi og verkun:*

Mosa þennan má brúka til að setja öl á; ítem að barka með skinn; ítem að lita dökkt með

19. Mjölmosi (*L. farinaceus*) er stinnr, gráblár, slèttr, leppótt-greinóttr, með ávölum vörtum. Skildirnir leggjóttir, grábláir. Blöðin þètt, mjó, uppreist, hvítleit, margskipt. Lepparnir hvassir. Vörturnar mjög litlar, hvítleitar.

*Nytsemi og verkun:*

Mosi þessi inniheldr efni til grænnar og dökkrar litunargjörðar.

20. Snjómosi (*L. nivalis*) er hvítr, rèttr, greinóttr, með krúsuðum blöðum, upphækkaðri rönd og litlum holum.

21. Öskumosi (*L. fraxineus*) er stinnr, öksu-

grár, hrukkóttr, með lensulíkum, leppóttum, flötum, uppreistum blöðum. Skildirnir stráðir, á röndum ljósgráir.

Samanstendr af ýmisligum, uppreistum, ljósgráum, stórum blöðum, sem stundum eru heil á röndum. Skyldirnir lítið leggjaðir.

*Nytsemi og verkun:*

Mosi þessi er kvoðulíkr, því vel brúkandi til manneldis.

22. Skeljamosi (*L. furfuraceus*) er greinóttr, niðráviðliggjandi, með hvössum blöðum, sem neðantil eru með smáholum, ofantil þökt gráu mjöli, neðan dökkblá, í broddinn hvít.

23. þyrnimosi (*L. prunastris*) er greinóttr á efri síðu, með netilíkum, upphækkuðum strikum. Á neðri hlið holóttr, snjóhvítr.

*Nytsemi og verkun:*

Mosi þessi gefr gulan og dökkan lit.

d. Skinnmosar (*Coriacei*).

24. þorskamosi (*L. aphtosus*) er slèttlagðr, með snubbóttum leppum, grænn, slèttr, með gráum eðr svörtum vörtum, líkt sem stráðr væri smágrjónum.

*Nytsemi og verkun:* gefr dökkbrúnan farfa.

25. Hundamosi (*L. caninus*) er útbreiddr, hríngflipóttr, neðantil kögrlagðr-æðóttr. Skildirnir aflángir, uppstígandi, ljósdökkir. Blöðin mikið útbreidd, slètt ofan, á röndum lítið upphækkuð. Skildirnir á flipaendunum sitjandi, nokkuð stórir. Margra ára.

*Nytsemi og verkun:*

Með mosa þessum má dökkt lita; item er hann góðr að leggja við hundsbit.

26. Æðamosi (*L. venosus*) er slèttr, nær því eggmyndaðr; á neðri síðu með dökkum æðum, með vatnsflötum skjöldum á endunum, ofanverdt grænn, neðantil hvítr, hærðr, með dökkum æðum. Ávaxtarverkfærið, sívalt, dökkt.

27. Púngamosi (*L. saccatus*) er kringlóttr, með innþrykktum skjöldum á blaðinu, sem neðantil líkist litlum púng, grænn að lit, með dökkum, íhvolfum skjöldum.

28. Saffransmosi (*L. croceus*) er kringlóttr, slèttr, neðantil æðóttr, hærðr, gulsaffranóttr, með stráðum skjöldum, á efra borð grænn, á neðra borð eldgulr með dökkum skjöldum.

29. Umsnúinn Mosi (*L. resupinatus*) er greinóttr, grásvartr með röndum, og nær því hjartmynduðum skjöldum.

*Nytsemi og verkun:* Mosi þessi gefr dökkan lit.

e. Naflalíkir Mosar (*Umbilicati*).

30. Trjónumosi (*L. proboscideus*) er hymnulíkr, netmyndað-hrukkóttr, gráleitr; á neðra borð bleikr, jafn, á röndum hríngnöbbóttr, uggaðr. Skildirnir toppmyndaðir, lítið leggjóttir; ísl. Geitnaskóf.

Samanstendr af stinnu, hymnulíku blaði, sem á neðra miðbiki er fast á steinum, á röndum upphækkaðr, á efra borð settr dökkum skjöldum.

*Nýtsemi og verkun:*

Mosi þessi er góðr til manneldis.

31. Sviðinn Mosi (*L. deustus*). Beggjamegin nakinn, nær því heill á röndum; er tíðum þaktr svörtu mjöli, hvörsvegna hann sýnist að vera sviðinn eðr sem brendr; hefir fá blöð eðr er sem krúsaðr.

*Nytsemi og verkun:*

Mosi þessi gefr hárauðan lit.

32. Menjumosi (*L. miniatus*) er hnúskóttr, ofantil hvítgrár, neðantil eldgulr.

33. Gærumosi (*L. velleus*) er á efra borð öskugrár, á neðra borð svartloðinn sem skinn.

*Nytsemi og verkun:*

Mosi þessi er notanligr til manneldis.

34. Slèttr Mosi (*L. polyphyllus*) er margblöðóttr, á báðar hliðar slèttr, í broddinn krúsaðr, votr hefir hann dökkgrænan, en þurr dökkan lit, er hann þá meyr.

*Nytsemi og verkun:* Gefr rauðan lit.

f. Skálarmosar (*Scyphiferi*).

36. Hárauðr Mosi (*L. cocciferus*). Blöðin smá, lítið þökt, flipótt, hríngnöbbótt. Staungullinn bleikgrár, umsnúið-kúlumyndaðr. Skálarnar útvíðkaðar, nær því heilar á röndum. Randavörturnar dökkar.

þekkist frá næsteptirfylgjandi, við að hann hefir fagr-hárauðar, stórar, stuttleggjaðar, eðr sitjandi vörtur á skálaröndinni.

*Nytsemi og verkun:*

Með mosa þessum má lita lifraudt, dökkt og grænt.

37. **Hríngnöbbóttr Mosi** (*L. pyxidatus*). Blöðin smá, lítið þökt, leppótt-hríngnöbbótt. Staunglarnir stuttir, umsnúið-sívalt-uppmjókkandi. Skálarnar útvíðkaðar, nærri heilar á röndum. Randavörturnar dökkar.

Hefir við neðri endann lítil, duptilík, þökt, grá blöð; uppúr miðju þeirra vaxa nokkrir uppreistir staunglar, sem ofan eru skálmyndað-útvíðkaðir, og stundum spretta af þeim aðrir, sjálfum þeim líkir staunglar.

*Nytsemi og verkun:*

Mosi þessi gefr gulan, grænan og dökkan lit.

38. **Veigalítill Mosi** (*L. gracilis*) er greinóttr, hefir lítinn bol. Bolrinn nokkurnveginn slèttr, hvítleitr.

39. **Fíngramosi** (*L. digitatus*) er marggreinóttr, með blöðóttum staunglum. Fræbotninn hnöllóttr, purpurarauðr.

40. **Hornmosi** (*L. cornutus*) er greinóttr, með blöðóttum staungli, boginn nær því sem horn.

g. **Hríslulíkir Mosar** (*Fruticulosi*).

41. **Hreindýra-Mosi** (*L. rangiferinus*) er brjóskilíkr. Blöðin smá, hríngnöbbótt. Staunglarnir eru pípumyndaðir, ljósgráir, þèttgreinóttir, í broddinn niðráviðbeygðir. Vörturnar kúlumyndaðar, dökkar á greinaendunum; ísl. **Tröllagrös**, **Mókrókar**.

Samanstendr af uppreistum, sívölum, marggreinóttum, ljósgráum, hvítleitum bol, hvörs ytri smágreinir eru 2skiptar, settar kúlumynduðum, dökkum vörtum.

*Nytsemi og verkun:*

Mosi þessi er ágætt hreindýrafóðr, gefr góða mjólk og smjör; malaðr sem korn má brúka hann í brauð. Hann er góðr móti brjóstveiki; gefr gulan lit.

42. Greinóttr Mosi (*L. uncialis*). Staungullinn greinóttr, aungottr, með stuttum, hvössum greinum; hvítr að lit; ísl. Mókrókr.

43. Almosi (*L. subulatus*) er greinóttr, 2-skiptr með einstökum, alilíkum greinum, er dökkgrár að lit; ísl. Mókrókr.

44. Föstu Mosi (*L. pascalis*). Staungullinn þèttþaktr mjölilíkum blöðum, er þètt liggja hvört við annað að staunglinum, svo greinarnar naumast sjást.

45. Brothættr Mosi (*L. fragilis*). Staungullinn hærðr, með sívölum, snubbóttum og samsitjandi greinum. Utantil er hann settr mjölilíku hreystri.

h. Þræðilíkir Mosar (*Filamentosi*).

46. Ullarmosi (*L. lanatus*) er niðráviðliggjandi, mikið greinóttr, með samflèttuðum, svartleitum greinum, líkist svartri ullu.

47. Smá-ullaðr Mosi (*L. pubescens*). Líkist mikið þeim undangángandi, en er minni og fínari.

48. Stálþræðilíkr Mosi (*L. calybeiformis*) er niðráviðliggjandi, með samflèttuðum svörtum greinum, sem eru lángar og sívalar, sem samflæktr stálþráðr væri.

49. Stríhærðr Mosi (*L. hirtus*) er uppreistr,

marggreinóttr, samflèttaðr. Hárin stráð með mjöl.

*Nytsemi og verkun:*

Mosi þessi skal vera góðr móti gulusótt, sè hálft lóð af hönum soðið í pela af mjólk, og tekið að morgni dags.

i. Límilíkir Mosar (*Gelatinosi*).

**59.** Svartleitr Mosi (*L. nigrescens*) er útbreiddr, kringlóttr, dökkgrænn, hymnulíkr, með þèttum, dökkrauðum skjöldum.

*Nytsemi Mosanna yfirhöfuð:*

Yfirhöfuð innihalda flestir Mosar ríkugligt litunar-efni, sumir meira, sumir minna. Þeir helztu litir, sem af þeim fást, eru: rauðr, af meiri og minni fegurð; gúlr, kaffebrúnn og grár.

Þann rauða lit gefa einkum fylgjandi:

Litunarmosi (*Lichen tartareus*), Steinmosi (*Lichen saxatilis*), Lèttr Mosi (*Lichen omphalodes*), Blákollsmosi (*Lichen stygius*), Saffransmosi (*Lichen croceus*), Sviðinnmosi (*Lichen deustus*), Bólumosi (*Lichen pustulatus*), hárauðrMosi (*Lichen cocciferus*), og fl.

Gulan lit gefa sèrilagi:

Málara-Mosi (*Lichen geographicus*), Ljósmosi (*Lichen candelarius*), Trèmosi (*Lichen physodes*), Veggjamosi (*Lichen parietinus*), Skeljamosi (*Lichen furfuraceus*), Íslandsmosi (Fjallagrös, *Lichen islandicus*), Þyrnimosi (*Lichen prunastris*), og fl.

Kaffebrúnan lit gefa:

Blákollsmosi (*Lichen stygius*), Falúnborgarmosi (*Lichen faluhnensis*), Þyrnamosi

(*Lichen prunastris*), **umsnúinn Mosi** (*Lichen resupinatus*), **þorskamosi** (*Lichen aphtosus*), **Hundamosi** (*Lichen caninus*), og fl.

**Gráan lit gefa:**

**Blóðmosi** (*Lichen sangvineus*), og fl.

Sá almennasti máti og að minni meiníngu sá tiltækiligasti fyrir Íslendínga, mun sá vera: að mosar þeir, er ætlaðír eru til litgjörðar, hreinsist fyrst vandliga frá öllu moski og óviðkomandi hlutum. Þareptir skulu þeir leggjast í nýtt mannaþvag, hvar þeir liggi 2 eðr 3 daga, síðan takist þeir og hnoðist vandliga, þartil samheldnir verða sem annað deig og jafnir. Þareptir sèu úr deigi þessu kökur gjörðar, að stærð og þykkt eptir hvörs eins vild. Kökur þessar þurkist síðan við sólarhita, þartil harðar verða sem brauð. Þegar nú lita skal úr mosakökum þessum, er athugaverdt að mosalitr bezt bítr á silki og ullartægi, en miðr á lín. Það sem litast á, sè fyrst vandliga þvegið og hreinsað, þarnæst sè það í vatni soðið með álúni, og er mátuligt að taka 4 lóð til þess, eðr lítið meir til 2gja marka af því er lita skal, síðan sè það uppúr tekið og lausliga undið, og svo sundrgreidt, einkum viður og ull. Ríðr mjög svo á að pottr sá, sem starf þetta framfer í, sè úr tini eðr látúni, og vel hreinn. Nú sè í öðrum potti tilbúinn liturinn þannig: maðr tekr af mosakökunum jafnvægi litunarefnisins. Mosakökurnar sèu smátt muldar, síðan soðnar um hríð, með hægliga miklum legi, annaðhvort af manna þvagi, sem bezt á við rauða litinn, ellegar vatni, eðr þá nýrri mysu, sem betr á máske við gula litinn, og nær það soðið hefir um

hríð með hægri suðu, skal það áðr undirbúna litunarefni þarí látast, og skal sjá til að rúmt sè vel um. Nú sè allt látið krauma um hríð, og sè á meðan jafnaðarliga íhrært, þartil litrinn tekist hefir sem maðr vill, síðan sè það tekið uppúr, eigi afvatnað, en heingt uppí þerrir á sólarlausan stað.

Eigi er nú þess að dylja, að útskýríng þessi er að mörgu ónæg, þareð um litunargjörð með Steinmosa Íslendínga, mætti rita heillánga bók, enda vantar Íslendínga flest það, er þènar til hjálparmeðala við litunargjörð þessa, og hvareptir fegurð litanna þó að miklu leiti fer, hvaráméðal eg tel leir- og tin- eður látúns-katla, álún, salmíak, pottösku, vínstein, og vítríól; en þeir sem eignast geta hluti þessa svo töluvert sè, munu ogsvo efni og hentugleika hafa til að gjöra frekari tilraunir.

### 5ta Orða (*Fungi*) Sveppar.

#### 32. Blaðsveppr (*Agaricus*).

a. **Blöðku Blaðsveppr** (*A. campestris*). Hattrinn ávalr, hreystraðr, hvítleitr, með kjötilíkum hymnum; ísl. Ætisveppr.

Áðrenn hann útbreiðir sig, er hann hvít kúla á stærð við kríuegg; þá hann hefir útbreidt sig, er hattr hans hálfkúlumyndaðr. Eptir að hann er fullvaxinn orðinn, missir hattrinn sinn hvíta lit, verðr hann þá flatari, og blöðkurnar dökkleitar.

*Nytsemi og verkun:*

Sveppr þessi er almennt etinn í sósum eðr ídrepum til sælgætis.

b. **Mykju Blaðsveppr** (*A. fimetarius*). Hattrinn klukkumyndaðr, gagnsær, dökkgrár,

á röndum beygðr á bak aptr. Blöðkurnar fyrst hvítar, síðan verða þær svartar. Fótrinn holr, neðan til þykkr.

c. **Klukkumyndaðr Blaðsveppr** (*A. campanulatus*). Hattrinn klukkumyndaðr, rennóttr, gagnsær. Blöðkurnar dökkgráar eðr svartar. Fóturinn lángr svartr.

**33. Pípusveppr** (*Boletus*).

a. **Nautapípu-sveppr** (*B. bovinus*) hefir staf. Hattrinn slèttr, röndóttr, ávalr, með ójöfnum holum, dökkgulr. Stafrinn gulr, ofantil þykkri; ísl. **Kúalubbi.**

Hattrinn breiðr; kjöt hans bleikrautt. Stafrinn stuttr, á neðra borð gulr, ávalr, á miðjunni rauðleitr, urtmyndað-rákóttr.

*Nytsemi og verkun:*

Sumstaðar er sveppr þessi af mönnum etinn; þá kýr eta mikið af hönum, verðr mjólk þeirra minni og lakari.

b. **Gulleitr Pípusveppr** (*B. luteus*). Hattrinn stór, gulr, útbreiddr. Pípurnar krínglóttar. Fóturinn hvítr; ísl. **Reiðikúla.**

**34. Rykkíngar-Sveppr** (*Helvella*).

a. **Svartr Rykkíngar-Sveppr** (*H. atra*). Hattrinn 2flipóttr. Fliparnir óregluligir, svartir. Fóturinn stór, þykkr.

þ. **Grænn Rykkíngar-Sveppr** (*H. æruginosa*). Hattrinn óregluliga myndaðr, fagrgrænn.

**35. Bikarsveppr** (*Peziza*).

a. **Klukkumyndaðr Bikarsveppr** (*P.*

*lentifera*) er klukkumyndaðr, fullr af aflaung-um, sívölum blöðrum.

Sveppr þessi er lítill, umsnúinn-klukkumynd-aðr, útvortis lítið fýldr, innvortis jafngrábrúnn. Á botni hans eru 4 til 6 litlir, hvítir, aflángt-sívalir, sundrlausir líkamir; finnst á haustum.

*Nytsemi og verkun:* óþekkt.

b. **Hjálmmyndaðr Bikarsveppr** (*P. scutellata*) er slèttr, með íhvolfri, hærðri rönd.

c. **Sívalr Bikarsveppr** (*P. cupularis*) er klukkulíkr, nær því krínglóttr, með nöbbóttum strendum, líkist ölglasi.

d. **Beltis Bikarsveppr** (*P. zonalis*). Hattrinn útbreiddr, hymnulíkr, sinóttr, rákóttr, með hríngum.

36. **Kylfusveppr** (*Clavaria*).

a. **Gljáandi Kylfusveppr** (*C. coralloides*) er marggreinóttr, með þèttum, ólíkt sköptum greinum, er gulr, þó optar hvítr að lit.

b. **Mosa Kylfusveppr** (*C. muscoides*) er marggreinóttr, með gulum, ólíkt sköptum, hvössum greinum.

37. **Ryksveppr** (*Lycoperdon*).

a. **Almennr Ryksveppr** (*L. bovista*) hefir rót, er kúlumyndaðr, ofanvert trosnaðr, gapandi; ísl. **Gorkúla, Físisveppr.**

Er nokkuð stór, dökkr, hefir stuttan staf, neðantil rykktr, áðr hann fullþróskast er hann kúlumyndaðr, hvítr, neðan grænn. Eptir að fullvaxinn er, verðr hann hálfkúlumyndaðr, og er fullr af fínu, dökkleitu dupti.

*Nytsemi og verkun:*

Sveppr þessi takist í október mánuði, látist á heitan og þurran stað, hvar hann vel þorni, síðan sè hann útá jörð lagðr, og fótum troðinn, að það yfirgnæfanliga ryk, sem í honum er, útrýmist. Við verk þetta loki maðr vandliga augunum, að ekkert af rykinu nái í þau að komast, sem mjög er skaðligt. Þareptir sèu þeir eptir stærð sinni skornir sundr í 2 eðr 3 parta; þannig tilbúinn er Físisveppr eitt hið kröptugasta blóðstillandi meðal, sè stykki af honum þrykkt á blæðandi æðar.

### 38. Skjálfandi (*Tremella*).

a. **Vörtumyndaðr Skjálfandi** (*T. verrucosa*) er með vörtum, ójafn, dökkgrænn, uppblásinn.

b. **Hálfkrínglóttr Skjálfandi** (*T. hemisphærica*) er sem hálfkríngla.

c. **Nostok Skjálfandi** (*T. nostoch*) er grænleitr, leppóttr og bugðóttr; ísl. **Skýafall.**

### 39. Mygla (*Mucor*).

a. **Almenn Mygla** (*M. mucedo*). Leggrinn óskiptr, með gráleitri blöðru, eðr kúlu á endanum, sem opnar sig neðantil.

b. **Hunángsmygla** (*M. erysiphe*) er hvít með dökkleitum, sitjandi dröfnum eðr blöðrum.

# I. REGISTR
## yfir urtanna íslenzku nöfn.



23

Blaðs.

# 2. REGISTR
## yfir þau latínsku nöfn kynferðanna.

# 3. REGISTR
## yfir íslenzku kunstorðin.

# 4. REGISTR

## yfir latinsku kunstorðin.

# 5. REGISTR

## yfir nytsemi og verkun urtanna.

# 4. REGISTR

## yfir latinsku kunstorðin.

# 5. REGISTR
## yfir nytsemi og verkun urtanna.

